# FRÓÐLEGT

# LJÓÐA-SAFN

## ÝMISLEGS EFNIS.

---

Safnað og útgefið

af

bókbindara Grími Laxdal.

---

**1. hepti.**

---

AKUREYRI 1856.

Prentað í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

Tvö kvæði
orkt af
sjera **Jóni** sál. **Hjaltalín**,
seinast presti að Breiðabólstað á Skógarströnd.

---

## I. Auðnubraut æskunnar.

(Kveðin 1799).

1. Íslanz blóma æsku þjóð! eyrun mínu kvæði ljá, byrja vil jeg barnaljóð, börnunum til gleði þá.

2. Mig þó vanti menta hljóð, og mjúka hönd til ritfremdar, bið jeg yrðu barnaljóð, börnunum til nytsemdar.

3. Höndla' ei allir hnossið sjálft, hverjum leyfist viðleitne; fuglar sýngja fleiri' enn Álft, fyr er gildt enn valið sje.

4. Eg hef' lifað heims við hag, hátt á fimta ára tug, sjeð því manna líf og lag, líka fest mjer það í hug,

5. Undrast sál mín ángri mett, aðferð manna jörðu á, hver um annan riðlast rjett, rírum heimsins gæðum ná.

6. Eptir að finna auðnu, hrós, upphefð, völdin, makt og fje, leita menn til lanz og sjós, lífsins fram að takmarke.

7. Hvern, sem vantar heimsins auð, hann er metinn vankræfur, forstanzlítið grey og gauð, göfugum ei samhæfur.

8. Augun líta marga mín, menn, er gózið fjell í vil, en ofurfáa', er auðlegð sín, eðla-gjörníngs brúka til.

9. Voldugur þann vesæld bar, virðir lítt hjá sjálfum sjer; en sá snauði öfundar, opt hinn ríka meir enn ber.

10. Mörgum lukkan ljós að dró, lofstýr, völdin, skraut og fje, full ánægðir finnast þó, fáir með sitt hlutskipte.

11. Þetta' og annað þvílíkt hjer, það í heimi finnst um hríð, veginn dyggða víst gjörer, vandrataðan úngum lýð.

12. Hjer af gjörir hug minn þjá, hræzla stór og sorg um leið; níu börnin úng jeg á, upp sem klifra lífs á skeið.

13. Guð ei stóran gaf mjer auð, glansa, völd nje mikið skraut; deildan verð og daglegt brauð, Drottinn lagði mjer í skaut.

14. Þar af gjörir sýna sig, sannleiks spáin ljós og brýn, erfa látinn eptir mig, auð ei stóran-börnin mín.

15. Hvað mun þeim til hjálpar þá, hvað mun bæta þeirra ráð, svo þau jörðu öðlist á, auðnu, framför, þrif og dáð?

16. Þar til meðal einka er, ótti Guðs og dyggðirnar; heill og blessun safnar sjer, sá þær stundar hjer og þar.

17. Völd og auður heimsins hjer, hverfa fyr enn varði mann, gróður bezti góð því er, guðræknin og ánægjan.

18. Ó mín börn! fyrst eg ei dró, ykkur saman gull og fje, hvað jeg öðlast hefi þó, hjer skal yður láta' í tje.

19. Komið öll og iðkið hjer, eptirtekt, sem jafnan þarf, heilræðin af munni mjer, meðtakið í föður-arf.

20. Ykkur því, og öll þau börn, orð mín fá í hverjum stað, vil jeg leiða gæfu-gjörn, guðrækninnar brautum að.

21. Yður fræði öll saman, andi Guðs og veiti náð, yður gæði einnig hann, eptirtekt og skilníngs-dáð.

22. Elsku barn! af ljúfri lyst, lærðu vel með hlýðið geð, þrennan Guð að þekkja fyrst, þig sjálfan og heiminn með.

23. Gæt að hversu Guð er þinn, góður þjer, en náð hans trú, hvað villugjarn heimurinn, hvað brothættur sjálfur þú.

24. Hlýðni sanna ven þig við, varast dramb og narra-lag; undirbú þig andstreymið; allt ei ber á sama dag.

25. Foreldrana nýta nú, nærst alvöldum Guði skalt, heiðra' og elska þína þú, þeirra stunda geð ávallt.

26. Barndóm þínum í þú átt, iðju sanna' að temja þjer, æskan skapar yfrið þrátt, æfi manns, það sjáum vjer.

27. Æðri mönnum af þó sjert, ekki skaltu dramba par; engin getur að því gert, af hverjum hann fæddur var.

28. Vísvitandi varast þú, vel, að styggja Drottinn þinn. Yfir falsi aldrei bú, iðka' og tala sannleikinn.

29. Gjör ei allt, sem geð þitt vill, gættu boða skaparans. Heims þig blindi aldrei ill, auragirnd nje svikin hans.

30. Annan forsmá aldrei skalt, alljafnt stunda hógvære; loforð talað lát óvalt; legg til engum háð nje spje.

31. Baktalara blíðmælin, burt þjer víkja láttu frá; flýðu þann, sem hæðir hinn, hapt þjer settu túngu á.

32. Yfirboðnum lotníng ljá, lát þeim hlýðni með í tje; þjer samlíkum þægðir tjá, þeim fátæku örlæte.

33. Brúka' í orðum breytni sízt, búralegt þó varast skraf; lofa' ei miklu', en lát það víst; lag við gikki aldrei haf.

34. Eins og versta voða þinn, varast deilur, róg og kvis, forðast skaltu fáryrðin, fylgir blóti tjón og slis.

35. Munnhöggst aldrei vonda við, verst fjölmælgi leið þjer sje; eptir megni elska frið, ei þó sambyll guðleyse.

36. Löst ei annars lofa skalt; lasta þó samt engan frekt. Forvitninni frá þjer haldt. Fjesafn stunda hófsamlegt.

37. Trúgirnd, fals og flokkadrátt, flaður, grunsemd, lýgi, spaug, þú af hjarta hata þrátt; hneysu fjekk sá tíðum laug.

38. Illum dæmin gefðu góð, girnst þó ekki allra lof; haldtu stríð við hold og blóð, hvorki brúka van nje of.

39. Góðra hylli girnst að ná, gaman brúka leyfilegt. Ríka ekki reið þig á; raupa sízt nje gorta frekt.

40. Vondra sambúð sízt er holl; svínum af varð enginn hreinn; dvel því ei í dárasoll', drussum með þú gjörist einn.

41. Voldugs aldrei vingan kaup, virðíng fyrir þína hjer; framgjarn ei nje hastur hlaup, í hárra flokk þó bjóði þjer.

42. Launmælin ei leitast við, lát þó dult það veiztu einn, skýldu samt ei skamma-sið, skálkapörum vert af hreinn.

43. Gambri narra gæt ei að, gef þig fátt um dára last; virðíng haldt þjer vænsta það, vondum æ að misþókknast.

44. Ef þú verður var við að, vondt sje um þig talað hjer, með dagfars prýði dreptu það, dyggðin bezta forsvar er.

45. Að virðíng þinni vandur sjert, varlega, en sízt um of; heiman fús ei hvern dag vert; húsgángs-rölt fær aldrei lof.

46. Hrösun ann'ra hardt ei dæm, hugsa bezt um sjálfan þig, óvin þinn ei illa ræm, eins er víst hann betri sig.

47. Ofsa bræðin ill og grett, ekki hæfir vitrum lýð; sjaldan vitnar reiður rjett, refsíng krefja svör óþýð.

48. Tem vel þína tilhneigíng; tálið heimsins varast flátt. Færð er ekki þögn á þíng, því er bezt að tala fátt.

49, Haturs manni hefn ei á, heldur velvild lát í tje, kannskje getir gjört þjer þá, góðan vin úr mótparte.

50. Örvýlnast þú allra sízt, andstreymið þá hjartað slær; þolinmæði, það er víst, þrautir allar sigrað fær.

51. Ekki hæfir eðli manns, ofsakæti veröld í, sorg og gleði síkeldt hans, sje með hófi jafnan því.

52. Gættu þess ef gleði fær, gráturinn kann að bíða þín, hugsa og, þá hryggðin slær, hretið eptir sólin skín.

53. Virta lifnað ven þjer þann, vel sómir í hverjum stað, Guð því sjer og samvizkan, sannlega hvað hefstú að.

54. Vini marga vel þjer ei, vert góðvikinn öllum samt; aumum segðu aldrei nei, ekki sturla sinni gramt.

55. Umvöndun af elsku rögg, aldrei hug þinn gremja skal. Betra' er vinar handar högg, heldur enn dára smjaður-tal.

56. Á þjer sjálfum ofmetnað, engu sinni hafa ber, vert' ánægður þó með það, þitt hlutskipti sem að er.

57. Forsjállega fram skalt gá, friðgjarn, var og hófsamur. Trúðu drauma aldrei á, eða neinar hjegiljur.

58. Láni eða listum af, lát ei geð þitt dramba fast; þakka heldur þeim, sem gaf, þess meir ber að auðmýkjast.

59. Verður einatt veröld í, voðabál úr litlum yl. Orð þín láttu aldrei því, öðrum liggja skaða til.

60. Vit og lærdóm vænsta haldt, vel að geyma líf og sál; undir neinum eiga skalt, ekki mikil leyndarmál.

61. Hvað þú byrjar, hugsa það, hvern þjer enda fái veitt; fátt er ofvel athugað, ekki flasa því á neitt.

62. Ef í skjemtun út þjer slær, og þitt sinni hressa vilt, varúð mestu lempinn lær, leik þjer þá í hófi stillt.

63. Drykkjuskapur, dára-slark, dubl og spil með jafnaðe, spreitíngslæti, háð og hark, hjartanlega leiðt þjer sje.

64. Guðs orð, iðni, góðsamt þel, geðspekt, hlýðni, hógværð, trú, hóf og frið, sem hentar vel, hjartanlega elska þú.

65. Hafðu Guð í huga þjer, heyrir Guð og sjer gjörvallt, gagn þíns lífs og gjörðir hjer, Guðs að dýrð það leiti allt.

66. Lifðu gjarn á ljúfan frið, lút þeim, sem að heiður ber, glisið heims og syndasið, sjáðu til að varast hjer.

67. Var í gleði vera skalt, vel þolgóður raunir ber, samvizkunni hreinni haldt, hræsni' og ágyrnd forða þjer.

68. Þenk um andlát þitt og hel, því að deyja sjerhver hlaut; fátt er betra' enn fara vel; farsæll dauði lífs er braut.

69. Aldrei því í výli vefst, þó viljі-örðugt falla þrátt; endirinn nær góður gefst, gott þá allt þú kalla mátt.

70. Þú ef rækir þessi ráð, þitt mun líf um æfi-bil, leiðast fram með lukku-dáð, lífsins-herra dýrðar til.

71. Æfðra dyggða æru vott, ekki myrðt fær dauðans pín, ryktið betra gulli gott, gröf þá prýðir dáins þín.

72. Guðs þig styðji gæzku-dáð, Guð þjer forði synd og neyð, Guðs svo iðjir rjett og ráð, í raun og orði fram að deyð.

73. Hjer með barna-lykta-ljóð. Ljóss eg föður börn öll fel; hafi þökk þeir hlýða óð, heillir þeir, sem læra vel.

74. Lifi' í friðar faðmlage, frónsins þessa menn og víf, yfir yður síffeldt sje, sómi, blessan, yndi' og hlíf!

---

## 2. Aldarháttur.

(Kveðinn 1809).

---

1. Áður á tíðum hjá Týlbúum stríðum var tilstand í busli. Á hnúðurbaks hlíðum þeir

hlunns renndu skíðum með hermanna rusli; hnöppuðust fríðum í hús-sölum víðum, að hrossakjöts-musli, því felldur var hríðum, til fagnaðar lýðum, sá fjenaðar-usli.

2. Manndómur mundi, um língbakalundi, að leita til víga. Svarnir við stundi, en sárlögur dundi á síldreka stíga. Margur við undi, þó sæi á sundi hinn saklausa hníga, svo sleit þá fundi, að hereldur hrundi, en holund rjeð míga.

3. Verfáka hlutu, þeir ve tíðum brutu og vopnanna grúa; höppin að hrutu þeim herföngin lutu, þá heim gjörðu snúa. Bardagar flutu, þeir bryggjum uppskutu, á bústæði núa; en frelsin burt þutu, þeir friðar ei nutu, þó færu að búa.

4. Hjekk geir óspilltur, en hjálmur sat gylltur á heyrnardalsfjöllum; en siður var trylltur, frá sannleik umbyltur, í sveitbyggðum öllum. Óðinn var hylltur og áheitum fylltur, með Ásum gjörvöllum. Margur var piltur af vantrúnni villtur hjá vegoða stöllum.

5. Hugmildi bezta þá helzt gjörði bresta og hógværðarmæti, skèmmdar-at hesta, var skèmtunin mesta og skálmaldar læti; við hildar-el hvessta,

að höggva sem flesta, var haldið ágæti, og átrúnað festa, með alvöru hressta, að Á s a n n a blæti.

6. Knattleika þreyttu, en kjæti opt breyttu í kíf og mannhefndir; ýmsir áreittu, en aðrir róg hreyttu, til ódyggða nefndir, férnarserk fleyttu, og viðnám svo veittu, til valþínga stefndir; hremsunum þeyttu, en þegnum harðt beittu, og það hjetu fremdir.

7. Þeir ljetu skjóma á hólmstefnum hljóma, þar hasli var settur; opt við lögdóma varð upphlaup og róma, svo ei náðist rjettur; ef einhver í sóma með lukkunnar ljóma sat láninu mettur, erti þann fróma þrátt öfundin tóma og illgirnis prettur.

8. Í s l a n d má muna, þeir opt gjörðu hruna á ormþvara fundum; hýbýla bruna, með bálkveiktum funa, þeir byrjuðu stundum, vopn rjeðu duna, en blóðlækir buna, úr bitskornum undum. Mist vildi una, þó mörg heyrðist stuna, á málmhríðar grundum.

9. Dyggð-fjáða drengi, og mann völ hjá mengi, þó mætti hjer finna, í kjörfriðar gengi þeir kyrrðust ei lengi af kífgirni hinna, á herþrúðar engi nam holtskriða vengi þann hógláta

ginna, því lofða afspreyngi kaus framatýs fengi, til fjörþrota sinna.

10. Nú er öld snúin, á aðra leið búin, þar yfir má kætast; helguð er trúin, en heiðni burtflúin, svo hagirnir bætast, výli fráknúin, en veblót afrúin, svo villur upprætast, velur manngrúinn, sjer vinskap ólúinn og vitið ágætast.

11. Frömuðir virða um frelsi vort girða, með friðarmúr laga, lesti lágt byrgða, í ljós færa hyrða, og lævísan aga. Mannæru kyrrða og málefni fyrða, ei múturnar baga; fáir sæmd myrða, með meizlum fáryrða, svo menn þurfi' að klaga.

12. Klerkarnir ræða og kotúnginn fræða, við kjenníngu slíka; nytjum vatnsæða, þá nýfæddu gæða með nákvæmni ríka; sefa yl glæða, ef sjer saman slæða, vill seggur og píka, beina för næða, þá braut rauna þræða, til bústaða líka.

13. Ótrúin eyðist, en upplýsíng breiðist, um álfur lanzbyggða; grimd burtför greiðist, en lýðurinn leiðist, til lofsverðra dyggða. Dólglystin deyðist, því nú enginn neyðist, til nytfriðar brigða; manngi orð-meiðist, því mjög sjaldan sneiðist, um mannæru tryggða.

14. Kauphöndlan kætir og kurinn upprætir,

í kotúnga rönnum; búskapinn bætir, því sáðrèttir sætir, þar seljast lanzmönnum. Vínið grön vætir, þá vosbúðum mætir, í vegferðar önnum. Um verðlag fár sætir, því friðstundull gætir, að frómleika sönnum.

15. Sjóinn menn sækja og róðrana rækja, til ríkkunar gæða; ísur upp krækja, og feldínga flækja, en flyðrum innlæða. Laxinn stórlækja, þó leggist að svækja, er lystug mannfæða; ýrúnga mækja kann illviðris stækja, þó einatt að mæða.

16. Valángurs kliður ei heyrist nje hríður, af hervopna braki; vinsemd og friður er sveitúnga siður, með samheldnis taki, einn annan styður, ef áfallið ryður að einhverjum blaki; nær fátækur biður, hinn fjáði er liður, og fyrr ver þann hraki.

17. Maurnefju-slinna þó megi nú finna, um meginlanz-breiður, góðprýði hinna þeim gjörir ei sinna, nje gjalda stórheiður. Manndyggð hrós inna og mæddum að hlynna, er margur til greiður; en laun eru hvinna, sem tálbrögðin tvinna, í tukthúsi hreiður.

18. Lastdómar slæmir nú linna skaðnæmir,

þó lærdóm ágreini; enginn afskræmir nje illa hinn ræmir, þó öðruvís meini; þjóst það út-tæmir, svo þegnar viðkvæmir ei þykkjuna treini; svoddann vel sæmir, því sá rjettast dæmir, sem sjer allt í leyni.

19. Árbagar þjettir og auðnunnar prettir því yfir hjer vinnast, margur hönd rèttir og mæð-unni ljettir, svo mótstraumar grynnast. Ein-hverjir slèttir við innanlanz stèttir þó enn megi finnast, fleiri dáð settir og mannæru mettir samt meiga hjer finnast.

20. Börnin uppfræðast og boðum hans gæð-ast, sem bestur var lýða; út þau ei slæðast, sem eðli var skæðast hjá öld fyrri tíða; sár-naktir klæðast, en sjúkir menn græðast, þá sótt-ir á stríða; húngraðir fæðast, en aldnir innlæð-ast í aðhjúkrun blíða.

21. Þannig vjer þreyum og þakkirnar segjum þeim þróttinn kann senda; bak upp og beygj-um, í bölinu þegjum með biðlund alkjenda; herknir stríð heyjum og hug ei burt fleygjum, þá hryggðir að venda; tímann best teygjum og trúaðir deyjum, svo tekst vel að enda.

22. Landi vel vegni og vansiðum hegni, en

vaxi að dáðum, hefnd ei uppegni, en áminníng gegni og öllum heilráðum, beiti þolmegni í raunskúra regni, og raski ei náðum. Allir svo fregni af frömuð og þegni, hvað farsælt er báðum.

23. Nú skal fjölsmíða hjer ferjan heimskríða, þó fegurð ei gylli, byr hyrjar lýða mun ljóðin vel þýða, og ljá sína hylli; sveitir samtíða, það sjótræmið fríða, með sjálfdæmi fylli. Heilir þeirs hlýða, og hjalið ei níða, þó hjer vanti snilli.

(Handrit það, sem hjer er eptir ritað undir prentun, hafði jeg áður með gaumgæfni ritað eptir eiginhandarriti skáldins sjálfs, bæði kvæðin að segja. D. N).



Tvö kvæði

ort af

## Guðbrandi Einarssyni.

### 1. Hlýra - Hljómur.

1. Fram skal kippa berlíngs bát, fyrst biðja sprundin hæfilát, þó það kosti mæðu' og mát, eg má þeim ekki neita; heldur gegna vífum

vel, sem vilja þiggja sónarpel, gæfuefni gott eg tel, ef greiðasemi mjer heita.

2. Gott hlotnast af góðum kann, græta má ei hugljúfan; auðsulítill er sá mann, sem amar opt hríngaskorðum. Dæmum hans eg dreg mig frá, og dvalins ferju staldra hjá, ef gæti' hin fróma gullhlaðsgná glazt af kvæðisorðum.

3. Mín þó víst sje mærðin kljen og minnst eigi skyldt við kváserseben, vil eg þó ei að fræðafen fari með ljóta ræðu; heldur mæla í meinleyse, mönnum það til gamans sje; ef þúngum yrði' á þjósti hlje, þá er að varpa mæðu.

4. Seggir hljóti sæmdarhag og seljur klæða góðan dag; til skal reynt að tóna brag og tega' í dælu stefni. Á gömlum blöðum gat eg sjeð glósuna, sem fer eg með, fellir hún sig við frómra geð, ef fylgja ljóðin efni.

---

5. Bragurinn telur bræður þrjá barnfædda í Evrópá, föður sínum heima hjá með hegðun æruríka; en sem voru' um æskuskeið, álmaráður hreppti deyð, sjerhver þeirra bánginn beið, því burt var móðirin líka.

6. Fjórtán vetra fullt ei var frekastan sá aldur bar; en hinir tólf og tíu þar. Þeir töl-uðu' um hagi sína: hvort nú skyldi skipta fje í skjerfi þrjá, þó lítið sje, og fólk-sjer kynna framande, end fund hvor annars týna;

7. Ellegar hitt, að halda bú á heimili því, sem áttu nú, þó vandamikil vogun sú væri úngum sveinum? Miðaldrinn svo mælti þá: „mínir bræður! hlýðið á orðin þau, sem eg vil tjá útaf þánka hreinum.

8. Eg fæ þess minnst: að faðir minn fögur kjenndi' oss heilræðin; ályktun og úrskurðinn undan skyldum draga, til þess væri velskoðað vandskiljanlegt það og það; opt kjæmi líka' úr öðrum stað augljósari saga.

9. Bíða skulum bræður vær og brúka allar reglur þær, er okkar faðir einka kjær oss, örf-um sínum, kjenndi. Gott ráð eitthvert koma kann, ef kvökum uppá skaparann og vörumst allan vanda þann, er vekur opt stór bágjendi.

10. Nú meðan sorgarsárin styrð sefast ei nje verða byrgð, getum vær ekki kjænt með kyrð kósið skárstu ráðin; en þegar líður lengra frá,

hjettára mun oss falla þá, gæfusamt að gezka uppá, sem gefa vill herrans náðin."

11. Hjer til svara hinir tveir, hagkvæmt svoddann játa þeir og báðu' hann optar mæla meir, fyrst mannvit hefði stærra; fóru svo að iðja ört áður flest hvað sáu gjört, billega ræktu bustabjört, en bernsklegt æfðu færra.

12. Nú leið svo um nokkra tíð, naumast kjenndu bræður stríð, því sumar-gæzkan björt og blíð bjargræði þeim tærði; örkuðu sveinar opt á skóg, ýmislegan að fá sjer plóg, dáða-jurtir og dýrin nóg, sem daglegt starf áhrærði.

13. Veiðar sóktu í ýmsa átt; til annara manna vissu fátt, því faðir þeirra flúði brátt frá skurðgoða-þjónum með konu, börn og kvikfjenað, Krist sjer hjálpa og stjórna bað, og tók sjer bygð í tjeðum stað, hvar tíð útkljáðist hjónum.

14. Einhvern dag, sem innt er frá, enn voru bræður skógi á, en sem linnti yfirhustjá, allir heim þeir gengu; hlýrum nærsta brá í brún, þá bæinn litu' og heimatún. Viðtakan, og vond var hún! sem vinnulúnir fengu.

15. Fjórir illsku miklir menn mæta hlýra tóku senn, færðu strax í fjöturen og fleygðu í úti-

kofa; kváðust mundi' að morgni dags miskunnarlaust þá drepa strax, nær beðið hefðu betra lags, búnir að jeta og sofa.

16. Reyfarar þessir rjett í stað rosknum höfðu sauð slátrað, hús' og soðníng settust að, og sinn bæ heita ljetu; en hinir í böndum biðu þó, beiskum kvíða að þeim sló, harmþrúngnir um hyggjumó, hátt samt ekki grjetu.

17. Allir báðu ángraðer, æztan Guð að hjálpa sjer; sá hinn elzti' um síðir tjer svo til hinna beggja: „hamíngjan gæfi', að hefðum við hjeðan vendað strax á skrið, þá föður vorn hendti fjörtjónið, og frómra náð til seggja."

18. Ýngsti bróðirinn ansar snart: „óljóst er oss nokkurn part, hvar dygðafólkið býr svo bjart, sem bætt hefði vor meinin; því faðir okkar fjekk svo tjáð; að flest allt mengi' um þetta láð, heiðið væri' og dæmt frá dáð og dýrkaði stokk og steininn."

19. „Betra er flest, kvað frumgetinn, enn fastur sitja hjer bundinn, og deyðast þegar dagurinn dreyfir skarti sínu; er minn bróðir orðalaus, sem áður flutti spektarraus; glaður í sama sinn eg kaus, að sæta tali þínu."

20. Þá rjeð ansa hinn þriðji sveinn: „það sje okkar vegur beinn, Drottinn vona uppá einn, en engu stórum kvíða. Vilji' hann nú vort vernda líf, veitast mun þá örugg hlíf og dofna þetta dauðans kíf, sem dygðalausir smíða.

21. Víst má reyna', ef viljið þjer, veltast til að herðum mjer og bíta' í sundur haptið hjer, sem hauka þreyngir láðum, strengurinn því mundi mjór misfarast í tannakór, ef gómaskari greiðt ósljór gengi' á þætti hrjáðum."

22. Tveir þá veltust einum að og óspart tugðu snærisvað, frá sjer gáfu' ei fyrri' enn það fjöturin sundur hrukku; dáfljót var þá höndin hans af hinum að svipta læðíngs-fans; allir svo fyrir utan stans útá skóginn stukku.

23. Þökkuðu sínum Drottni dátt drengir þrír með lyndið kátt fyrir hjálp og frelsið bráðt úr fjandmannanna höndum; fengu sjer svo fylgsni smá, í fjarlægð komnir bænum frá, skógarins lifðu ávöxt á, fyrst efnum sættu vöndum.

24. Varla þóktust vita nú hvert víkja skyldu hárs um frú, svo halda mættu helgri trú, en handbjargar þó njóta; hvarms því sallinn komst

á kreik, þeir kúrðu undir stórri eik, gæðs var rótin gljúp og smeik, því griðin sýndust þrjóta.

25. Mána systir glöggt þó glöð gæfi varma ferða hröð, hlýrum skýldu bjarkar blöð blunds þeir lángan festu; miðlúngs sveinninn vakna vann víst fyrst einn um tíma þann; hjá sjer lítur hænu hann hlaðna gulli beztu.

26. Fagran glansa fuglinn bar, framyfir allar gersemar; sveinninn vildi snildar-snar snögglega þennan fánga; en fjaðranorn sjer forðað gat, föst hún ekki lengi sat, kom í með þeim kjeppnis-pat, þau kreikuðu vegu lánga.

27. Laufaviður loks um frón á listafugli missti sjón, en það gildti enga bón aptur að finna bræður; dimmri þoku um drenginn sló, í dauðans kappi hljóp hann þó, burðina til þess burtu dró, bölið og háinn skjæður.

28. Villan þókti stór og stæk, hann staðnæmdist hjá einum læk, þegns var lundin þegi spræk, þiggja svölun vildi; fjekk svo lítinn dúr dottað dauðþreyttur í sama stað; vaknaði aptur þó við það, sem þekkt ei glöggt nje skildi.

29. Örðugan heyrði einhvern hljóm, ekki líkan mannaróm, halurinn kjenndi hljóðin tóm, en

hvergi neitt aðkvæði; brynjatýr nam tefja' í hlje, til þess sóninn þagnaði, og þeinkti' um mjög hvað svoddan sje, hann syrgir og fagnar bæði.

30. Fetaði svo með fjallsins hlíð furða gæt-inn nokkra tíð, í fögru rjóðri fann um síð fallega húsakynni; kurteis bær og kirkja smá kynja fríð stóð velli á; klerkurinn var að kjenna þá kristnum lýð þar inni.

31. Vaktist upp fyrir vopnarjóð að verið hefði kluknahljóð, sem hann heyrði' á sinni slóð, són-inn þann hinn snjalla, helga messu' að heyra þar honum þókti nýángar, úti stóð sem vonlegt var fyrst vissi' ei siðina alla.

32. En um miðja messugjörð minja gjekk út einhver jörð og fann þann únga fleinanjörð, svo fáum skiptust orðum. Hafði' ei fyrri kappinn kjær komist uppá nótur þær, að eiga tal við ýngismær, og auðar gá að skorðum.

33. Meyan spurði málmabrjót hvort mædd-ur vildi' ei hvíla fót, og gánga' í kirkju snöggt með snót svo sniðugt fengi sæti; sveinninn gefur aptur ans, á því mundi verða stans, því sinni vendi fatafans sig firrà þeirri mæti.

34. þessi' hin únga þornagná á þegninn

starði' og litum brá; honum segi' eg færra frá, en fólk skal meiníng ráða. Hún hefur kjennt í brjósti' um þeim, er bölið leið svo snemma' í heim, og barnslundin í báðum þeim borið hyggju þjóða.

35. Kjæran úng til kirkju gjekk, karskan skildi þar við rekk, móður sína fundið fjekk með fagra bæn í hljóði: „munaðarlausan sá eg svein, sem hefur ratað þýngslamein, klæðfár úti kúrir á stein kesjuviðurinn rjóði.

36. „Ó! mín móðir elskulig! ástsamlega bið eg þig, að látir þenna mann fyri mig miskun hjá þjer finna, og veitir honum velgjörð þá, sem volkuðum helzt nú liggur á, svo dapurleikinn dragist frá, og dempist sorgin stinna."

37. Sú hin eldri seimaslóð sagðan hitti skjómarjóð og mörg þau atvik greiddi góð, er grátnum þótti haga; kvendið bar fram kost og vín, klæðin líka' í máta fín, honum svo bauð í húsum sín að hýrast nokkra daga.

38. Þakkar sveinninn þornabil þetta veitt af kjærleiksyl, hún kreikar síðan kirkju til, en kjenníng var á þrotum — Hópurinn kristni

fregnað fjekk fljótt um sagðan komurekk; flykt-ist að honum þjóðin þekk þægðar með atlotum.

39. Maðurinn úngi minnisbress mælti fram sitt reisuvers, gjörla alls svo gat hann þess gengið hvernig hefði um sína daga', og seggi bað sjer að hjálpa mest um það: að bræðrum leita strax í stað, og stórt ei við það tefði.

40. Karlmenn allir keyrðu' á hest, klerkur-inn' líka búinn sjest, reið þá hver sem mátti mest, meir enn 16 taldir; þeir sjer dreifðu' um þykkvan skóg, þyrmdi enginn sinni dróg, leituðu sumir lengra' enn nóg liðsmenn rjett tilvaldir.

41. Á þriðja degi, það er skráð, þegnar tóku hvíld og náð, sváfu þreyttir svo með dáð, en sveinninn vakti breiður; heyrði' hann brak í skógi skjótt, skygndist eptir þessu hljóði, þá var dimmt og þoka' um nótt, þjarkinu hvað sem veldur.

42. Litlu síðar líta kann, hvar loddari nokk-ur koma vann stórvaxinn og stelur hann, strax þar tveimur hestum; heppinn þetta höldum las, þeir hýddu af stað með ekkjert þras, mjög svo þreyttu ferðaflas í flýti allramestum.

43. Hvergi litu skjemmdarskrjóð, skatnar

röktu döggfalls slóð, uns þeir komu stór hvar stóð sterkur skáli' á velli; en sem rekkar riðu heim, risinn kom á móti þeim, hetjur þar með höndum tveim honum leifðu elli.

44. Bragnar kanna bygðir hans, bræður fundu' hins únga manns og gersemanna góðan fans; glaðt var nú á mengi. Bófinn hafði hlýrum hleypt í hlemma-fylgsni niðurgreypt, þussans áttu' að þola heipt í þrældóm illa' og lengi.

45. Báðu prestinn bræður þrír og burðugan sjerhvern vopnatýr, að hildarsöngur hefjist nýr við hernda ránsmenn fjóra. Sagði já til bóka-bör, ef brytust ei úr sinni för. Kvaðust mundu, svinn með svör, sveinar hjá honum tóra.

46. Gumnar fundu bræðra bæ og brutu' hann upp en sagt var: æ! þau hin vondu hrekkja hræ hrepptu þúngar nauðir; þeim var boðið að taka trú; til þess sagði einn: „ójú!“ Hinum fjell ei siðsemd sú; síðan fjellu dauðir.

47. Kappar tóku kvikt og dauðt; við kotið skildu tómt og snauðt, síðan var um æfi auðt, en ýtar hèldu að bygðum; glöddust allir Guðs við náð, er gaf þeim bræðrum hjálp og ráð,

fagran lofsöng fengu tjáð, en fólk allt sleppti hryggðum.

48. þessunæst til það eitt bar, þrætumál að uppkom þar, dómari enginn viss þó var í virða flokki tjáðum; skipuðust um það skúnstu menn, skýrslu' að gjöra um rjettindin, þvílíkt byrjað eins var enn eptir prestins ráðum.

49. Myrkt og flókið mál það var, mjög vandgæft til úrskurðar, seggjum ekki saman bar sannast hvað þá væri; miðlúngs bróðirinn mannvits skýr merkti þetta lindis hýr, hann þenkti' um slíkt og þángað snýr, nær þókti tækifæri.

50. Greinilega hann görpum kvað, hvað gjöra skyldi' um málið það; maður fann þar enginn að; allir slíku játa. þá hölklaméiður heyrt það fèkk, heimti' hann til sín úngan rekk, og batt hann sèr við blíðu hlekk í bestum kjærleiks máta.

51. Lundur skjóma lærði þá af letragæti marga skrá, bóklistirnar fljótt nam fá, fallega skilníngs bráður; útlærður svo úllur branda eignaðist dóttur kènnimanns, við kirkjudyr sem kom til hans, og kveðið hefi eg um áður.

52. Þeirra samvist þókti góð, það hefi' eg frètt af stálarjóð: að dómari varð hjá dýrri þjóð og dugnað margan framdi, bræðra sinna bætti hag, byrjaði margan hildar slag, görpum heiðnum gaf ei dag, en gott með kristnum samdi.

53. Fjölgaði við það fólkið hans og færðist út um bygðir lanz, en eyddist þarvið illur fans, sem engum sætti griðum; mektugur varð nú málmaþór, mikill lofstýr af honum fór, að viti' og mannskap varla sljór og vænstu kurteis-siðum.

54. Unni honum ýtasveit, öllum sýndi' hann riktugheit, aldrei trygð nje trúskap sleit til síðustu daga; og endti líf sitt aldurs hár; ýtum þreyngdi harmur sár, þá fluttur var til foldar nár. Fellur þannig saga.

---

55. Nú hefi' eg sagt þjer, niptin gulls, nokkurnveginn út til fulls, lífssögu þess laufaulls, sem löngum framdi dáðir, og föðurs ráðum fylgja kaus; fannst því aldrei hjálparlaus, þá styrjöldin að garði gaus, gáfust aptur náðir.

56. Brátt fáum vjer af bragnum sjeð, að bræður hans þess nutu með, það hann sjer

tamdi gætið geð og Guði treysta vildi; en hyggjan sumra heims um bý horfir lítið eptir því; þeir eru-með sitt hopp og hý, hófmóðugri enn skyldi.

57. Öllum mönnum óska' eg góðs, orð mín taki' ei sjer til móðs. Hjer skal verða endir óðs, því ódreyr finnst mjer tómur. Far vel, seggur og faldavör! fullsælust þá dvínar fjör; kýs eg þetta kvæðishrör kallist: Hlýrahljómur.

---

## 2. Hrafnahrekkur.

2. Nú skal seggjum segja: söguþátt með skýrri grein, og þögn burt frá sjer fleygja, sem fólki' á stundum gjörir mein; komi þið hingað klæðaseljur snjallar, og sitjið á meðan súngið er, eitt sónarkver því ljóðaklukkan kallar!

2. Bar svo til í bygðum, bogamaður eitt sinn var, sauði' að svipta stygðum, sífeldt veiddi tóurnar, ábataðist örfatýr við þetta; þó nokkuð yrði stundum stans á störfum hans að svíkja pútur pretta.

3. Fræknum fleinaþolli förlast veiðiskapurinn tók, því einn íbygginn skolli, armæðu stóra

honum jók; dratthali með drjúgu limsku bragði aldrei snerti agnbitann, en ávalt hann á þús-und leiðir lagði.

4. Slægðar greiið grimma, grandaði margri sauðakind, en þegar að rjeð dimma, stíð kom á bogans stund, og nætur allar náði agnið verja, svo önnur dýrin fældust frá, nær fjandi sá, tók í heipt að hvíja.

5. Geymir góinsdínu, grjet af slíku vandræði, agni sviptur sínu, og sjálfri gróðavoninni; döfnuðu frost en drýgðust snjóar harðir, tók að gjörast tóa svöng því tíð var löng, og vaktaðar voru hjarðir.

6. Nú sem neiðin knúði, nærfærnin svo aukast vann, fimleik tóa trúði, og tilti nögl við agnbitann, boginn hleypur bráðt sem auga renni, en fótur á liddu fastur sat, hún fjekk nú mat, brá í brúnir henni.

7. Refkeilan í raunum, ráðalítil mælti þá: má eg nú mínum launum maklegustum þreifa á, lambadreyrann drakk eg áður lengi, og firðum gjörði á fjenu skamm, mjer finnst það vamm, lokið er lukku gengi.

8. Dapurt er að deyja dögunum lífsins miðj-

um á; en hitt sumir segja, að sje eg illgjörn, fölsk og flá; illa fer ef enginn finnst því staður; en hitt er og víst, um veraldar-rann, opt vēra kann, grunnsær margur maður.

9. þar fyrir vil eg voga, vís er dauðinn hvort sem er, þá illur bendir boga, birtast þegar á morgùn fer, einhvern honum slægðargrikkinn gerà, en hvíla mig meðan gríma grá, hjer gengur hjá, það verður svo að vera."

10. Meiðir stáls að morgni, mælt er klæðist af-lúinn, vakti hann vaninn forni, veiðiskap að stunda sinn, sjer hann þá hvar sauðbíturinn slægi, blýfastur í boganum lá, svo bærði' ei á, hann drap við dauðu hræi.

11. Kátur kjesjulundur, kjenndi með henni ekkjert líf, bogañ bendti' í sundur, og belgnum fleygði þórs-á-víf; í þessum svifum tóa tölti' á fætur; haukastjórann hann þá rak, í hennar bak, það myndaði með þeim þrætur.

12. þókti raun-ill rebba, hún reif og skjemmdi fróman mann, á munn, hönd, höku' og nebba, og hvar sem náði beit hún hann; seggurinn þegar sársaukann rjeð finna, orkan hverfur tjörgutýr, en tóa snýr, burt til byggða sinna.

13. Særður seimaraptur, sat með skaða til-fellin, bogann engdi aptur, og andvarpar með grátna kinn: „lifi' eg þá stund, að tóa í þjer tolli, varast skal eg vondan gamm, mjer veitti skamm, að sleppi' ei skjemmdar skolli.„

14. Nú er að tala' um tóu, hún tölti burt frá særðum rekk, en hrafnar frakkir flóu, um foldarsvæði þar hún gekk; kasta á þá kveðju' hún gjörði sinni, en þeir báðu ólukkann, að eiga þann, sem flagð væri' í fögru skinni.

15. Þegar hún þetta heyrði, þúngan bljes og staldar við; skútunum illa eyrði, og erta vill þá dálítið; varpar hún sjer í viðar þykkan runnà, og æla ljezt af offylle, svo áfram hnje, uppfull eins og tunna.

16. Krummar svángir svara: „svelta megum við dag og nótt, en aðrir um foldu fara, fullir og spýu hafa „sótt; jafnara má skipta fje og föngum; hvar skal dubba nú hafa náð, svo nægri bráð? Þángað er gott vjer göngum.“

17. Tóa reis úr runna, ræddi svo með velgjubrot: „ykkur vil eg unna, að eta hjá mjer kjöt og flot, því allra skjepna eru þið

maklegastir, að njóta góðrar næringar, svo. þrífist þar, vinirnir vel trúfastir.

18. Ei þarf lángt að leita, ef leggið rjett til austurs hjer, krásin kynjafeita, kynni' að verða opinber, sem einn er biti' á flötu fannarkorni, því að i skafli þessum þar, eru þjósirnar; yddir á efsta horni.“

19. Þetta krummar kváðu, kynlegt vera' um vindsvals nið, frjettir framar tjáðu, „fundvísa þig köllum við.“ Hún þá mælti: „heilla piltar góðir! einhvern tíma eg var rösk, og vinnukösk, áður um æskuslóðir.

20 Minndi' eg mína drauma, matur yrði nógur til: Húngraði' opt hinn aumla, sem engin vissi á fróðleik skil; hjartans-kvöl hvað hjábægt ykkur verður, drengilegum og traustum tveim, í tökum þeim; eða'er ykkur galdur gerður?“

21. Hrafninn ansar annar: „yður vil eg þakka beint, ef sagnir eru nú sannar, og svoddan efni gjörvallt hreint; þar með líka þjenustubúnir vera, En hún sagði: „æi já! og eins hvað þá: sig aptur obligera.“

22. Síðbuxar þá sögðu: „sízt hjer lengi tefja

skal.“ Kátir á leið svo lögðu, ljettfærir um vindasal, kvöddu ref með repútjerlegheitum; tóa vafrar kaldri kló, í kampinn hló, með hljóð af stórum streitum.

23. Kári kylju hvesti, krummana lætur byrinn fá, báðir á brúnu vesti, bitanum kjepptust við að ná; en annarhver hlaut áform slíkt að vinna, ótvílráður krækti' í krás; en kvað við lás; greip hann stálið stinna.

24. Kroppurinn var í kreppu, kreistur á millum járna þar, en hinn við skjemmdar skreppu, skauzt því burt og beið ei par; bóndinn sá af bæar-hlaði sínu, eitthvað dökkt í boganum beið, svo brodda meið, glaðt varð geðs um línu.

25. Arkar strax af standi, stóran arngeir tók í hönd, þar um helzt hugsandi, holta-þór að veita grönd; en sagði', er leit á vængja blærin blakka: „Elía spámanns nokkur nú, skalt njóta þú, og burt með friði flakka.“

26. Krúnkur fjöri fagnar, og flýtti sjer úr sögðum reit, skvaldur mikið magnar, mælti svo: „þess strengi' eg heit, áður enn líða árin tvö með sanni, láfótu eg launa skal, sitt lymsku hjal, svo einhverja kreppu kanni.

27. Víðförull að vonum, vitja fór um maka sinn, tíðindin tjáði honum, og talar vel um bogmanninn; hermdi' og líka heitstreyngíngu greiða; en hinn kvazt mundi hjálpa til, með hagleiksskil, meldogginn að deyða.

28. Þá voru Þorra dægur, þrotin flerst um þetta bil, en veturinn mjög óvægur, og vondt að abla matar til; uiðakrakkar umferð víða reyna, eitt sinn komu þángað þeir, er þornafreyr, gildru egnir eina.

29. Yggur lægis ljósa, lystugur skildi fugla mál. Krummar glöggt þá glósa: „gefðu nú fyrir þinni sál, eina máltíð okkur gestum báðum, eitthvert skal þá lukkulag, þjer láta“ í hag, víst að vorum ráðum.“

30. Maðurinn gjarn á greiða, gaf þeim ræfil strax af sauð; en þeir uppá sneiða, og eyddu þar með húngurs-nauð, báru með sjer bógpartinn um grundir, unz þeir tóu sína sjá, hvar soltin lá, kletti einum undir.

31. Settust krummar kátir, kjúku ýmis þegar á, mjög svo mikillátir, mat sjer gjörðu strax að fá. Hávaxinn var næsta salur suðra;

láfóta þá lítur hátt, með lyndið grátt, krumma' í kríng að snuðra.

32. Klók með kjaptinn flennta, kallar upp til þeirra' í stað: „Skyldt er sagt að senda, svoleiðis einn þá kemur að, er það nú, þegar afbragðs herrar slíkir, og höfðíngjar um heimsins storð, þeir halda borð, mildir og menta ríkir.

33. Ó! hvað lukkan ljenti, að lifði' eg slíka gleði-stund, hamíngjan þörf mjer þjenti, þegar eg komst á ykkar fund, og vera nú stödd í vina slíkra húsum, sem bæði hafa góðfúst geð og gózið með, saddir af silfurkrúsum.

34. Víðt hef' eg farið um foldu, og fallegar skjepnur margar sjeð, en enga ofan á moldu, öldúngis svo við mitt geð, eins og yður, dáfríðustu drengir! Ó! hvað ljómi' er svoddan sjón, eg sýng við tón, og herði' á hljóða strengi."

35. Krummar upp buxum bregða, og brúka þvílík svör á mót: „Hver er sú flærðar flegða, sem fer með þvílík smjaðurhót? Eða' ertu nokkuð lángt að komin, Kjella! hefurðu okkur áður sjeð, við ómabeð? Láttu' í góm nú gella."

36. Tóa tók að mæla: „Töm er ríkum drambsemin, en auman frá sjer fæla, og fixera' hann

fyrir glappyrðin. Voldugra spurn eg verð þó úr að leysa; Blóðdrekk kalla bragnar mig, og bista sig, svo lítt má eg rönd við reisa.

37. Lúin af löngum erli, eg lagðist undir þessa klöpp; mark er á mínum ferli, mjer er íllt í einni löpp; smáhvinska sjer smeigði' inn hjá mjer snemma, en þjóðin ekki þolgóð er, ef það til ber, vill mig kvelja og klemma.

38. Báða ykkur únga, eg sá forðum hreiðri í; liðuð þjáning þúnga, þegi neinn rjeð sinna því; en foreldrar í fjarlægð voru staddir; egg og silúng eg þá bar, til ykkar þar, svo allvel urðuð saddir.

39. Nú vil eg kaupið kjósa, og kjerlíngunni sendið sneið, fyrir þá grein, sem glósa, græddi eg forðum ykkar mein; ættkvísl þessa elska' eg því svo stórum, mjer og einninn mun hjer vís, ein matar flís, af sauð eða svæfðum jórum."

40. Krummar sögðu': „ó systir! sæmd er okkur að bjarga þjer; en nú eru vorar vistir, varla eptir neinar hjer; horfðu nú sjálf á þúfuleggina þarna, skafinn eins og tálgað trje, svo trauðt má skje, að mat við geymum gjarna.

41. Hvað skal um sveddar segja, ef synjandi

eg fer á burt, virðar við oss sveia, víst er það og engin kurt, að bregðast þeim, sem bjargað áður hefir; ráð viljum kjenna þarflegt þjer, sem þar epter, ávöxt góðan gefur.

42. Sjerdeilis þar við sjáum, síst er að efa þína dygð; engan annan fáum, sem eins vel heldur sína tryggð; láttu nú enga lifandi kind það vita, heimuglegt hvað hjölum vær, þú heldur fær, optar ætan bita."

43. „Tófa talar af ljetta: „taki mig sagði' hún Belzibubb, ef eg skal yður pretta, svo yðar breytni komist upp. Væri nú hjá mjer vitnisburðir mínir, tvímælin þeir tækju' af hjer; eg trúföst er, eins og seðillinn sýnir."

44. Fjaðranjótar náðu, nú að mæla hægt og stillt: „Að orðum okkar gáðu, ef til góðs þau brúka vilt. Við höfum fundið vistir óþrjótandi, uppá einum urðar mel, og veit það vel, enginn á Íslandi.

45. grjót og stórir steinar, standa' að sönnu alltumkríng, um dyr dálitlar einar, daglega skríðum kjöts að bíng; það veit eg, að þú ef komin værir, áræðin og orku kná, þeim urðum frá, fallegan bagga bærir.

46. Við skulum fljótt þjer fylgja, svo finna kunnir greindan stað, að fæðis engin ylgja, áskynja neitt verði' um það, átta mílur eru þángað vegar. Tóa þakkar tilboð ríkt, og telur slíkt, glósur gleðilegar.

47. Öll á stað svo streyma, stiklar tóa', en flökta þeir, um öræfis eyðigeyma, ekkjert segir frá þeim meir, fyrr enn krummar kvölds að einni stundu, komu þar sem klöpp var há, og kváðu þá, hvílast til morguns mundu.

48. „Henni tóu hjer um, höldum við næsta kunnugt sje, á ferli aldrei erum, þá af er komið dagsetre; til morguns verður máltíðin af að letjast, því nú er skammt á nefndan stað, hvar nægtum að, öll munum síðan setjast.

49. Við skulum fara á fætur, fljótt þegar dagar" sögðu þeir; láfóta þá lætur, líkt sem vilji' hún sofa meir, og bað þá hvílast hvað sem annars væri. Í hellirsskúta hátta fer, en hrafnarnir, bjargs í fremsta færi.

50. Tóu vært ei verður, vaxa tók nú áhugenn, skopleg skottugerður, skjökta nam á fætur senn; fýsir hana', að forvitnast um betur,

grjótmelur hvar mundi sá, er minnst var á, og fljótt hann fundið getur.

51. Nasvís nú sem kunni, nokkurnveginn strax þá sjer, hvar gat eða grenismunni, gjörður á millum steina er, inn þar hleypur athugalaust með skyndi, hentuga flís í hvopti dró, en heyrðist þó, eins og eitthvað hryndi.

52. Ætlaði' út að gæast, óttafull um sinnubý, en þá nam henni' ei hægjast, hurð var komin dyrnar í, og allt um kríng fannst engin minnsta smuga, hún ólmaðist með spínk óspart, og sparkið harðt, það náði' ei neitt að duga.

53. Kvásis-æða unni, eg vík nú til gildrumanns; í dögun klæðast kunni, komu hrafnar þá til hans; „Bonus dies, bezti vin! þeir mæla, veiðisteinar vænta þín, því vargur hrín, við Fenris festarhæla.

54. Ylgur illa lætur, ýmis millum jaxla nú, hamdýsar grand grætur, ef græðir ei slíka styrjöld þú.“ Stóð þá ekki stálagrjer við lengi, grimma hitta grenja slödd; hún gleymdi rödd, hel trúi' eg fljótt þá fengi.

55. Nefjar um búkinn báðu, þá búið væri að taka' af skinn; brátt þá beiníng þáðu, bartskjera

tóku verkfærin, og allan búkinn anatomerúðu; kátir sátu' að veiddum vörð, og víða' um jörð, spottlega spazjeruðu.

56. Hyggnir vilja halda, hafi þessir hrafnfuglar, greindum gætir skjalda, gjört að færa Bezóar; sagan er klár, en suptúngs-mjöð á þrotum; öllum frómum er mín bón, minn eyrnasón, horfi' að heillanotum.

57. Bið eg nú bragna kjæra, og bríkur auðs, sem hlýddu skrá, ljóðin í lag að færa, og leirburð mínum ef hneyxlast á. Mærðin styrða nefnist: Hrafnahrekkur. Frosta hast hjer brýt eg bát, við bylgju-mát, en Brandur á land upp stekkur.

---

## Bárðar Ríma.

kveðin af Hallvarði Hallssyni, sem lánga tíð bjó að Skjaldabjarnarvík á Hornströndum, og dó þar gamall,

---

1. Víða flýgur vignis sprund, valur gauta yfir, sækir eptir fjölnis fund; furða' er hvað hann lifir.

2. Því hann margar þrautir ber, þverrar afl og megin; veit eg samt að verður hjer, Vöggur litlu feginn.

3. Því skal hulinn þundar vír, þönkum frá svo vendi, una sjer við æfintýr, er það nú fyrir hendi.

4. Efnið kvæða opt er smátt, einatt bundið saman; kann af litlum ljóða þátt, lýðum verða gaman.

5. Sumum virðist þögnin þrá, þyggur skjemtun feginn; hefir tíðum hugnast sá, er höggur skarð í veginn.

6. Heimskan dillar eyrum í, er það gamall vandi; eðlið vonda veldur því, vananum æ fylgjandi.

7. Þó að sumir sýnist bezt, sældar njóta tíða, eflaust hafa einhvern brest, allir við að stríða.

8. Enginn kosti eða ment, allskyns hljóta náði; það sem ekki er einum hendt, annar læra gáði.

9. Aldurinn brúka eigum vjer, æfin fljótt fram líður, hendt til starfa æskan er, ellin mikið síður.

10. Þó að hrasi einhver ört, optar enn vera skyldi, máskje hann ekki geti gjört, glæpum að þó vildi.

11. Flestir erum veikir vjer, vonzku fylgir galli; gái hver að sjálfum sjer, svo hann ekki falli.

12. Lukkan háfa heims um tún, happa þykir fengur, upp og níður optast hún, eins og hjólið gengur.

13. Einn á nógan aura plag; annar er ber og snauður; kátur lifir kóngur í dag, kannskje á morgun dauður.

14. Þann veg líður æfin út, eptir dæmum ljósum; nokkrir hafa sorg og sút, sumir baða' í rósum.

15. Ekkjert skartið á sjer ber, eða höfðíngs-siði, barnið þegar blóðugt er, borið af móður kviði.

16. Sama dæmið sýnist mjer, sýnis til framborið, þegar líkið örendt er, ausið mold og troðið.

17. Vjer ef sjáum vígða mold, vel af beinum þvegna, enginn þekkir hvert er hold, herramanns eða þegna.

18. Ráðið bezta það er því, þrautum taka glaður, líka kjörum lukku í, láta eins og maður.

19. Hverjum, sem að högum fer, heims um víðar álfur, getur enginn gefið sjer, gæfulánið sjálfur.

20. Yfirboðnir öðrum hjá, eiga vandann meiri, þúngan reikníng þenki á, þeir hafa pundin fleiri.

21. Held eg bezta hlutfall rjett, hvergi lukku bægja, lifa svo í lágri stjett, láta sjer ánægja.

22. Hvert, sem gengur með eða mót, mýkjum þánka bráða, möglunin þá linast ljót, látum Drottinn ráða.

23. Alla tíma umbreytest, æfin rósemd fjærri; þegar hryggðin þjakar mest, þá er gleðin nærri.

24. Enda kífið harma hjer, herrann lætur taka, kjennda lífið auma er, eins og nætur vaka.

25. Þó að móti blási byr, og bylgjan þjái nauða, einhverntíma', ef ekki fyr, endast það með dauða.

26. Eptir stuttan eymdar-hag, eigum vísa borgun, hver veit nema dóma-dag, Drottinn setji' á morgun?

27. Hvert sem ljenast lángt eða skammt, lífið fram að teygja, einusinni eiga samt, allir menn að deya.

28. Ekki hjálpar orða-snilld, eptir málum draga, ekki heldur vina-vild, vífl nje krókar laga.

29. Prófið tekið áður er, enn menn fara' að deyja; dvelur því ei Drottinn hjer, dóminn upp að segja.

30. Sök er þúng, ef sóknarinn, sátta vill ei gæta; vel sje þeim, sem viðbúinn, verður þá að mœta.

31. Vor sje Drottinn vernd í neyð, veiti'að auðnast kunni, gleði' í lífi, gleði' í deyð, gleði' í upprisunni.

32. Enda mansöngs ekki vönd, orð, er gjöri' eg bjóða, Gyðju kvæða högust hönd, hörpu stilli ljóða.

---

33. Sögunnar upphaf sagt eg get, seint þó efnið fari: Óvani einn hersir hjet, hann var landstjórnari.

34. Lokinnheimur land var nefnt, er laut hans valdið undir; híngað dýsir höfðu stefnt, hversíng lángar stundir.

35. Þessum mátti þjóna flest, þjóð með báðum höndum; hann því ráðin hafði mest, hjer á Norðurlöndum.

36. Bæði átti byggð og torg, burðugur stórhöfðíngi; hans aðseturs höfuðborg, hjet á Almenníngi.

37. Kvongaður var kjesjuver, konunnar þóktist jafni; öðrum snótum af sem ber, Ódyggð var að nafni.

38. Leppagríma lundu í, líkust þókti honum, unnu þau hvert öðru því, eptir sínum vonum.

39. Sagður greifi sat í kyrrð, setti stjórnan víða, um sig mikla hafði hyrð, herradóm að prýða.

40. Ljetu skatta löndum af; lýðir þegns í gildi, sínum mönnum mála gaf, misjöfn not þó fylgdi.

41. Herramenn í höllu ljet, hafa virðíng stærsta; Frívilji, sem glöggt eg get, greifa sat hið næsta.

42. Móðir átti þessi þar, þundar elda beitir; næm og snoðug nornin var, Náttúra sem heitir.

43. Forn í skapi, feikna bráð, fyrir sjer ekkjert vafði, lofðúngs gamalt leyndar-ráð, lengi verið hafði.

44. Mæðgin bæði þóktu því, þörf að hafa' á gætur, lög að setja landi í, líka rjettarbætur.

45. Samhendt voru, í svoddan list, sögð að allra rykti; Náttúra hvað frambar fyrst, Frí-vilji samþykkti.

46. Átti fyrða foríngenn, fjölda liðs um velja; mun því fleiri meiga senn, menn til sögunnar telja.

47. Ránglátur í rjettar stað, rírði margan sóma; hans embætti helzt var að, heija fjeránsdóma.

48. Hvar sem reisti heims um ból, hver einn maður kjenndi, Ránglát skrýddan rauðum kjól, með reiddan vigur í hendi.

49. Fjegjarn hjet sá fjekk sjer arf, fýsti þessa hari; Ótrúr hafði annað starf, augnavar-þjenari.

50. Ofsi meður unda staf, átti ríkið verja, engum manni eptir gaf, alla vildi berja.

51. Nöfnum fleiri varla vil, vildarmanna

hreifa. Efnið víkur aptur til, Ódyggðar og greifa.

52. það var hjóna þeirra mein, þrátt er harma jóku, áttu börnin ekki nein, öldruð verða tóku.

53. Leið svo fram um lánga tíð, lítið á þó bæri, greifa frúin samt um síð, sagt er þúnguð væri.

54. Tíma rjettum eptir á, Ódyggð jóðsótt kjenndi; fæddi meybarn feima þá; frúrnar þjentu kvenndi.

55. Greifinn kátur sagði senn, sitt við ráðaneyti: „hvað lízt ykkur, mætu menn! meyjan únga heiti?“

56. Aptur gegndi þessu þjóð: „það mun lengst í minni, ef að heitir Ódyggð fljóð, eptir móður sinni.“

57. Ansar frúin: „ekki tef, eg mitt svarið bráða, lengi mjer því hugsað hef, hennar nafni' að ráða.

58. Öldruð Lygi amma mín, opt rjeð nafnsins leita, því skal hin únga þorna hlín, þeirri eptir heita.

59. Vona eg muni vísir jafn,-vel að þessu

hyggja: ei má gamalt ættar-nafn, ekkar niðri liggja."

60. Fljóð var skírt í Fúlutjörn, fjekk hún Lýgi' að heita, síðan frúin svikagjörn, svörin gjörði veita:

61. „Völvur, híngað vil eg fá, sem viti seið og galdur, þessar skulu þorna gná, þeirri skapa aldur."

62. Sendur var einn sveigir fleins, sækja nornir hyggur, þessar koma undir eins, Ódyggð sæng á liggur.

63. Boðnar þáðu vist og vín, varla mættu hörðu, meyjuna settu milli sín, mæla þannveg gjörðu:

64. „Ærinn verður aldur þinn, ei hans lengd vjer könnum, haldin muntu, handgengin, helztu tignar mönnum.

65. En þitt nafn hjer litla list, Lýgin gæfu sneiddi, Ódáins-í-akri fyrst, elztu hjónin deyddi.

66. Illa þessi andagipt, undirrót á kífi, hefir marga síðan svipt, sæmdum, auð og lífi.

67. Framar höfum fastan grun: fölsku and-

inn kjenndur, æru góða meiða mun, meðan veröld stendur.

68. Veldur kýngi kraptur flár, kviknar hatur grönnum, höldar trúa herjans-ár, helzt af ríkismönnum.

69. Gjörir loks þó greiða þjer, gjöld að fullu leiti, sá sem dýran sóma ber, Sannleikur að heiti.

70. Vænta má hún þessa því, þúngum haldin ótta: hana rekur útlegð í, eins og hund á flótta.“

71. Únga syrpan orðin við, æpti góms af kleyfum, ilþorn setti upp að kvið, af sjer spyrnti reifum.

72. Þagna völvur þá um leið, þánkinn gjörðist klökkur, Ódyggð verður afarreið, ofan úr hvílu stökkur.

73. Ljet í frammi ósköp öll, út af stórri þykkju, gjörði síðan geysa' í höll, greifinn sat við drykkju.

74. Óðamála inntí frá, öllu þeirra banni; hræddust völvur hefndir þá, hjeldu burt úr ranni.

75. Greifinn talar ekki orð, alla misti kæti, setti styggur staup á borð, stendur upp úr sæti.

76. Biður síðan bragna hljóðs, byrjar ræðu slíka: „oss er komið efni móðs, einka dóttur líka.

77. Völvur gjörðu vansa með, vora tign að lasta, eins og herma yður rjeð, Ódyggð mín kjærasta.

78. Spyrja vil eg þegna því, þraut ef mætti linna: hvar að Sannleik heimi í, haldið megi finna?

79. Yrði þessum höfð á hönd, hrósa skyldi vígi, varla mundi veita gröndi, vorri dóttur Lýgi."

80. Ýtum verður orða stans, alla saman blekkti, af því Sannleik innanlanz, enginn maður þekkti.

81. Birtu samt á bifurs kvon, búnir handar fönnum, hans að leita helzt mun von, hjá fornaldar mönnum.

82. Ódyggð mælti: „úrskurð þann, enginn þegna mýki, útlægur skal heita hann, hjer úr voru ríki.

83. Dirfist nokkur björg og brauð, búnum Sannleik veita, tapa skal sá tign og auð, tukthúslimur heita."

84. Þókti greifa þetta ráð; þar með liðinu snjöllu, inna Sannleik enga náð, Ódyggð gekk úr höllu.

85. Tímar liðu, frúnni frá, fleira síðan kynni. Lýgi alin upp var hjá, Ódyggð móður sinni.

86. Þókti sumum þegi góð, þessi við að skipta, Óvani svo elskar jóð, aldrei mátti typta.

87. Lygasögur lesa vann, lastið ýkja kunni, einnig gjörði úlfaldann, opt úr mýflugunni.

88. Óska gjörðu margir menn, meyjuna heiman gefna. Virða fleiri verður senn, víst til sögunnar nefna.

89. Bjó í kaupstað bragða-megn, burgeis harla ríkur, Prettur nefndist þessi þegn, þar að sögunni víkur.

90. Hafði farið heim um kríng, höndlun mest um ræddi, optast fyrir einn peníng, aðra tvo hann græddi.

91. Svikna vöru selja vann, sízt til þessa lagði; en ef rengdi einhver hann, eiðinn sór að bragði.

92. Seggur aldrei saddur var, samt af bóli linna. Aldna móður átti þar, Ágirnd fyrir að vinna.

93. Kjerlíng eittsinn kveikja fer, kyndug ræðu slíka: „vil eg, son minn! vísa þjer, víst á giptíng ríka.“

94. Víst það sagðist vilja hann, vel ef slíkt framgengi; „margt því betur kaupast kann, konu ef eg fengi."

95. Ansar kjerlíng orða slíng: „ei skal neinn kvíða, Óvani á Almenníng, á sjer dóttur fríða.

96. Einka barn er sjóla sú, sæmd mun þína styðja; farðu því sem fljótast nú, frúnnar Lýgi' að biðja."

97. Prettur ráðið þekktist það, þángað hug að snúa; alla sína sveina bað, sig til ferðar búa.

98. Heyrðist meðan býsna brak, búníngs tíminn varði, burgeis stoltur steig á bak, stefndi jór úr garði.

99. Sylgjur dynja söðlum á; seggi brynja klæði; steinar hrynja fótum frá; fákar stynja' af mæði.

100. Lengja sögu lítið knýr, liði því frá snjöllu, brunuðu fögur beizla dýr, beint að greifans höllu.

101. Stöðvar flokkinn, steig á fold, stólkóng þjóðin meinar, undir skjelfur ýmishold, aulann studdu sveinar.

102. Greifinn tekur gaur á mót, gjörði' í

sætið leiða; þakkar Prettur þessi hót, þáði boðinn greiða.

103. Þegar vínið heitt um hríð, hafði varpað trega, burgeis vekur bónorð fríð, blítt og skörulega:

104. „Eina, herra! auðarhlín, eigið þjer fyrir niðja, eru þetta eyrindi mín, yðar dóttur biðja.

105. Verður mjer að faungum flest, fjenu saman að læða, numið hef' eg mínum mest, mátann til að græða.

106. Ættin þykir flestum fín, fyrðar hana þekkja, Ágirnd heitir móðir mín, mótlætt kaupmanns ekkja.

107. Vil eg engan vansa nú, veita höfðíngs fljóði, Ágirnd mamma og yðar frú, eru af sama blóði.“

108. Greifinn ansar geira ver, glotti hvítum tönnum: „skilið get eg það á þjer, þú ert kominn af mönnum.

109. Frúnum mun eg fyrir brátt, flytja eyrindið tjáða; gjaforð vandi þykir þrátt, því skulu mæðgur ráða.“

110. Sendiboði syrpur því, sagði' að koma skyldu, báðar klæddust búníng í, biðilinn líta vildu.

111. Þegar litu þegnar snót, þángað fætur bera, þókti öllum mannamót, mens að hildi vera.

112. Lýgi játar leyndar-álf, losta kviknar andi, manninn festi meyjan sjálf, meður handabandi.

113. Veizla stofnuð var á ný, veittúst meðöl þarfa, guðir hússins höllu í, höfðu nóg að starfa.

114. Herra lanz úr hverri átt, hoskum safnar grönnum, veizlu þiggja býður brátt, beztu tignarmönnum.

115. Enginn taldist undan því, æruna þiggja stóru, þóktust láni þukla í, þeir sem boðnir vóru.

116. Síðan eptir setta tíð, svo til ferðar snúnir, hoskir kvöddu heima lýð, hjeldu' af stað albúnir.

117. Fleina meiðar fundu leið, fold við buldi stóra, fílar reiðar runnu skeið, reykur huldi jóra.

118. Titrar höll á háfum geim, hvergi gleði skorti, þegar lýður þessi heim, þusti að staðarporti.

119. Ei var þjóðin úti byrgð, allir stigu' af hestum, greifinn sjálfur hans og hirð, hneigði komu gestum.

120. Kossalæti töldust tvenn, tóku að heilsast vinir, feingu sæti fyrirmenn, fansinn geymdu hinir.

121. Lygi' og Prettur virðtum vönd, vóru' að borði miðju, Ódyggð sat á aðra hönd, örlíng nærstur gyðju.

122. Huldu borðin hjúpar líns, heyrðust strengja læti, gyðjan horns og guðinn víns, glöddu menn í sæti.

123. Fólki lanzins forfngjar, fyrir sátu hinu, Óðni helgað ölið var, allt á háborðinu.

124. Margur þetta minni saup, múgurinn gjörðist kjenndur; Framgetinn að fylla staup, fyrir borðum stendur.

125. Ólund sat í einum krók, illúðleg og þagði; Fjölmálugur fletti bók, fyrir skálum sagði.

126. Var á gægjum veslings þjóð, vænti góðs af kjeri, Feiminn helzt á felum stóð, en Forvitinn á hleri.

127. Vínið heila-vakti-kór, veizlu nálgast endi; dellíngs arfinn flýja fór, fyrir Óðars kvenndi.

128. Hjónin úng að hvílu gá, holdið kvikna vildi, gyðjan ástar þrifleg þá, þeim til sængur fylgdi.

129. Værðir fundu vamma þý, við sín unda

gæði, samt um stundu Satúrní, sofin drundu bræði.

130. Þegar röðull ljómar lönd, lýðurinn hress-ast kunni, flóðið kjera fálka-strönd, færði upp að munni.

131. Heimdalls mækir hitnar því, hvesti róm-inn mengi, elfur kera inn um bý, andar runnu lengi.

132. Loksins þegar þverra fór, þessi veizl-an ríka, herra lanz í huga stór, hóf uppræðu slíka:

133. „Hafa margir höfðíngsmenn, híngað gjört að sækja, vora aukið virðíng enn, verðt er slíkt að rækja.

134. Því skal kunnugt þessum hjer, það ef mætti haga, Lýgi ríkið arfur er, eptir mína daga.

135. Ártal gamalt ekki má, optar standa í vegi, látum datum losast frá, Lýginnar heið-urs-degi."

136. Enginn styggðist orðin við, öldin sat og þagði. Frívilji að fornum sið, fyrstur a-men sagði.

137. Boðsmönnunum greifi gaf, gersemarn-ar stóru, tóku honum orðlof af, áður enn burtu fóru.

138. Mátti sízt af mágnum sjá, mildíng sinnis þjettur, eptir dvöldust Ó d y g g ð hjá, Á g i r n d, L ý g i' og P r e t t u r.

139. Leið svo fram á gilfa garð, grátur mátti rýma. Konan L ý g i kviðuð varð, kom að burðar-tíma.

140. Loksins gólf hún lagðist á, löng varð ekki mæða, þríbura nam þorna gná, þegar af sjer fæða.

141. Barnsfæðíngin bar til svo, — bezt er engu leyna —: seimgrund fæddi sveina tvo, síðast meyu eina.

142. Frjettnæm þá við fyrða tjer, frúin lyndisbráða: „kallið greifann, hann skal hjer, heiti barna ráða."

143. Kom að bragði karlinn þar, kvaddur orðum fínum; frumburðurinn fyrst þá var, færður afa sínum.

144. Mælti greifi: „mínar hjer, munu getur efnast, háeygður er hrínga-ver. H r o k i skal hann nefnast.

145. Hann mun stjórnar-hreppa-dáð, helzt og völdum eyra, jeg hygg hann verði j ú s t i z-r á ð, og jafnvel líka meira.

146. Hinn mun sveinninn verða vîtt, vinsæll meðal sveita, handgenginn þeim tignu tíðt, Trúgjarn skal hann heita.

147. Meyan únga hrokkin-hærð, held eg tryggðum forði, því skal nefnast fljóðið Flærð, flá — en blíð — í orði."

148. Því næst greifi þagnar nú; þánka hvíldist inni; öll svo börnin ólust þrjú, upp hjá móður sinni.

149. Krökkum sínum kjenna vann, kvenndið listir snjallar, nœmi hjá þeim nóg hún fann, á nýbreytíngar allar.

150. Hvaða forlög hárs á mey, hlutu sína daga, hvert þau giptust eða ei, ekki hermir saga.

151. Ekki heldur innir skraf, um hvort hafi meira, Prett og Lýgi æxlast af, ættar hyski fleira.

152. Kannskje hafi köldu mætt, kífi sóttarnauða, eða dáið öll sú ætt, út í Svartadauða.

153. það er sumra þegna skraf, þó með gátum vöndum, Lýgi muni enn þá af, eyma' á Norðurlöndum.

154. Samt fjekk hún ei Sannleiknum,

sendan dauðans kala, var hann læstur vebönd-um, vísikóngs Jórsala.

155. Þó að villa vilji þann, vonzku — Lýgin — kjennda, tapar aldrei heiðri hann. Hjer er Saga' á enda.

---

156. Vindur ýmu varpar móð, víða þó hann hrökli; bað mig þessi bánga ljóð, Bárður í Snæfellsjökli.

157. Því skal vísna-þetta-safn, þulið máls um reita; högnlegt það bera nafn, Bárðar-Ríma heita.

158. Fyrða' ei neinum fræða spil, flutt, að vansa hnigi; hjer er kveðið þetta til, þú, hin vonda Lýgi!

159. Á heiti mínu get eg grein, gjört með skýring slíka: fagurt þýðir flatan stein, og föðurnafnið líka.

160. Endar hann veg óðar, sáld, efnið sízt af höndu. Verið hafa skjaldan skáld, skýr á Snæfells-ströndu.

## Axarhamars-bragur,

kveðinn af

sjera **Jóni** eldra **Eyúlfssyni**,

presti til Borgar- og Álptaness-sókna frá 1681 til 1701; síðan að Gilsbakka frá 1701 til 1718.

---

1. Vinur minn góður! viltu skjemmtun þiggja? Frjettir þær, sem fyrir mig bar, fæ jeg þjer til skóðunar.

2. Heyrðu hvernig hagaði til í landi, þá Hinrik Bjelke höfuðsmann, hólmi Garðars styrði vann.

3. Gott árferði gaf þá orsök mörgum, búskapar að stofna stand, standum fyrir hjónaband.

4. Bar svo til á blíðum sumardegi, til kaupöls nokkur klerkur reið, kannast eg við hökla meið.

5. Var með honum vaskur maður á reisu, undir Tröllaháu-hálsi innir klerkur svo til máls:

6. „Axarhamar, er hjer lítur standa, byggja þjer í bragði' eg vil, það befalníng mín stendur til."

7. Alfallinn var úngur sveinn að búa, greindum kostum gengur að; gaman er að heyra það.

8. Nú er hann búinn nefnda jörðu' að taka, segist því í samför prests, sýngja mega hlutar vers.

9. Máldögunum mun hann eptir spyrja; því skal lesa' upp þessa skrá; þegi menn og hlýði á.

10. Austur í Heklu eldaskálinn standi; Axarhamar á þar skóg, sem af má hafa mikinn plóg.

11. Norður í Drángey niður komi smiðju, kolin öll þar kurli hann, á kylfu þeirri', er Grettir fann.

12. Axarhamars útiskjemma stendur, á Grundarhyrnu greini eg frá, þó görpum þykir fjærri sjá.

13. Axarhamars önnur skjemma standi, á Arnarhyrnu yzt við sjó, undir sjálfu norðri þó.

14. Smjör-grásíða' og smálkabúrið standi, Gimbrarkletti ofan á, yfir skjefla sízt þar má.

15. Annan kofa á þar geymir sverða; norður í helli Höskuldar, hafa verður kisturnar.

16. Heygarðana hafi' hann Gríms í eyu, en Bárðarhellirí Brynjudal, brúki' hann fyrir kúa-sal.

17. Mykjuhauginn mun hann bera láta, brattan upp á Baulutind, þar bælir niður engin kind.

18. Hjallstæðið er hreifilegt að líta, upp á Mývatns-öræfum, enginn mun það halda skrum.

19. Grindahjallinum góðan stað má finna, Nesbæar á núpnum hátt, þar nýtur gelu' úr hverri átt.

20. Hamars bóndinn hefir nóg að vinna, því að skreiðar-hús er hans, á Hestafelli norðanlands.

21. Amboðanna er þar líka skjemma, í Músardal er hellis-hró, hann er ekki lángt frá sjó.

22. Þar á líka þerrivindur heima, á Kjálkanesi kynni' jeg frá, kann það vel að standast á.

23. Á Eldeyum eg vil þess ei dylja, skreiðar-er þar-skjemma löng, hann skal þar hafa búsins föng.

24. Ölföngin, sem aðra muni líka, mjöl og

bygg, sem malt og grjón, mikið bú þarf fyrirsjón.

25. Hjörð sína hann hirði vestur á landi, Surts-í-höll þá fjúk og frost að firðum setur þúngan köst.

26. Eldishestinn ullur geymir sverða, við Ódáða hellis hraun, sem haldið getur þjóf á laun.

27. Geitakofi' að gamalli hefð standi, á Víkurbyrðu viður sjó, varla mun þar festa snjó.

28. Hafurinn má hafa' í skála einum, þar sem Grettir gisti' ónáð, þá gimbrin Móra fjekk hann þjáð.

29. Hrútakofa hafi' í Grettis-hlaupi, upp frá Sandi afgætt sje, á Skagfjarðar lángvegi.

30. Hauksbók segir að hennar fjárhús standi, á Þöngfabakka við Þistilfjörð, þar er ætíð nógleg jörð.

31. Stekkurinn og stía únglambanna, á Svalbarð norður settur var, sökum skjóls og nálægðar.

32. Stöðulvegur í stytzta máta' og hægur, á Hornströndum var hafður fyr, hann má og svo standa kyr.

33. Hellir einn í hrauni Dránga stendur, lömb sín hirði listamann, og láti geyma bezt sem kann.

34. Vilji' hann byggja væna rjett og lánga, þar sem grundin værí' óvölt, velji hann til þess Hellnagölt.

35. Skothúsið er Skeiðs á sandi breiðum, þægilega þjóðbraut frá, þar er refa veiði' að fá.

36. Í fossinum, sem fálu Grettir steypti, vatnsmylnan skal vera' ónaum, þar vantar sjaldan þjettan straum.

37. Breki' er nefndur Bjarneyar í djúpi, hægur fyrir hestástein, höldum svo ei gjöri mein.

38. Vatnsbólið er vænt, sem aldrei þrýtur, austur í Kötlu ein er gjá, sem aldrei þarf að moka frá.

39. Axarhamars öskuna flytja verður, og sökkva henni' í meginn-mar, á miðju sundi Grímseyar.

40. Bæjar-sorpið burtu verður að flytja, í Hjeraðsvötn við Hegranes, hræðilegt er slíkt umvjes.

41. Mín er ekki mærðin fróð til sagna, verð

jeg þó með veikan mátt, við að bæta hróðrar þátt.

42. Svo ábúandinn eptir megi gánga, hvar nefndur staður ítök á, og með rjettu kann að ná.

43. Jörðin sú, sem jeg er um að tala, skógarhögg í Skjaldbreið á, skal þar nógan raptvíð fá.

44. Reka' ítakið ríkur bendir geira, kann að finna í Kjalará, kostinn einn það telja má.

45. Grasatekju garpurinn á með rjettu, í Þormóðsskjeri skýri' eg frá, skipum flytja verður á.

46. Á Byrðu skal hann berjalestur eiga, sagt er mjer af svinnri þjóð, að sje hún yfirferðar-góð.

47. Lýngrif hafi líka ábúandi, í Hvanndalabjörgum beint, bið jeg því sje ekki leynt.

48. Utanverðt í Ólafsfjarðarmúla, fífutekjan allgóð er; ábúandi hlýði mjer.

49. Timburhögg er tilsett Axarhamri, í Gunnbjarnarskjeri skárst, skógurinn þar aldrei brást.

50. Mótakið á miðjum Snæfellsjökli, gumnum þar jeg greini frá, gjöra lestir þángað má.

51. Torfristuna trúi' eg Hamar eigi, þó ýtum þyki ómaks ról, upp á miðjum Tindastól.

52. Fimmtán nauta fjögra mánaða göngu, á Léndröngum, sem lýsir skrif, liggjandi við Malarrif.

53. Lambarekstri lýðir gjöra' að hrósa, í Hrólfsskjer við Eyafjörð, opt er þángað rekin hjörð.

54. Tripparekstur til má ætla Hamri, þó kátlegt þyki kvisti branda, í Klofajökli austanlands.

55. Hestagöngu hjer með á hann líka, Snæfellsjökli ofan á; aldrei bregðast jörð þar má.

56. Vetrargöngu vel fyrir hundrað sauði, Mýrdalsjökli uppi á; aldrei mun þar festa snjá.

57. Vestur á Glámu velji engja teiga; heldi þar til hjúin mörg, heya nóg svo verði björg.

58. Í Henglafjöllum hafa má í seli, en búsmalanum beita skal, um Baldjökul og Kaldadal.

59. Hlynnindi' eiga hermdri jörðu' að fylgja, truflast mjer nú talið senn, til þess hentar lærða menn.

60. Í Geirfuglaskjeri gjörist honum að

róa, þar má hafa búð og bát, bregzt þar aldrei skips-uppsát.

61. Fuglaveiði' á flekum stundá hlýtur, eyu Kolbeins útan við, ekki' er þángað lángróið.

62. Haustvertíð hann hafi þar og líka, en heimræði haldi þó, hvern einn dag með kyrð og ró.]

63. Sölvafjöru' og selaveiði' hann hafi, á Tvídægru við tjarnirnar, til er nóg af slíku þar.

64. Laxaveiði líka má hann brúka, kapítulinn kjennir oss, að kjerið heiti Bjarnarfoss.

65. Í Hveravötnum hafi silúngsveiði, Geitlandsjökli eggverá, æðardún og skurminn smá.

66. Kynja góða kofna'-og lunda-tekju, hefir norður á Hörðubreið, hæg og stutt er þessi leið.

67. Hákarlsdrátt hann hafi' á Sporðagrunni, en hnýsudráp við Reykjaröst, þar rauta þúng á strauma köst.

68. Dýrðrík Pínfng dæmt hefir allan reka, um Holtavörðuheiði' og Sand, hvað sem helzt þar berst á land.

69. Alla vöru eins sem járn og færi, sækja skal í Siglufjörð; sjérhvað prýðir kosta jörð.

70. Tröllakirkja til er á vestursveitum, sínar tíðir syngi þar, sjer til undirvísunar.

71. Allir þeir á Axarhamri búa, að liðnum þeirra lífsstundum, legstað eiga á Hvanndölum.

72. Stígsson Páll sá stóri höfuðsmaður, skikkun marga skíra gaf, skilst mjer ein hjer lúti af.

73. Skálholts stiptis skal af kirkjujörðum, tillög nokkur taka þá, tilgreind beneficia.

74. Á Helgafelli hafi hann mauk til grauta, en þvælistunnu á Staðastað, styrkur er Hamars bónda það.

75. Miklaholts prestur, maður hver sem verður, sörtutunnu senda skal, og selskropp einn úr Haukadal.

76. Frá Staðarhrauni sterkur öskubeni, rekuspaði' úr Reykholti, reip Gilsbakki láti' í tje.

77. Stafholt greiði stóran kopp til þarfa; Húsafell skal hafa' í akt, að heykrók fái og sóp til lagt,

78. Kvennabrekka kæsismaga sendi, út

Hjarðarholti þyrll því, það mun brúkað handverk í.

79. Sömuleiðis sá sem býr í Hvammi, gildan fjárhund greiða skal, og gæruskinn úr Hýtardal.

80. Þó hermá Vilkin hafi' ei gjört að rita, ítök skilin áður sögð, andvirki og föng til lögð.

81. Axarhamri árlega til leggist, stöðum þessum stóru af, Stígsson Páll sem henni gaf.

82. Í máldaganum meira las jeg ekki, hvar Axarhamar ítök á, upp að telja geng jeg frá.

83. Ekkjert má hann undan hefða láta; finnist nokkur forsómun, fullkomlega sekur mun.

84. Fáein hjón skal fleina álfur taka; verkastór og vinnudæl, veðurglögg og lukkusæl.

85. Dalmann verkum drengjum skipti meður, Grettir fjárins gæta skal, en Grámann hafi kúa-sal.

86. Skyndifótur skal til ferða sendur, en Ármann hafi hesta-hró, hrindi Refur skútu' á sjó.

87. Austri smíði allt sem vera byrjar, Högni flutnings-hafa-kið, en Hörður risti svörð við hlíð.

88. Ormur slái engja-teiga glaður, nýti grösin Naddoddur, en neyti skógar Hadda-broddur.

89. Fífu sæki frímóðugur Kári, en eggver nýti Óspakur, allan reka þormóður.

90. Selaveiði sæki þrándur illi, en berin lesi Bárður öll, ber Íngólfur viðar-tröll.

91. Kolin höggvi Kolur einn í Njálu, en Kvillanus við kamarhús, Krákur rjetti soð-mats-krús.

92. Vel tólf hundruð vill hver þeirra hafa, í sitt kaupið ekki kljent, í söil-vörum tvennt og þrennt.

93. Bustýran sje baugs hjá þolli stríðum, þorbjörg digra þokka frú, þrístin vel um mjaðmir sú.

94. Hallgerður á Hlíðarenda forðum, ráðskonan sje rembilát, reiknuð opt við þjóða snát.

95. þar næst hafi þernu yfrið stóra, Skjaldgerði með skorpinn haus, skal þar aldrei vanta raus.

96. Fála, Gála, Flegða, Jena og Syrpa,

flagðið Gríma, Flumgerður, Ferlegíma' og Valriður.

97. Skuld hin vonda skal og niðurseta, og skammar greyið Skaðvaldur, skollans líki ferlegur.

98. Vinnustelpur vilja kaupið hafa, átta hundruð ekki tæpt, eitthvað mun í þessu hæft.

99. Fimmtán hundruð fjár sje allt að geyma, og eitt hundrað má hesta hjer, Hamar fleyta, trúið mjer.

100. Hálft skal þúsund hafa nautgripanna, og vel eitt hundrað geitna greiðt, gætum til ei fargist neitt.

101. Eptirgjaldið er nú sjer í lagi, af sagðri jörðu', er svara ber, sem á bónda skilið er.

102. Telja fyrst má tuttugu sauði gamla, fimmtán sauði' hann færi á þíng, og fiski hlaðinn teinahríng.

103. Gamalt naut og grasatunnur átta, úngan hest og eina kú, í öllu gild skal vera sú.

104. Kola-lest og kálfa tíu alda, geldfjár hundrað, uxa einn, sem ýkja-er í spori-seinn.

105. Í ullu' og skinni upp á hundrað dali,

varníngs klyf til verzlunar, og voðir átta mórenndar.

106. Í reiðu peníngum riktuglega' hann gjaldi, uppá vættir þrennar þrjár; þar með segist skuldin klár.

107. Hjer með leigur hundrað smjörfjórðúnga, sem lagt er upp á laufa njót, og lýsistunna' í þokkabót.

108. Í ljóstollinn hann lúki vaxfjórðúngi, til svo bæti tyrfíngs-bör, tveim vættum af geldíngs-mör.

109. Byggði prestur bónda úngum kotið, að skilmálum ákveðnum, og vel sömdum máldögum.

110. Svo eflaust er nú Axarhamar byggður, með öllum kostum uppsögðum, en engum löstum framtöldum.

---

## Vísur

kveðnar af

skólapilti **Snorra Björnssyni** frá Húsafelli.

1. Skeiðvakur hestur mitt yndi er æ; ef honum næ eg að ríða, enga skemmtun eg frekari fæ, finn eg þá ekki til kvíða, :,: þau lukku' eru kjör, mín ör sje för, á bráðvökrum hesti gjör. :,:

2. Enn meira gaman að glíma þó er, gleður það hugkjæti sveina; ánægður sjerhver upp á það sjer, íþróttir tveir menn ef reyna, :,: fimir mest, ef frestur sjest, fælir í burtu kyrrsetu pest. :,:

3. Ó, hvílíkt gaman að dansinum er, hann upplífgar hug vorn og sinni; yndi og hræríng hann orsakar mjer, aldrei hans tilvera linni, :,: ei gleði skal stans, en dans, dögum að leika í góðvina krans. :,:

4. En þó forblindar öll þessi spil, yndisleg júngfrúin blíða, eðla þín umgengni mjer ánægju til, öllum hún hryndir burt kvíða; :,: lífgun er oss, þinn koss mót koss, kosið er aldrei dýrra hnoss. :,:

Gaman er að sigla' um sjó, og söðla-ljóni ríða, yndælust af öllu' er þó, úngrar meyar blíða.

---

## Til lesendanna.

Ljúfast, eins og lands er siður, litla bókin heilsar yður, hún sjer beiðir hýsíngar; ef þjer viljið henni heyra, hjer kann eptir fylgja meira, fyrri' er mörgum fólgið var.

# FRÓÐLEGT
# LJÓÐA-SAFN
## ÝMISLEGS EFNIS.

---

Safnað og útgefið

af

bókbindara Grími Laxdal.

---

**2. hepti.**

---

Akureyri 1857.
í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins, af H. Helgasyni.

# Ríma
## af Íslendingaköppum.

Ort af

**Hannesi** sál. **Bjarnasyni**,

presti að Ríp í Skagafirði.

---

1. Fyrri á tíðum frægir lýðir víða, hjer á landi háðu grönd, hristu brand, en gljáði rönd.

2. Hjörs að bendum herskot kenndir sendu, skífðu rendur, skildir gljá, skjótir vendu í hildar þrá.

3. Brynjur skelldu búka' að veldi felldu, traustu mestu happa hjer, hraustu beztu kapparnir.

4. Brandinn hrærði, blóð út færði, særði, kænn við iðjur allar stíms, Egill niðji Skallagríms.

5. Þórður hræða þrátt ljet blæða æðar, skjaldan slingur skeytti um frið, Skagfirðinga þreytti við.

6. Brytjaði seggi blóðs í hreggi Skeggi, skilf-

ings gáði að skaka kólf, Sköfnung náði af Kraka-Hrólf.

7. Grettir sterki geirs í verki herkinn, Heimdalls greiður hjaxar fax, hristi reiður vaxinn sax.

8. Bar arngeirinn brögnum meiri á leiri, glóða þarfi gljáþundar, Gunnar arfi Hámundar.

9. Krapta gildur kann við hildi skildi, geirs óþjáli garpurinn, getinn Njáli Skarphjeðinn.

10. Kári tíðum kann við lýði' að stríða, kappa meiddi, kenni jeg enn, karska deyddi brennumenn.

11, Þorgeir síðan þegna' í stríði snúður, blóði hlýju renndi rar, Rimmugígju í hendi bar.

12. Í stríði djarfur Stórólfs arfinn þarfi, mestan Ormur mæki bar, í málma stormi frækinn var.

13. Veifaði fljótur Vallna Ljótur spjóti; beitti og iðju brandhríðar Búi niðji Andríðar.

14. Með geiri hörðum hríngs um jörðu börðust, gistu haug við gróða safn, Gunnlaugur og Ljóða-Rafn.

15. Hristi geirinn Gretti meiri á leiri, svo Grímnis hökull gall sundur, gisti jökul Hallmundur.

16. Rykkti spjóti rekkum fljótur móti, þrátt í gjósti þverum fleins, Þorgils fóstri Orrabeins.

17. Ívars ljóma ýtar sómann róma, oddafreyrinn Óttarsson yppti geiri fljótt að von.

18. Helgi og Grímur hjörs við glímur stíma, með þundar skaugul þarfa hjer, þeir Droplaugar synirnir.

19. Ívars arfi í odda starfi djarfur, Þorsteinn efna hugsar hót, höldar nefna Uxafót.

20. Sneið Hávarður víga barða harða, son ótrauðan sorgaði, sá hans dauða borgaði.

21. En Ólafur ýtar skráfað hafa, glímt við drauginn Hjörleif hratt, í höfrungs laugi fjörleyf batt.

22. Björn á láði branda gráðið háði, opt til happa ýtti fal, æðsti kappi í Hítardal.

23. Þundur pella, Þorgeir fjell að velli, en Þórmóður hefndi hratt, heitið góða efndi glatt.

24. Hratt sem Þjálfi hljóp Lágálfur sjálfur, Siglunesið traustur tróð, trygli hljes í nausti stóð.

25. Bárður djarfi Dumbs var arfinn þarfi, renndi gnoð um ræfils fles, reifaði voð við Snæfellsnes.

26. Hans son Gestur hreysti beztur mestur,

að moldu hrjáði megnan draug, mölva náði Ragnars haug.

27. Kveðið stefið Krókarefur hefur, með hugvits prýði' og mestu mennt, mjúkt að smíða flest var hent.

28. Vopnið harða Vígábarði' ei sparði, branda glingur breytti frið, Borgfirðinga þreytti við.

29. Finnbogi rami rómu tamur hamast, vóð um hauður vopnaður, var þá dauðinn opnaður.

30. Ármann fríði afguð lýða víða; hann var bezti bjargvættur, þá brúsuðu' að mestu varghættur.

31. Fyllti Björn af feiti örn ágjörnu, á Breidafirði brandinn skók, brögnum stirðan vanda jók.

32. Barðist Hörður blóðs í örðu' á jörðu, vaskur brand til víga dró, varð á landi hníga þó.

33. Gísli' af prýði geir með snífður lýði, í útlegð rekinn vaskur var, vopnum tekinn karskur þar.

34. Brýndan mækinn bar órækur frækinn, Kórmakur í hjörfa hríð, harðvakur í dörva klíð.

35. Vígaskúta vopn ljet þrútið stúta, Vígaglúmur, Vígastyr, vals í rúmið hníga fyr.

36. Senti spjóti sverðs í róti skjótur, það

Hólmgöngu-Bessi bar, af bræðratöngum hersir var.

37. Á vopnaþingi Vatnsdælingur slingur, hrotta roða hökul bar, herjans voðir Jökull skar.

38. Vizkuframur vopna tamur glami, Steinþór happa Eyri á, ýta klappar geiri blá.

39. Í vopna órum var Gullþórir stóri, á Þorskafirði brandinn bar, baugahirðir randir skar.

40. Kænn, eg ljóða, klóta bjóður fróði, í brandakviðu blökum þar, Búa niður Jökull var.

41. Á Grænlandi otaði branda grandi, deyddi tröll við glímu glatt, Gnýpa' á völlinn kýmin datt.

42. Af öðling þáði æru' og náð á láði, Kjartan Ólafs arfi þar, örva gjólu' í starfi snar.

43. Geiraþolli gafst óhollur Bolli, bani frænda sagður sá, svikin sæmdu lagði á.

44. Valla daufur vopnum Klaufi gaufar, Svarfdælinga sveittur við, sverðstælinga þreytti klið.

45. Í stálahríðum Sturla sníður lýði, óma röðul eyddi snar, á Örlygsstöðum deyddur var.

46. Frá Keldugnúpi geirs í hjúpi ógljúpur, barðist Gunnar vitur vel, víga kunnur bitri þjel.

47. Um þær mundir Ísagrund var fundin, hirð Sturlunga hrottann skók, er hreifð af tungum vottar bók.

48. Langtum fleiri lundar geira eg heyri, Ísaláðið byggðu bezt, brandagráðið skyggðu flest.

---

# Ríma

## af Enskum stúdenti.

---

1. Ansa' eg þannig ykkur fljóð, sem af takið jeg þegi, gefið í ranni hjer til hljóð, heyrið það eg segi.

2. Fálki Rögners floginn er fyrir stundarkorni, jeg held ögn að sækja sjer sjálfu' af þundarhorni.

3. Vjelið stýfði' og vængi dró, var sem skammt til sæi, lágt með þýfðum þagnarmó, í þungfærara lagi.

4. Þó hann lúinn þreytti sveim, og þrekið veika skerði, ef svo búinn hrekst í heim, heppnin ykkar verði.

5. Að því trúi' eg öldin glöð, orði stinga vinnur, hvað eg nú sje hárs á mjöð, hundslega orðinn svinnur.

6. Von er hringa verði gná, verk þegar

launin jafnar, tilfinningarleysið lá, þeim lukku sinni hafnar.

7. Maklega undrast baugabil breytni dáða sljófa, að á jeg þundar afla til önd og fjöri sóa.

8. Fyrir það kaup svo vænt er víst, vönduðum þreytast óði, Yggs fyrir staup er of gjört sízt, eg þó sveitist blóði.

9. Einn að ljái lof til snjallt, lasti tíu' úr hófi, heimskir lái hrósvert allt, en hyggnir feilin prófi.

10. Og einhver næði munnur manns mjer yfir nöldra dauðum: Hjer er, bræður! leirskáld lands, leiri þakið rauðum.

11. Eg hefi hress á Yggjar kvon, aflað Durnis bjarga, og upp á þessa virkta von vandað stöku marga.

12. Samt ei drifið mærð svo mjög margra' er kjósa hugir; en hygginn yfir heimskum lög hefur, og þetta dugir.

13. Slíkt má játa fyrir flón forþjenustu súra, að í þann máta' er ykkar bón enn mín rjettarsnúra.

14. Þar um masa þörf svo rýr þó mjer nú til beri; Engelskt las eg æfintýr eitt af dönsku kveri.

15. Konungs Ása kjói greitt kom svo veginn skemmsta, og hafði Kvásis blóði bleytt broddinn tungu fremsta.

16. Fer eg svo þylja baugabil brag úr efa-

is greyji, og læt mjer skiljast lítils til lítið duga megi,

---

17. Ljósa fjarðar tróðu tjá, tilfelli skal ríma, Englands jarðar jöfurs frá Jakobs annars tíma.

18. Letrið saga sveit fær tjeð, sem af mærð skal laga, trúarbragða blandan með Bretum í þá daga.

19. Evangelisk endurbót upp þegar kom með happi, sumir vel þar sig á mót settu henni' af kappi.

20. Svo fyrir mengi milli bar, megn var styrjöld búin, helzt of lengi á láði þar leiðst því páfatrúin.

21. Löngum gaf það illan arð, opt var margs að gæta; stjórnin af því stundum varð sterkum vanda sæta.

22. Eðalstandið ei hvað sízt átti slæmar þrætur; hjónabandið hlutu óvíst höfðingsmanna dætur.

23. Aðalsmeyjar ást ef náð umkomulaus gat drengur, gaf hann ei um gipturáð, glislegur þókti fengur.

24. Burtu lunka vífið vann — veiða þókt-

úst framann — einhvern munk í flýti fann, er fljótt þau vígði saman.

25. Eðalstandið stórt leið skarð, stýrði ringum gæðum; ektabandið einatt varð eptir kringumstæðum.

26. Hjónabandið þetta því þaðan af vífin gistu; rötuða standið armóðs í, auð og virðing misstu.

27. Öllum leiddist óreglan, uns meðstjórnin tyggja, sig til neydda sjálfa fann sömu að fyrir byggja.

28. Þókti ei henta' að þegja við þengils stjórnar-ráði, parlament um sagðan sið, samkomu hjelt á láði.

29. Tilhalds sprunda tjeða skemmd tignir hreint afsögðu, og hafi hún stundum heyrzt þar nefnd henging viður lögðu.

30, Grams innsigli sterki styrkt, ströng var fororðningin: ei svo myggli brátt var birt byggða láðs um hringinn.

31. Frelsið þverrað, þetta sjest, þegna máttar rýrri, einn ráðherrann olli mest aðgjörð stjórnar nýrri.

32. Einka dóttir eina sá átti geymir laga,

og mun hafa óttast mens ef gná mætti tjáðum baga.

33. Dáðum búna vífið var vert til sóma' að efla, því Lundúnaborg ei bar bjartari sunnu refla.

34. Faðirinn samt ei frjetti par fljóði neinn að unni; stúdent skammt í staðnum var straums frá ljómagunni.

35. Fjelaus var, en fjekk þó nafn framt í menntasökum, lærdóm bar og listasafn, langt af sínum mökum.

36. Hans var faðir höfðingi hers af þingils lýði, en missti glaður fjör og fje föðurlands vegna' í stríði.

37. Meyjan unni meiðir fleins, minnst þó sást á vífi, seims og gunni sveinninn eins sínu meir en lífi.

38. Vildu fegin utan ef ektastandið kanna, en kom í veginn konglegt brjef, kennt þó föður svanna.

39. Þeim að líkum brá í brún, bæði fylltust trega, samt ei slíku hann nje hún hreifði merkjanlega.

40. Hals og nönnu hrings um sinn hyggju

sorg vill buga, vóx að sönnu varsemin, en vendi' ei ást úr huga.

41, Þankans fatast frelsi mjög, þeim fjötur ástar vöfðu, yfir þeim gat hún lesið lög, er lífstjóns einnig kröfðu.

42. Kort þegar fundust kom saman kvisti baugs og vífi, fyrir sprundið hlyti hann hreint að voga lífi.

43. Halur lengi heilann braut, ef hamingja til vill duga, hversu' hann fengi þessa þraut þenkt að yfirbuga.

44. Víðlent stræti vonar kring valinn hárs ljet sveima, eins hvar gæti örvænting til einhvers látið dreyma.

45. Treysti' eg mjer og síður sveins sök að klaga en fegra, reynt hefur verið annað eins og ekki beytilegra,

46. Loksins svinnur leyfis bað lávarður mennta skóla, að ganga' og finna í glæstum stað gæðing tjáðan sjóla.

47. Hann fjekk það, en nefndi' ei neitt, nema lærdómssakir, þar í stað gat ei um eitt yfir sem þankinn vakir.

48. Ræðum hrærði hávísan höld og stór-

göfugan, er efni' í lærðan leit hjer mann, líka skarpsinnugann.

49. Glæstra mennta gömlum vin, glituðum vísdoms prjáli, virtist henta, og var ei kyn, við hann koma' að máli.

50. Flestra blekkti fálu þey fljóð þó halur kyssi, hvort þau þekktust eður ei enginn maður vissi.

51. Margopt ræddust meira við, og málkunnugir urðu, loíðar gæddir gáfna snið, gegna' er þókti furðu.

52, Hirðir menja hitta þá, herrann eitt sinn náði, fremur venju fæð sjer á fjekk nú sýnt með ráði.

53. Spurði listugt ljúfmennið, lund hans nú hvað beygir! sveinninn tvisti verður við voldugs spurn og segir:

54. „Aldrei kem jeg aptur hjer, eydd er sæmd og friður, mitt eg nema fyrir fjer fái hjálp af yður".

55. Svara þegni þítt rjeð hinn: „þetta' er illa farið", hjernæst fregnar höfðinginn: „hvernin er því varið?".

56. Ansar hinn: „jeg ást á hef eðallegu vífi,

dáða svinnu, en döglings brjef dæmir mig frá lífi".

57. „Herrann þegar hast gaf svar: „hvað er slíkt að frjetta, temmilega vitlaust var að voga sjer í þetta".

58. „Fæ eg á grun þó augum í allvel glansi svanninn, hentast mun að hugsa' af því hana' að ekta þanninn".

59. „Svoddan glanna stytt er starf; styrklaus hver einn drengur má ske annað ekki þarf en ætla sjer það lengur?".

60. „Eg kann sverja' að engin rök eru þig stoðandi; og að verja svoddan sok, sómdi' ei mínu standi".

61. „Hjer við dafnar hneysa verst hara skikkan stinna, mínu nafni mörkuð sjest, og meðdómenda hinna".

62. „Vitið, herra"! — ver kvað fleins — „við er mjer búið grandi, hitt þó verra hún er eins, og hálfu meir rasandi.

63. „Nær sem skyldi virkta víf vera gefið manni, sitt það gilda — segir hún — líf, svo er jeg eins í banni".

64. „Seims er láðin svo mjer kær; síst eg

stund þá kjöri, mjer er áður miklu nær mínu að tapa fjöri“.

65. „Mikið vinnur míns til blóðs meyjar faðir nýtur, að eðalsinnaðs faðmi fljóðs fastan af mig slítur“.

66. „Mundi' eg hjer um minna fást, og minnkaði ráðfæringin, hefði' ei verið okkar ást eldri' en fororðningin“.

67. „Lízt mjer ei á lestur þinn“ — lystugt tjer mannvalið — „þessu smeygir elskan inn, allt er þetta galið“.

68. „Eins þó faðir íturs vífs ykkur vildi náða, verður það ei hjer til lífs, því má hann ei ráða“.

69. „Hjer um spjalla' er hjeðan af seint, hefur sá óskar brekið, því fyrir allar æðar hreint er með þetta tekið“.

70. „Skárra' er hálfu að verja víg“ — voldugur hjalið bryndi — horfðu' á sjálfur hvort eg lýg“, og honum skjalið sýndi.

71. Tók við hinn og tjeða skrá tímakorn horfði, lista svinnur loks nam tjá: „leikur er enn á borði“.

72. Hastur spyr að höfðinginn: „hvað kann

sök þá villa? Hvað ber fyrir þanka þinn? þetta skilst mjer illa“.

73. þegninn slingur þá svo tjer: „það vil eg gjarnan segja, leiðrjetting ef lofið mjer, líka hinu að þegja“.

74. „þjer skal eg ráða heilt og hreint“, — herrann svar rjeð búa — „allt hið tjáða láta leynt líka ef mjer villt trúa“.

75. „Sje eg vel fær sveinninn tjeð sá er fjörs í banni, nú sem vjelar valdi með víf af föðurs ranni“.

76. „Hvernig fer ef meyja mann mektug nauðgan tekur; getið þjer þá haldið hann, hjer við dæmist sekur“?

77. „Gefur drótt því öfugt ans, að orki' ei slíku meyja, kann ske dóttir mektugs manns, er mikið hefði' að segja“.

78. Gekk sem villtur ráfi' í reyk ráðgjafinn lengi og þagði, þenkti stillt um þennan leik, þá með undrun sagði:

79. „Leiki þetta listugt mær, lætur hún sjá sinn vilja, en yfir það rjettur enginn nær eg svo megi skilja“.

80. „Hindrast annars innföll slík, illa' af nein-

um lögum, sá til kann með siglufiík sigrar storm í slögum".

81. „En þessa hlýtur mektar mey myndug vitni bæri, að háskalítið hafurðu ei haft neitt undanfæri".

82. „Næðu saman seimgrund keik, og sendir hafnar roða, eg hefi gaman af þeim leik útfallið að skoða".

83. „Þar mig eggið", þegninn tjer, „þau á hættu efni, vona eg leggið liðs orð mjer líns og hýrri gefni".

84. „Reyna skal" — kvað ráðherrann — „rekkar brátt hvort frjetta, víst að hal og vífi bann, verði fyrir þetta".

85. Leik þann skakka, baugs kvaðst bör, bæði kunna' og vilja; hlýleg þakkar sveinninn svör, svo með blíðu skilja.

86. Hann sem skrafað gat til gagns, og gáfna notið sinna, nú mun hafa leitað lags línsöng hljótt að finna.

87. Mær og rekkur orð sín á engum heyra buðu, hjer og ekki hermir frá, hvað þau ráðslöguðu.

88. Talið skammt, sem trúlegt var, tæmdu

kveðjur blíðar; fleira samt til frjetta bar fáum dögum síðar.

89. Dag einn reita bráins bil, blómlega skrauti hlaðin, föður síns leitar leyfis til lysti-reisu um staðinn.

90. Herrann gildi henni ljer heiðurs vagn og jóra, en bauð ef vildi velja sjer vopnaða sveina fjóra.

91. Hjarta gladdist baugsól-blíð, bezt er láni treysti, föður sinn kvaddi' í þeli þíð, þannig búin reisti.

92. Þeirri greinir ferð ei frá fyrri' en svanninn mætur, staðarins einu húsi hjá hurra vagninn lætur.

93. Stóð í glugga húss á hlið hópur ynglismanna; storðar duggu staldra við strönd ljet greipar fanna.

94. Stúdent fríður stóð þar hjá storðar njótum linna, líns nam hlíði lotning tjá líkt og sjerhver hinna.

95. Heilsaði rjóður hringaströnd, hattinum ofan svipti, víf greip móðugt hals um hönd, honum í vagninn kippti.

96. Laufa þundur leiks mark það ljet sjer

hugnast þegi, „við erum fundin“, fljóðið kvað, „fyrst en skilin eigi“.

97. Halur fregnar „hvað svo mjer hafið að befala“; auðgrund gegnir: „yfir þjer, erindiskorn að tala“.

98. Býður eyri bauga senn blakka' að herða ganginn, kallar; „heyrið mínir menn, mann hef eg þenna fanginn“.

99. „Varla má jeg vera' þess duld, vildi' hann burtu flana, hjá honum á jeg skrítna skuld, skal hann út með hana“.

100. Vagninn rann á veginn nú, vífið frjetti kennda: „hvenær annars hyggur þú, heit þín við mig enda“.

101. „Skuli' jeg efna heit mín hjer — halur gengdi fjáður — „linda gefni leyfið mjer lítið frávik áður“,

102. Greip pístólu kvenndi og kvað: „kæri, nei, jeg þakka, viljir stóla þú á það, þessi leik má skakka“.

103. Máli hagar menja rein, meið við krakasáða: „jeg í dag skal eflaust ein okkar kjörum ráða“.

104. Rekkur dáðugt drósaval, dapur beiddi

friðar, „verið þjer náðug víst, jeg skal, vilja hlýðnast yðar“.

105. Víf framkvæmdi vjelaspil, og viður fleins að gagni, eins og dæmdur dauða til drengurinn sat í vagni.

106. Búin vizku vissi hvar, vefjan linna traðar katólískra klerka var klaustur innan staðar.

107. Rekkar spara' ei reisugögn; rjeði ferðum svanni; þeir svo fara' að fyrirsögn fljóðs nær þessum ranni.

108. Vagninum fljóðið frítt af gekk, fylgdi njótur veiga, hjalaði móðugt hún við rekk: „hjer skulum lögdag eiga“.

109. Leiddi þarna línspöng inn lúraðan bendir geira, þjenararnir þetta sinn þar um vissu ei meira.

110. Dellings arfi að aptni leið, ei bar neitt til frjetta; en hvað starfar auðarheið upp mun tíminn rjetta.

111. Skorð gulls nú við skildum rekk, skilaði ljónið hurðar, hann prúðbúinn burtu gekk bragna nokkuð furðar.

112. Viljið þið fá að vita hvað. ver fór

Yggjar flíka, ekki lái' jeg ykkur það, að því spurði' jeg líka.

113. Hjer til geymist einlægt ans, eg svo frjetti' um manninn, rann hann heim til ráðherrans. og ræðu vakti þanninn.

114. „Herra sælir! þiggið þjer, þökk fyrir skilnað blíðan", hinn eins mælir hýrt og tjer, „hvað er í frjettum síðan".

115. „Ekkert skaðlegt eða slæmt" — ansaði knár í brögðum —, „nema það er nett framkvæmt nú, er þá um sögðum".

116. „Herra, þekkið hal og frú, heims er faðmar blíða, vantar ekki nema nú návist yðar þíða".

117. „Sett ef prýðið samkvæmið, svo er heillum varið, á ei síðar illa við, að orðum nokkrum svarið".

118. „Fyrst þjer hafið afsagt ei orð fyrir mig að tala, drekkið af hjá mjer og mey, mína skál án kala".

119. „Gagnlaust er ei innfall þitt" — ansaði hinn af ljetta — „eigi mjer að hæfa hitt harla vel fer þetta".

120. Seggir hljótt á sömu braut, síðan feta'

um grundu, drógst að nótt, en dagur þraut, þá drykkjuhúsið fundu.

121. Hvernig náði nistis heið. njóti bráins kletta, herranum tjáði hinn á leið, honum leizt vel á þetta.

122. Helzt má fyrna frígeð hans — freyjur heyrið spanga — í því dyrnar opnast ranns inn hvar skyldi ganga.

123. Herranum lystugt halur tjer, hyrjar knúður byljum: „kalla jeg fyrst að hittumst hjer, hvernig síðar skiljum“.

124. Nokkuð snart í brúnir brá bragning dáðum gædda, brúðarskarti' sjálfur sá sína dóttur klædda.

125. Drengjum varð á drykkju stans drótt sem fjell í svíma, en hann starði á orma sands eyri langan tíma.

126. Ávörp tregur andann dró, ásýnd tignar klára, forskillegum förfum bjó, fleygir lofnar tára.

127. Tengdaburinn hans, er heið hringa festi' óvörum, óhræddur en orðlaus beið eptir fyrstu svörum.

128. Unz sig hressir hýrt við svar hilmis

makinn svinni, orðum þessum út svo skar eðalmóðugt sinni:

129. „Fyrst vort kæra föðurland fætt með lund ódeyga, hefur þá æru hjer í bland höfuð slíkt að eiga“.

130. „Mun fyrir annan meiri gikk, en mig vill þjóð álíta, dýrgrip þann með dára skikk djarflega hreint ónýta“.

131. „Mun svo ráðug ærleg önd, ætluð víst til þarfa“ fremur tjáði' og tók við hönd tengda dýran arfa.

132. „Þú hefur unnið þetta spil, það menn heyra mega, víðir sunnu vorðin bil verðugur að eiga“.

133. „Metnast eigi vinning við, vizku lær svo haga, að flestir megi fá af lið, en fæstir yfir klaga“.

134. „Lát þitt makalausa pund lofað og virt af þjóðum, yfir því vak um æfistund arði hrósa góðum“.

135. „Get jeg ei láð þjer listapar lundur þulu flagða; ykkur báðum vorkun var við þó neyttuð bragða“.

136. „Furðu vart mun ei þótt að, eikur

hringa beiddir, en hafðu' á parti þökk fyrir það, þú mig hingað leiddir".

137. „Tali skjótt þú tældir mig, tvískipt þönkum getur, mín hefur dóttir þekktan þig þúsund sinnum betur".

138. Aðgæt nú þótt eg í kvöld ykkar bikar drekki, skulu' ei búin skipti töld, að skár hver annan þekki".

139. Gegndi hinn: „jeg hef á grun hirðir nýtur dáða, eðalsinnið yðar mun athöfn hverri ráða".

140. Hjalið dælt á hlýddi lið, hvorugum fatast dáðir; að svo mæltu munngát við mágar settust báðir.

141. Bikars ornar iðan rauð, ýta flokki snjöllum; heim að morgni bragning bauð borðgestunum öllum

142. Var að drekka virða sveit vínið náðum spillti; háttuðu ekki hjónin teit, herrann svo til stillti.

143. Gríma bragna gekk frá sjón, göfugur lítt við eyrði; bæði' á vagninn heimti hjón heim í bítið keyrði.

144. Nætur liðugt greiðann galt gnóttum víns

og rjetta, stórmennið í staðnum allt stórhóf sókti þetta.

145. Frægan brustu' ei föngin góð, fleygi Rínar ofna, veglegustu veizlu þjóð vann í hasti stofna.

146. Hjónabandi hal og frú herlega klerkur vafði, varð ei grand við getið nú gjörst hvað áður hafði.

147. Flestir undrast fleins hvað álf fjell til svoddan einum, rjett sem Lundún hefði hálf hrapað að neðstu steinum.

148. Hátt til æru hermdi rekk herrann yfir borðum, hvað sá kæru fastnað fjekk fagnaði hann í orðum.

149. Öllum frami fleins við rjóð frekur bætast þókti, almennt gaman af því stóð, en enginn málið sókti.

150. Karl gat alla krapta spennt kvisti baugs til æru, svo hann varla' af mannvitsmennt missti not nje kæru.

151. Gáfna háfum helzt varð rekk hægt úr dupti bjarga, á árum fáum yfir gekk ærutröppu marga.

152. Loks án vansa merkur mann mágs síns

rúmið fyllti, fylgi hans og hamingjan hlýlega svo til stillti.

---

153. Smekkur óma vesæls víns, vil jeg það svo kenna, hverfur gómi muna míns, og minnkar blek í penna.

154. Fer að dalast fær ólag, ferjan búa steina, en að tala' um ár og dag ekki nú skal reyna.

155. Hjer má segja sveitin bist, svín hafi baug á grönum, bar mitt heiti byskup fyrst, buðlung svo hjá Dönum.

156. Eigi hrósa lærð of lítt, ljóðin smíði nettu, þegi kjósa færð of frítt fljóðin prýði settu.

---

# Ríma

## af einum bónda.

Ort af

## Ólafi Eyjólfssyni.

---

1. Skorður klæða herjans hjer hefji ræðu-blóma, veiti gæði mærðar mjer meðan kvæði róma.

2. Ekki taptar eg þess bið allar skaptar myndir, fleinarapti ljái lið, ljóðakrapt og yndi.

3. Ekki hefur enn þá mjer orðsnilld gefizt fríða, stóran efa æ því ber, óðarstef að smíða.

4. Samt jeg reyna tek nú til tals úr leyni slöku, þjassagreina þöll í vil, að þylja eina stöku.

5. Víst þó kvíða vekur mjer — völt er blíðustundin — bætti' ófríðum þessum hjer, þegi hlýði sprundin.

6. Æfintýri einu frá, ofnis mýra lundum, mögur skýrir mærðarskrá, og menja hýru grundum.

7. Frá mjer ætíð gæfan gekk, gleði mætri týni, aldrei væta eg mjer fjekk á Yggjar sætu víni.

8. Varla gleyma maður má, margt í heimi stjankar, títt um geiminn til og frá trúi' jeg sveimi þankar.

9. Geðs um veginn æ mjer að yndis hneg-ist gaman, mönduls fleyið mitt í stað, mun þá slegið saman.

10. Drýgist gæða hefðin há, hljómur kvæða dansi, flýi mæðan fróni á, flest ónæði stanzi.

11. Sóma tjeðu sæturnar, er sónar gleður lögur, þegið meðan þíðlyndar þessar kveð jeg bögur.

12. Lindin glansa báru bezt, bind jeg man-söngs fræði yndiskransa heillum hresst hrindi vansa' og mæði.

---

13. Máls um skanzinn minn að því mærðar dansinn víkur, álfur brands í einum bý utan-lands bjó ríkur.

14. Segginn fjáðan, svo jeg tel, sultur þjáði enginn, aura tjáður varla vel vita náði fenginn.

15. Mjög ófríður þókti þar þegn á prýði tregur, öllum síður sagður var sóða-tíðum-legur.

16. Hjartað límdi hann við auð, hrósið rýmdi viður, engum tímdi býta brauð, af búksorg hímdi niður.

17. Ókvongaður stýrði stað, storðu naðurs unni, sjer því laða sætur að sá ei maður kunni.

18. Enga blíðu af þeim vann, er eiga tíðum vildi, hinum síður sinna kann, svegir skíða gildi.

19. Þangað nennir þóptu mar þulins renna hraður, í nágrenni úti þar einn bjó kennimaður.

20. Ýtum þótti öllum sá, auðs af gnóttum hresstur, með íþróttum einnig á eina dóttur prestur.

21. Hafði þegar heitið því hökla' ótregur runnur, að geistlegum gæfi frí, góins vega sunnu.

22. Fyrri skráður fjes-njótur, foldu þráða nýta, augum báðum ósnotur eitt sinn náði líta.

23. Garpinn brennir ástin ærð, iðkar þenna vana, enga kennir í sjer værð utan spenni hana.

24. Grábaks strindis geymir vann geðs í-
mynda svæði, hvernig linda lofnar hann ljúfu
yndi næði.

25. Blossaláar býtir einn byskup náir finna,
honum tjáir hann óseinn hugarþrá mjög stinna.

26. Bað hann grunda ráð órýr, raunastund
svo linni, skyldi hundrað höklatýr hafa' í mund
gyllini.

27. Bjóður hallar sönga sá við sviðrir spjall-
ar treyju: „það mjer varla verkast má, að vinna
snjalla meyju“.

28. Gumar talað gjörla fá, með gómafal
ótregum, að giptast skal ei nistisná nema hal
geistlegum.

29. „Þú í flestu sóði sjest, sem að gestir
róma, en jötnalestra beðjan bezt býður mest-
an sóma“.

30. „Svoddan stunda samt jeg næ, að sorg-
ar lundin rjeni, ef þrjú hundruð fögur fæ,
fleins hjá þund gyllini“.

31. Byskup mildum þylur þá, þollur gildur
hneita: „þó að vilduð þúsund fá, það jeg
skyldi veita“.

32. Minn jeg þróttinn ætíð ól, auragnóttir

hirði, fengi' jeg gróttu sanda sól, sinnið rótt þá yrði.

33. Byskup mætur tjeðan týr tekur vætu glæðu; máls um stræti myndar hýr mjög ágæta ræðu.

34. Bónda nema skipar skjótt — skaða sem að bæti — það sjer temur þegninn hljótt, þegi fremur kæti.

35. Byrjar síðan bænagjörð — bar þó stríðan trega — gauti skíða geðs um jörð gekk það prýðilega?

36. Þorna álfar það fá tjeð, þetta bjálfa hrerið, mánuð hálfan hafi með hana sjálfa verið.

37. Texta nýjan sinnusal síðan í hann færir, einnig því — sem inna skal — exordíum lærir.

38. Viður hringa vikur sex verkið slingur fremur, allt af þyngir, ánauð vex, útleggingin kemur.

39. Sú í greinir, tjeð er, tvær tekin — mein er skerða —, ullur fleina enn við þær, upp sig reynir herða.

40. Vikur rjettar átta enn, ormastjetta veitir, lætur spretta lærdóminn, lund ónetta þreytir.

41. Byskup skoða fljótt nú fer freyrinn roða seyru, sjer að voði orðinn er í hann troða meiru.

42. Listum tæmist hollum hjer hann um næmisvegu, en girndar slæma brunann ber til brúðar sæmilegu.

43. Þegar rjóða veigavör vopnabjóður lítur, heitust glóðin ástar ör um yndisslóðir þýtur.

44. Róms með stýri, rjett þess get, ráðið býr nú klóka; staðar fýrum ljúfur ljet lundur skýra bóka:

45. Hjá sjer maður væri vænn, vel siðaður, tryggur, lærður, glaður, listakænn, um lyndis hlað ei styggur.

46. Næsta sólar dýran dag drekabóla hirðir, upp í stól, með lukku lag, látinn róla yrði.

47. Þar sig reyna rekkur á ræðu hreina næra; flestir meina muni sá málateininn hræra.

48. Baldi linna brekku þá, byskupinn óstaður, öllu kynnir efni frá, er ætti vinna hraður.

49. Skarpleik bera skjaldagrjer skaltu þveran eigi, og að vera' í öllu hjer eins og þjer jeg segi.

50. Þegar lýðir frjetta frí um fleygir þíðan sverða, kirkju hlíða allir í, ama tíðir skerða.

51. Dróttin þekka drjúgt að rann; dýrið bekkja þrekið, fagran rekka fjölda þann, fær þá ekki tekið.

52. Söngur fríður sinnuhý svinnra lýða gleður; stígur síðan stólinn í stúdent prýði meður.

53. Beztu fremur bænagjörð, brögnum sem að þótti, þeirra kremur hjörtun hörð, hryggðar lemur ótti.

54. Talið nýja textans þá temprar frí með sóma, exordíum einnig hjá, orða-drýgir blóma.

55. Útleggingar aðra grein af þá slingur setur, Yggur hringa angurs mein ýta þvingað getur.

56. Mengið kunni mikið því máli unna góðu; hjarnar sunnur heitum í hvarma brunnum flóðu.

57. Fólkið grunar fátt um þann fossa bruna veitir, hver að muni maður hann, er mjög við una sveitir.

58. Firðar inna: furða sje fjölnir linna bala, óleikinn í embætti, að svo kynni tala.

59. Þegar prestur orðinn er, og iðkað lestur hefur, þjóðin flesta honum hjer heiður mestan gefur.

60. Grein þá tjáða endar ór, sem ýta bráðast lúði, þungan náði baugabör blása dáða prúði.

61. Eins og sæti eitthvað það inn í stræti þanka, er ei gæti útmálað, angurslætin stjanka.

62. Tók þá móður hnykk einn hratt, hreifir flóða ljóma; stansa þjóðir, stóllinn datt, stundi fljóðið óma.

63. Lá við mundu fljótast fá, freyrar þundar glóru, lífsins stunda lokin þá, lágt sem undir vóru.

64. Görpum þróast gráturinn, gefst ei ró nje friður, handar snjóa hirðirinn hraut í óvit niður.

65. Gleði bannið byskup fann, þeim ef kann að saka, blossa hrannar börvum hann býður manninn taka.

66. Auman berið inn í borg, enga gjörið pínu, hrotta verinn hulinn sorg halli sjer á dýnu.

67. Undir sjúkra verndar væng, víðir dúka tveggja, og í mjúka eina sæng, ærið sjúkan leggja.

68. Bóka skrúður hirðir hýr hafði áður töldu, krakasáða svinnum týr, samið ráðin völdu.

69. Svoddan plaga seggir tjá, sá er aga gætti, hafi sagað sundur þá — síst þó haga þætti.

70. Stólpa langan stólsins þar — stórum dangast gaman — lærður spanga lundur snar ljet þó hanga saman.

71. Meðan snjalla máls við rót á móins palla njörði, limir varla hrærðust hót, hann ei falla gjörði.

72. Hempu runnur drýgði dáð, dagsins sunnu morgun, handverk unnið hafði tjáð hljóta kunni borgun.

73. Það embættis eptir var, þó ýmu grætt sje veður, sjálfur gætti semja þar sóma hætti meður.

74. Eptir fallið, mikli mann, messu spjallið fríða, bænahallar haldarann, hann þá kallar blíða.

75. Hastan anda hafði víst, hreifði vanda skrafi, að í standi stólinn síst stýrir branda hafi.

76. Liggur nær að lófta því, lífið kæra dvíni, sig ef hræra honum í, hefð og æru týni.

77. Löngum örfast lukku slys, lá við hjörva þundi, öllum störfum embættis út af hörfa mundi.

78. Söngva ráður síðan fann svofnis láða börinn, þann sem áður þola vann, þrauta bráðu kjörin.

79. Orðin brýnir á þann veg eyeu Rínar njörði: hvort að pínan hræðileg hans ei dvína gjörði.

80. Aptur ríkur ansar þá, auðnns fiska rjóður: alla mýkir eymd og þrá, angurs víkur móður.

81. Tals af svæði bifður brá byskup ræðu hreinni, hans hvort stæði hugur á hrundu klæða neinni?

82. Innir þjóður axa þá: Þitt jeg fljóðið nefni, loga glóðir yndis á elda móðu gefni.

83. Prestsins fróm er dóttir dátt, sem dúfan óma treður; ósa ljóma eg vil gátt eignast sóma meður.

84. Byskup finna fljótur vann föður svinnrar píku, skyldi kynna hónum hann, hvort að sinni slíku.

85. Hraður tjáði: held jeg sje heiðurs dáða fagur selju þráða sómandi svoddan ráðahagur.

86. Svo nam prestur sæmdarör, Sigtýrs festir treyju, meður bestu kosta kjör kæra festa meyju.

87. Veizla síðan framdist frið, firðar prýði laga, brjótur skíða hrings og hlíð, hreppti blíðu daga.

88. Ei er getið upp frá því, um það letur skrafi, stólinn fetað aptur í orma setra hafi.

89. Fleins þó rjóður reyndist fyrst í ræðu gróða sjeður, þeirri góðu greina list gleymdi fljóði meður.

90. Þá efnið sanna frjetta frí faðir svanna náði, illa vann að una því, óhappanna ráði.

91. Samt við standa svoddan hlaut, sveigir branda nýtur; lilju banda lengi naut, lukku grandið þrýtur.

92. Korðaþórinn kunngjörest, klerkastjóra rjeði ómak stóra borga bezt, býsna rór í geði.

93. Æfintýrið falla fer, fremdir skýrar deyja; leiðist rýran lengur mjer ljóðavírinn teygja.

---

94. Villan blind að vanda brag var í lyndis grunni, sem erindi eitt á dag ekki mynda kunni.

95. Burt svo falli brestirnir, bið jeg alla daga, gargans vallar hlini hjer hróðrar spjallið laga.

96. Máls um dalinn mitt ei skín mærðar talið laka, hrana svalan hræðda mín hætta skal að kvaka.

97. Hjer ef stunda hróðrarsafn, horskir lundar geira, mitt þá bundið mega nafn, mjög ógrundað heyra:

98. Skýja flæði, laxa laut, lungur æðir móður, frjófgað svæði, flyðru braut, fjárins gæða sjóður.

99. Gjöri' eg þjáður geðs um bekk, góðar náðir prísa; sannar dáðir þyggi þekk þjóð um láðið Ísa.

100. Glóða móðu glaðan ver, og góða tróðu klæða, ljóða gróður hressi hjer, hróður bjóðist gæða.

---

# Jannesar-ríma.

Ort af

## Guðmundi Bergþórssyni.

---

1. Verður herjans varabjór við skáldmæli kenndur, dreginn fram af draumakór í dönsku máli hendur.

2. Mig hefur beðið málmagrjer, mann á kar-ardýnu, eina rímu' að yrkja sjer, af æfintýri fínu.

3. Verð jeg því með vísna starf að vefja saman orðum, hans jeg geði þóknast þarf, því var heitið forðum.

4. Varla' er þó til ferðafær fjalars súða hestur, ef hann væri nokkru nær, núna þar á brestur.

5. Hvað þeim auðnan gjörir gott, sem gjarna að henni leita; fyrir utan spje og spott, spakir hennar neyta.

---

6. það er upphaf þessa máls — það mjer bókin skýrði — þegar kongur Friðrik frjáls fyrsti Danmörk stýrði.

7. Stillir hjelt þar stjórn með frið, stórhöfðingja líki, tyggja þjenti tígið lið, traust um allmörg ríki.

8. Út við skóg á breiðum bý bjó um þenna tíma karl einn giptur kotbæ í, kveikist af honum ríma.

9. Áhalds hafði hann eina kú, og ótal margt af svínum, ól hann son við ektafrú, í aldurdómi sínum.

10. Jannes nefndist sveinninn sá, siðunum fátt af lærði; daglega til dyggða brá, drafið svínum færði.

11. Ólst hann upp með æru' um stund, æfin svo fram gengur; varla tók sjer væran blund, vinnusámur drengur.

12. Lesa' og skrifa lærði seint, með lasin strigaklæði, vandist heldur við það beint, að vakta grýsum fæði.

13. Morgun einn þá dúr af datt, draum í hug sjer leiddi, fánalega á fætur spratt, föður sinn orðlofs beiddi.

14. „Borgara vera eg veit einn út í Þýzkaveldi, Kláus nefnist herra hreinn, Hárs sem tærir eldi.

15. „Dóttir eina' á seggur sjer, sjeð hafa menn ei slíka, þá vill gæfan gefa mjer, gullhlads þöllu ríka".

16. „Á stað vil jeg fara fljótt, faðir! gef mjer leyfi, að vinna megi' eg vífið mjótt, og verða borgargreifi".

17. „Ertu vitlaus" karlinn kvað", kynngir að þjer siga, fanturinn villtu flana' á stað, fjelaus klæddur striga".

18. „Hver mann mun þig halda grey, húsgangs ferð vill læra, þenktu' aldrei á þessa mey, það er þjer ofstór æra".

19. Hann kvað engin hrykki bón, að hindra drauminn fríða, í kotinu bæði kvaddi hjón, kreikar á burtu síðan.

20. Stefndi þegar á þýzka grund þegn með skýru bragði, hvar sem rekka hitti fund, hann sitt áform hafði.

21. Margur að því mikið hló, mannskaps stryk það ræddu; skenktu sumir skilding þó, sem skopuðu dreng og hæddu.

22. Stefndi rjett að staðnum þeim, sem starskyggn draumur spáði, mátti' ei líta maðurinn heim, mörkin villa náði.

23. Um síðir leit hann sveinamakt sjer í móti fara; herramaðurinn hjelt á jakt, heilsar hann þessum skara.

24. Spyr hinn ríki þorna þund, þegar að ætt og nafni, drengurinn kvaðst af danskri grund, drattingjanna jafni.

25. Draum sinn allan byrti brátt, borgari verða skildi, fríða eignast faldagátt, ef faðirinn játa vildi.

26, Herramaðurinn hló þá snart, hæðandi nam ræða: „Þú hefur sofið a heilann hart heimsku veslings skræða“.

27. „Aldrei færðu baugabil, biðilinn hefur hún fengið, hann reið áðan heim þar til, og hygg jeg saman gengi“.

28. „Hafðu ráð mín, kompán kær! kynntu' ei neinum þetta; borgarinn þjer bana fær brátt, ef slíkt kann frjetta".

29. Krónur þrjár, af kólgu yl, kappinn tók og spjallar: „þær skalt hafa þarfa til þjer fyrir kostnað allan".

30. Jannes þakkar járnabrjót, játar svo að breyta, skildust þeir við skógarmót, skammt var heim að leita.

31. Heldur Jannes heim í stað, hljóður mjög í sinni; sjer hann nú að satt er það, seztur er biðill inni.

32. Vænust jómfrú var þar hjá, vilmælin þau binda, fegri enga fyrri sá, í flokki silki-linda.

33. þenkir Jannes þá með sjer, þungt með hugsun kaldri, ljótur draumur laug að mjer, línspöng fæ jeg aldri.

34. Um gólfið reika gjörði fyrst gautur stáls og þagði; öldin drakk með æru' og list, enginn til hans lagði.

35. Matar bað þá málmagrjer mætan bendir sverða, burgeys segir: „ef borgið þjer, brátt skal það til verða".

36. Fæðu tók með fáein orð ferðamaðurinn hraði, kastar síðan krónu' á borð, kostinn betalaði.

37. „Bísna vel oss borgar þú“, burgeys svo að víkur, „varla muntu nízkur nú, þó nóg sjert ekki ríkur“.

38. Þagnar síðan þeirra tal, þegn fór bekkja milli, glöddust menn um góma sal, af góðri krúsarfylli.

39. Kankvís síðan komst á hljóð — kvenndin mega það prísa — biðillinn hvíslar baugs að slóð, biður í nótt sig hýsa.

40. „Rata' á yðar rúm jeg vil, rjett með kærleiks greinum“; þessu játar þornabil, „það er í loptsal einum“.

41. Segir honum hvar sængin er, sem þau skulu finnast; hugsar Jannes hægt með sjer, hvað skal mjer nú vinnast.

42. Ölvast fólk, en dagur dvín, dregst að kvöldið líka, biðillinn gekk með sveinum sín svefns í skemmu ríka.

43. Jannes hvergi fjekk sjer flet, fljóðs í lopt upp gengur, þar sem biðillinn hjávist hjet, hljótt rann eptir drengur.

44. Jómfrúin háttar þíð með það, þernu' í húmi eina ljúka hægt upp lopti bað, þá lundur kæmi fleina.

45. Jannes stigann hljóp upp hart, hurðu á. nam leita, hún lauk upp, en hann tók snart, haminn af sjer reita.

46. Leggst hann niður hjá frúnni frí, fyrir var sparlak dregið, sæng hafði aldrei svoddan í, um sína daga legið.

47. Ekki sagan innir skil, er hann gjörði' að vinna, einhver verður auðarbil, upp þá gátu' að finna.

48. Kvenndin mega kveða þar að, sem káta skemmtan fala, hvað þau hafa hafst þar að, hirði' eg ei um að tala.

49. Stundu síðar stappað var um stigann, svo þær heyra, biðillinn kom og barði þar, bistíst þernan meira.

50. Mundlaug grípur mærin skjótt, megnis fulla' af hlandi, hurð upplýkur furðu fljótt, framan í hal steypandi.

51. Greip fyrir augun geiraþór, grefillinn bað þær hafa; þó að hann væri þykkjustór, hann þorði ei hátt að skrafa.

52. Sína vekur sveina strax, „svívirt hefur oss frúin, hesta skulum hafa til taks, háðung er oss búin“.

53. „Hve veit nema burgeys bráður, beint og hringaselja, hafi mjer sneypu hugsað áður, hjer skulum ekki dvelja“.

54. Maðurinn burt um miðja nátt með sinn flokk nam ríða, svo er hann úr sögunni brátt, samt skal hann Jannes bíða.

55. Laust fyrir dag, þá línejk svaf, læddist hann frá brúði; hringinn plokkar hendi af hafnar ljóma þrúði.

56. Að morgni fólk þá vaknar við, var þá nóg til frjetta, biðillinn var í burt með lið, burgeys undrar þetta.

57. Hjeldu hann allir heljar svín hafa verið og dára, að hann gjörði ei erindi sín öðruvísi klára.

58. Enn var Jannes í þeim stað, aptur máltíð þáði, krónu aðra kostar það, kætast burgeys náði.

59. Stórörlátan metur mann meir en aðra seggi: brúðurin tók að horfa' á hann, hún þó fátt til leggi.

60. Hún kom auga hring sinn á, halurinn svo til stilti; ágirndin með auðargná ýmsum þönkum bylti.

61. Finna vill hún fleina brjót, ef færi gefast næði; þar kom loks hann hitti snót, hljótt við talast bæði.

62. „Hvar fjekkst gullið hjálmagrjer, hringinn þann jeg kenni“ — „í sænginni hjá sjálfri þjer“, svaraði Jannes henni.

63. „Svínahirði segi' jeg mig, sen af dönsku ríki; auðnast mjer að eiga þig, og erfa linna sýki“.

64. Roðnar fráin rjett sem blóð, rekur stans á kvenndi, „svo mun fara“, sagði fljóð, „sem þjer draumur kenndi“.

65. „Kalla skalt þig kaupmanns nið, kominn af dönskum lýði, segðu þú hafir um maramið misst þitt fólk og prýði“.

66. „Sex ár eru síðan full sendi faðir minn frægur til Indíalands að græða gull, gæt þess vel um dægur“.

67. „Engir komu aptur þeir, er Örina ljetu hlaupa, vill hann skips ei vænta meir, vonina máttu kaupa“.

68. „Óspar vertu' á ofnisbing yfir þó kaupin standi, var mjer rituð vísbending, þeir væri hjer við landið".

69. „Ekki kom þú opt til mín, angurs ber jeg trega, kauptu þjer heldur klæðin sín, sem kosta sæmilega".

70. „Föður mínum hjer þig hjá, hofmannlega skalt bera; jeg skal gjaldið fús þjer fá, fjeskyggn mun hann vera".

71. Fjesjóð fjekk þá hringþöll hal, hann rjeð þakka sprundi; brá sjer út í breiðan sal, þar burgeys drekka mundi.

72. „Greindu mjer", hinn gamli kvað, „geirs þú býtir eldi, hvað vildirðu hafast að, hjer þegar komst að veldi".

73. „Ætlaði jeg til Indíalands", ungi maðurinn sagði, „missti' jeg skip mitt, fólk og fans fljótt á augabragði".

74. Ræddi karl með reiðisvip, rjeði sig ei stilla: „þangað sendi skrattinn skip, skeð hefur mig sú villa".

75. „Ár eru síðan eitt og fimm, er mjer það til vildi, þeim hefur kugga dulan dimm, drekkt, sem ekki skyldi".

76. „Villtu selja vonina mjer, vinur“! hann Jannes sagði, „kunni fley að koma hjer, kaupum þessu' að bragði“.

77. „Ef hundrað dúkata hefur til taks“, hinn kvað ullur branda, „og greiðir þú mjer gjaldið strax, gjörð skulu kaupin standa“.

78. Taldi síðan fram þar fjeð, frægðarmaðurinn snjalli; hirðar fengu handsöl sjeð, hækkaði brún á karli.

79. Kom í þessu seljan seims, sagðist boð hafa fengið, á höfn sje kominn haukur geims, hjeðan sem fyr gat gengið.

80. Hljóðnar karl, en hinn varð glaður, hetjur undrast prúðar, kvaddi síðan komumaður kæru' og föður brúðar.

81. Hann kvaðst verða' að fara á fley, og fjárins verzla arði, burgeys honum bauð þá mey, og búa þar í garði.

82. Þenna kost hann þáði brátt, þó með ríkdóm stærri; fastnaði síðan faldagátt; fór þá draumi nærri.

83. Bar þá hel í burt frá seim borgarann skömmu síðar, ungum hjónum eignir, tveim allar dæmdust fríðar.

84. Unntust þau með æru' og trú um æfi sína bæði, lengra ekki les eg nú lítið sögunnar fræði.

---

85. Hjelt mig enginn höfuðskáld hjer á Íslands grunni, því er ei von að Yggjar sáld yrkja úr dönsku kunni.

86. Milding himna' og meyjar fje, mitt er nafnið kennda; forlát, vinur, fáorð sje, fær svo ríman enda.

---

# Biðils - ríma.

Ort af

## Gísla Sigurðssyni

á Klungurbrekku.

---

1. Möndul skeið af málagrund, menn ef vildu þiggja, renni greið á sónarsund, sína leið um eina stund.

2. Goðin sling nú gefi, að gyllings bússan færi skildings hingað skála bað, Skógstréndingar smakki það.

3. Eitt í flýti efnið skeð, eg veit mönnum greina, þó það lítið þyki ljeð, það er skrítið nokkuð með.

4. Undarlega eina tíð, eg nam vakna snemma, sumars þegar blómgan blíð, björg útvega náði lýð.

5. Upp án dvalar eg þá stóð, út svo róla gjörði, fyrr en sala glaðheims glóð, um grundarbala lýsti þjóð.

6. Gat jeg sjeð hvar rjóður reið, Rínar ljóma þundur; horfinn gleði hófameið, hleypa rjeði til mín skeið.

7. þorna bjóður þessi hjer, þungum móð af stundi, hans um rjóður hvarmagler, hryggðar stóðu bekkirnir.

8. Óttasleginn eg varð þá; ungan fleygir randa, spurði megin frjettum frá, fyrst hann beygir rauna þrá.

9. Geira hnekkir gegndi mjer: „glópsku hrelling versta, hygg jeg blekki þig svo þver, þú veizt ekki hvað til ber“.

10. „Eg vil greina: allir nú yngissveinar gráta, fyrir eina baugabrú blíðuhreina — skilur þú“?

11. „Sú var blómi svanna hjer, samt að rómi þeirra; mæðudrómi mig því sker, meyja ljóminn hjeðan fer.

12. „Björn er furtur biðlandi, búna kurt og snilli, faldajurt hann falaði frá oss burt úr sveitinni“.

13. Sækir halur — svo er tjáð — suður um dali alla, girndar þvalur, laukaláð, líkt sem valur eptir bráð“.

14. „Hestinn knúði hýðandi, hófalúður bessi, melinn gnúði gapandi, gorinn spúði freyðandi“.

15. „Ei var gaman þegar Þór þungan hamar reiddi sinn á raman söðlajór, sást þar framan dalur stór“.

16. „Ekkert skár nú orðið var, undra gjörði þetta, fram þá klárinn fætur bar, flöktu sárin ekrunnar“.

17. „Hefur þú ei sjálfur sjeð svoddan nú fyrir stuttu, Hárs á frú þá hýða rjeð hölda grúinn biðli með“.

18. Eg nam svara: „ungan hal, eyðir skara mundar, þeysti snar um þenna dal, þann hinn rara Dúlsifal“.

19. „Hjer í kringum kotið reið kátur hringabrjótur, sínum slingum söðlameið sjónhending um flengdi skeið“.

20. „Hver er banda niptin nú nærverandi

þessi, sem hjó til handa biðli trú, og bærir randa grætur þú"?

21. „Hvað skal segja, hvernig spur heimskur fleygir spjóta, það er meyjan Málfríður, moturs eyja gullfögur".

22. „Hennar fyrst í Höskuldsey, hrottakvistur beiddi, vildi listug varla mey, vopna hristir geðs um þey".

23. „Smjör nam binda hann í húð, hringalind það færði, varð þá blindað kvenndið knúð, í kofann synda fór á Búð".

24. „Síðan raran ástar eym ekki spara náði, drúpnis skara dokkin beim, á dögunum var svo lýst með þeim".

25. „Sprundið kátt í kirkjunni, svo klerkur mátti heyra, biðlinum játti brosandi, bar þá fátt til výlsemi".

26. „Hann í kórinn hafður var, hljóðin stór ei sparði, við tenórinn vel sig bar, vanga bjórinn hristi þar".

27. „Hrínga tærir heim svo fer, honum mærin fylgdi, líkt sem færi leiptranir, loguðu kærleiks blossarnir".

28. „Kossa bjóða vífi var á veginum rjóð-

ur fleina, hrings frá slóð að honum þar, hunangs flóðu elfurnar".

29. „Svo hefur kúgun sverðahlins, saman hrúgað lýði, kominn er múgur mannakyns að mumpa þrúgu brúðkaupsins".

30. „Ó hvað slagur angistar, oss vill baga núna, en kæti hagur kveikist þar, kominn er dagur föstunnar".

31. „Sjer þú eigi fólk með fans, fara' um veginn núna, já, og mey þann jurtakrans" — jeg kvað, „nei", við orðum hans.

32. Sá jeg hvar á samri stund, seggja skarfinn mikli reisti þar um græna grund, og glæsis bara listug hrund.

33. Loguðu tígin ljómandi, líkt sem ný þar rinni, glóðin skýja glansandi, grund og býinn upplýsti.

34. Komumaður, sem nú sá, sjálfur það og heyrði, mælsku hraður bragði brá, berhöfðaður sagði þá:

35. „Nú má skoða nægð og fje, náir boða sunnu, aldagnoða gekk úr hlje, gullnum roða strjálaði".

36. „Skín í glansa skýja ris, skyggðri lands

hjá mæti, eins og dansi uppsett blys, eða glansi jaspídis".

37. „En jeg kvíði, undir gár, aptur blíðust sunna; þegar hlíðin klæða klár kveður lýði nú í ár".

38. „Björn er þarna biðillinn; brúði svarna tekur, heim í kvarnar kofann sinn kvöl er að tarna, vinur minn"!

39. „Eg sje mann einn eptir þeim, efalaust hann kemur, nú án tafar til vor heim, tíðindanna spyrjum þeim".

40. Þá við fundum þenna nú, þorna lundur sagði: „byrjast undur Yggs á frú, auðargrundu misstir þú".

41. „Málið ljóta margt til ber, mönnum þrjóta værðir; einn var að blóta út frá hjer ullur spjóta heyrðist mjer".

42. „Upp á hnúk við hjallinn sinn hugarsjúkur mælti: láttu' ei klúkinn leiðast inn í laglegan búkinn, sauður, minn"!

43. „Eitthvert greyið ofurljótt — anzaði fleygir randa — þjer jeg segi þetta hljótt, það skal eigi verða í nótt".

44. „Sjáðu dúka — fáguð fje — foldin mjúka

ríður, líkt sem klúka' í lánssöðli, lætur strjúka' á merinni".

45. „Hvort að meyjan óspillt er, eður legin skækja, bauga eyjan blómleg hjer, beikirinn segja mundi þjer".

46. „Heima nú í viku var, við að búast svanni, miklum grúa mannkvæmdar, má því trúa, svo til bar.

47. „Út um býinn fala fór falleg tígin reiðar, kosta nýja kvikum jór, og klenódíin mikið stór".

48. „Hosur bláar baugastjett — biðillinn á hinn ríka — vildi fá, sem færi nett, fallega, já, um kálfann sljett".

49. „Móðir drósar mágnum nú, mikið hrósa gjörði, frá því glósar fólki nú, að fipli' hann ljósa hringabrú".

50. Ei því tali um það grannt, af því valinn mágur sitja skal nú, sem í pant, sextíu dali Ferdínant".

51. „Gaman þótti þundum stáls, þrisvar dóttir hennar, varð ei rótt að missa máls, makann sótti hingað frjáls".

52. „Svuntu nýta svanninn dró — seggir líta

gjörðu — mikið hvíta, meir en snjó, makaða krít, úr trafi þó".

53. „Grettis dáni dregin var, dúkaðist hún um svanna, hatturinn brúni huldi þar, heilatúnið meyjunnar".

54. „Nílar glóða nú í dag niptin bjóða hyggur, svinnri þjóð með samfjelag, í sældar góðan brúðkaupsslag".

55. „Menn þar kvíða mættu við megnust hríðin staupa, en hið fríða inndælið, á að bíða morguns við".

56. „Fleygir spjóta flýttu þjer, frjetta njóta barna", sverða brjótar samráðir, síðan þjóta burt frá mjer.

57. Sjerhver sleginn gjarða glað, grundarveginn knúði, vissi' jeg eigi þá um það, þokar degi kveldi að.

58. Nú um síðir sá jeg hvar sveitir fríðar komu, eins og líði leiptringar, lands um víði flengdar þar.

59. Fylgdi manna flokknum skýr, forlaganna punktur, eysu hrannar eikin dýr, undir svanna keyrðu þrír.

60. Moldin flúði' úr móunum, Mönduls búð-

ir skulfu, járnið gnúði í götunum, grjótið spúði eldingum.

61. Hestar runnu, hvalambur hraut úr munni þeirra, sveittir brunnu, bláleitur byrgði sunnu jórreykur.

62. Sporin viður vallanna, vaxinn kliður járna brast sem niður bjallanna, beljuðu skriður fjallanna.

63. Lands um reiti þjóðin þar, þaðan spreytir fáka, eins og skeyti áfram þar, unz að leiti milli bar.

64. Sá jeg það að maki minn, mundi fara eigi; varð jeg snar að víkja inn, vesældar í hýbýlin.

65. Hátta·fór og hvíla mig; hjörtinn ljósa byrgði, dals um kór þá drýgði sig, drauma njórun geigvænlig.

66. Röðuls blóma birtan há beðju óma viður, þegar ljóma leiptran brá, leti dróma reis jeg frá.

67. Gekk jeg síðan stuttan stig, stundum víða horfði, röðuls blíðan blómalig baðaði fríð í kringum mig.

68. Sá jeg hvar á samri stund, seggir fara

náðu, trauðir bara tveir um grund, traðirnar við foldarund.

69. Söðladýr í suðurátt, sveigðu' um mýra leiðir, komu þrír til baka brátt, bragna týra tafði fátt.

70. Einn af þessum áfram reið ötull hvessir randa, sitt hann essið setti á skeið, í sæti hress á góðri leið.

71. Grundin vann að geispa sjúk, gljúp, þegar manninn kenndi, sporaði' hann um hennar búk, hárauðan með brjóstadúk.

72. Mýra leiðin votsöm var, volaðist eyðir skjóma, helzta neyðin hjer til bar, hrakaðist veiðin stúlkunnar.

73. Beizla fráu brokkarnir, brönuðu nálægt honum; skulu' ei fá að fokka hjer, fallegu bláu sokkarnir.

74. Rekkar snjallir þessir þá, þegar við fjallið báru, girntust allir greitt að sjá í gleðinnar hallir austur frá.

75. Þar mun bæði bjór og vín, bæta mæði hölda, stundleg gæði fá þar fín, framar en ræðir tungan mín.

76. Innan tíða undur ske, eitthvað lýði

gleður, bragna fríða sex jeg sje, sem nú ríða' úr veizlunni.

77. Eg nam kenna bangabjóð, biðilinn þar líka, nálæg þrenn um njörvajóð, nú er spenna skyldi fljóð!

78. Hissa jeg er og hugsandi, hvað til bera kynni, mengið fer um miðdegi, mektugt hjer úr samkvæmi.

79. Þessir fríðir börvar brands, brúðkaups ríða vegi, byrgðu síðan bragnakrans, brúnahlíðir vestanlands.

80. Mig nam langa fyrst að fá fregn af spangabrjótum; japatanga jeg nú sá jölnir ganga austur frá.

81. Hljóp jeg rjett að hitta þann, hrugnis stjetta geymir, spyrja frjetta víst jeg vann, við mig þetta sagði hann:

82. „Hverful gleðin veizlu var, við svo rjeði bregða, inndælið og æran þar, annað knjeð í tafli bar“.

83. „Flestir náðu betri bið, börvar fjáðir randa, sem ei þáðu samkvæmið, sínar tráðu aðrir við“.

84. „Vonzkan leið á viðris frú, vaxin eyðir

gæðum, minnkar heiður, tryggð og trú, tíðkast breiðu spjótin nú“.

85. „Björn það muna má til sanna, mannrýuna blekkti, ægis funa eikin hans, eptir bruna kærleikans“.

86. „Gjörðist veik í gærkvöldi, gullhlaðseik af þessu, brúðkaupsleikinn bannaði, biðilinn sveik hún grátandi“.

87. „Angruð meyjan úti sat ein og þegja gjörði, vildi eigi mjólk nje mat, með af slegið höfuðfat“

88. „Fram úr máta mótgang sinn, mærin játa gjörði, var að gráta vot á kynn, vildi ei láta meydóminn“.

89. „Meyja plöggin maðurinn bar, mærin glögg það vissi, eðlis snögg til úrskurðar, undir höggið komin var“.

90. „Fátæklingur, geira grjer, gefni hringa þókti, iðjuslingur eigi hjer, orkuringur klæðaver“.

91. „Mörgum þetta síðla sjeð, sýndist rjett af henni, saman fljetta svannin rjeð, svika' og pretta verkefnið“.

92. „Bryggju tvinna beiddi þá biðillinn af

hjarta, tryggðir svinnar sjer að ljá sín og minnast heitorð á".

93. „Varla tjáði þetta þó, þrungin bráðum ekka, hann forsmáði hringanó, hörðu ráði yfir bjó".

94. „Sorgum sleginn sverða grjer, svo frá meyju vendi, hallar degi, hátta fer, hugurinn eigi værðir ljer".

95. „Strax á fætur standa vann, stála mætur spennir, þráða — grætur — þöllu hann, þels um rætur innra brann".

96. „Hverfur síðan höldum frá, hitta lýðinn gjörði, innan tíðar aptur þá, ullur skíða kemur sá".

97. „Gekk á láði fleina freyr, fylgja náðu honum vel samráða rekkar tveir, riðu báðir jórum þeir".

98. „Vildu menn að vissi nú vígður spennir bóka, atburð þenna Yggs á frú, er þeir kenna hringabrú".

99. „Þessir stilla þenktu hjer, þeirra' á milli beggja, sama kvilla svanninn ber, svörin illu móti ljer".

100. „Sínu jóði fylgja fór, furðu rjóð hin

gamla; þorna slóðin þykkju stór, þrútin móði grípur jór".

101. „Fleygði þófa fljótt á þann, fákinn prófa náði, með berum lófa bauga vann, björninn hófa aldraðan".

102. „Fylgja náði móður með, menja láðin unga; hryggðin þjáði hennar geð, hindran spáði vandræðið".

103. „Samt útslegna svuntu bar, sápuþvegna og hvíta, og hátt uppdregna hattinn þar, hrundin regna mardallar".

104. „Það var ljótt um þetta skeið, þöllin gróttu meldu, gæru hljótt á garmi reið, glófóxóttum skeifnameið".

105 „Hugði sinn að hitta prest, hrundin linna dýnu, fyrr en hinna mælskan mest, má til kynna þeirra brest".

106. „Undan jóði barði blakk, baugaslóðin gamla; kerling óð með keyrið sprakk, klárinn móði sveljur drakk".

107. „Skuplukorn á skilnings slóð, skykkjunornin hafði, gliggur forni áfram óð, undir hornin bæði stóð".

108. „Mæddur svanninn móti rær megnum

þannig vindi, klerka ranni komu nær, kennimanninn fundu þær".

109. „Lærdóms fjáði bókabör, bragnaráðin styrkti, dúkaláðin orðaðr eldri náði greiða svör:"

110. „Þó að mengið margt ótal, mig hjer flengi núna, eður hengi aldrei skal, eiga drenginn kvennaval".

111. „Rausnar frekur ristill þar ræða tekur meira; sveitinn lekur, svo til bar, sínar skekur hendurnar".

112. „Mjög við þetta mönnum brá, málin detta niður, svó nam fljetta framan í þá, fofnis stjetta örðug gná".

113. „Slitu þrætu börvar brands, burtu mættir ríða; unga sætu ástar bands, eðlið grætur brúðgumans".

114. „Heim á leið sem vonlegt var virðar greiðir hjeldu; mörgum sveið í minni þar, megnust reiði kerlingar".

115. „Mægður vitja víst er það veizlu nytja sinna; bæði kritja bjór og spað, brúðkaups sitja drykkju að".

116. „Get jeg á ei giptist þar, gautum brá-

ins dýnu, hringaná sem heitin var, hjeðan í frá til eilífðar“.

117. „Meyjan deyr, en merkileg minning heyrist standa, ei um fleira fræði þig“, fleygir geira kvaddi mig.

---

118. Fellur þannig frásögn ljót, furða vann mig núna, hvernig svannin baugabrjót, blekkja vann með ástarhót.

119. Linast stundum höggið bátt, hremmir tundrið blossi; einn þó grundi afl og mátt, opt hefur mundin líka fátt.

120. Margir spáðu menn í gær, málmia fjáðum runni, ung í ráðum unni mær, er nú smáður rekinn fjær.

121. Mun ei styggðum hreifa hann, hefnd og bligðun finna, sú í tryggðum svíkur þann, sem með dyggðum elskar mann.

122. Get jeg sprundin geðs um bú, góðsöm fundin næsta, þið sem stundið tryggð og trú, tjörgulundinn aumkið nú.

123. Bundin ræða falla fer, friður gæða spenni dokkur klæða dyggar hjer, dvíni mæða, sögnin þver.

124. Dimmir gríma, dregst um bý, dagsins skíma líður, kvonfangsríma þrýtur því þreyttur svíma leggst jeg í.

125. Þernan grana þels um stig, þetta man

til forna, hjer að vana hvílir sig hlýri bana svæfir mig.

---

# Uppreistar-drápa

eður

## apturhvarf

herra Tumásar til rjettrar trúar af fortölum sjera Fabarii[1].

---

1. Sinnið margt sem maðurinn er, máltak sannast víða fer; það sem einum þóknast bezt, þykir hinum kann ske verst; gumna dómar gjarnan um svo ganga flest.

2. Misdómendur þessa þá þeigi fáa skulum sjá náttúrlegu efni í, andlegu mættu vera frí; eins þó beri enn fyrir mönnum út af því.

3. Gjörvalt sumir girnast nýtt, gamalt verður af þeim lýtt; eldra hinir akta meir eins og gull

---

[1]) Kvæði þetta er ort af sjera Þorsteini sál Sveinbjarnarsyni að Hesti í Borgarfirði. Það er kallað Kaffibragur; en í kvæðið vanta nokkur erindi á undan hinu 12.

hjá fölum leir; meðalveginn hvorugir hitta held eg þeir.

4. Innan lands því akta má, einir hrósa og vilja ná; framandi, þó falskt sje skrof, fær hjá öðrum bezta lof; veröld forna veltist svona í van og of.

5. Einfaldlega meining mín, meður, bróðir, leyfi þín, láta verð eg uppi enn, orðræða þó falli tvenn; gott er allt, með gætni brúkað, göfgir menn!

. . . . . . . . . . . . . . . .

12. Meðal þess er kaffi kyn; kennirðu nokkuð það, minn vin! Ísland þola ekki kann a r a b i s k a drykkinn þann, sumir hafa sagt mjer og það sýki mann.

13. Sjálft er það að sönnu dýrt, sumum kann þó smakka rýrt, nema rjómi og sikur sje sjöfalt meir enn heimtir the; fylgjast þetta allt skal að sem á og bje.

14. Katlar, bollar, könnurnar, kokkapíkur út lærðar, mylnum skeiðar með eg finn, man þó ekki helminginn, af sem slíkur ýtum krefur óþarfinn.

15. Nú þótt herrar nýtt með skykk nefnd-

an brúki svoddan drykk, þeigi kann eg þá um slíkt, þeirra stand er nógu ríkt; efni og burðir, eitt er hjá þeim öðru líkt.

16. En að margur auminginn og, með leyfi, klerkurinn tíðkar líka svoddan svall, sem við lafir fátækt kall, hræra mætti hverjum manni hjarta' og gall.

17. Eptir næring okkar spakt eigum tæra, heyr' eg sagt; eptir vexti vorum hjer vera hljóta stakkarner; eptir flýgur fjaðra megni fuglinn hver.

Fabarius.

18. Kennir sneiða, kæri vin, kann eg á það bera skin, sekan játa mig því má, margri baun eg eyddi, já, tekst þjer aldrei trúnni mig þó telja frá.

19. Sína lofar hýru hver, hjer í sama verður mjer; en að ganga í þín spor, aldrei til þess hefi' eg þor, mjög að lasta mætan hlut á meðal vor.

20. Glöggir statsmenn geta dæmt, hvað gjöri kaffi landi slæmt, en hve vítt það meiði mann meta hvorgi okkar kann, látum eptir læknurunum listinn þann.

21. Balancerum, bróðir minn! byrjum svona reikninginn: ónauðsynlegt þinga þras þess á milli vínsins glas, iðjuleysi, óþrifnaður, argafas.

22. Agaleysi, óhlýðni, undirhyggja, rangsleitni, forslagatma fádæmið fylgir hverju skaðræðið, klettar lands ef kynnu af að komast við.

23. Þar á móti kaffi kært, kemur inn í reikning fært, allt sem þar til útheimtest áðan hvað þig gramdi mest; sönnunina sjerðu neðst á summunum bezt.

24. Davus reikning sendi sinn synd yfir og góðverkin, þó hann ætti af góðu grynnst, glæpi sína virti minnst; aðferð sama enn má ske hjá ýmsum finnst.

25. Munda' eg spyrja, maður, nú, mjer ef svara vildir þú, hefurðu kaffi, kæri minn! kokkað smakkað nokkurt sinn, að þú fáir fyri mjer sannað framburðinn.

Tumás.

26 Jeg að drekka kaffi, kvað kýmni með, ei nefndu það, þá um æfi ykkar dregg aldrei mjer til góms eg legg, það hefi' eg svarið sárt og dýrt við sál og skegg.

Fabarius.

27. Þú um kaffi kljent með vit kennir það sem blindur lit, heyrnarlaus um hörpu slátt, hafðu ráð mín tala fátt; því að dæmin þú með rjettu þessi átt.

28. Sjálfs er reynslan sagna bezt, sannfæringin krapta mest; umvendan, ef auðnast þjer, utan hennar varla sker; á nema takir, Tumás, þú ei trúir mjer.

29. Virtu mig þess, vinur kær! vertu hjer að kvöldi, nær kaffi-tíminn kemur minn, kýs eg þig í selskapinn; ekki rofnar af því minnsta eiður þinn

Tumás.

30. Gjört skal það, hann Tumás tjer, trúað hefi' eg lengi þjer, sjálfráður ef sitja má, svo ei kaffi bergi' eg á; höfum að því handsöl föst, og hana þá!

Fabarius.

31. Tólfta partinn á eg enn af því pundi, viti menn, sem hann Dani sendi mjer, sikurlaus að mestu er, fari það nú, því fyrir sjer vorið forsjón ber.

32. Aptur kemur annað nýtt, ef eg lifi sum-

ar blítt, tak því sæti, Tumás minn, töjið fyrr en berum inn, upp til mín í öndvegið sjer ýtir hinn,

33. Drekki bragnar dýrstu vín, dyggðum hrósa verð eg þín, en þjer, kaffi, að eg sit, aldrei skerðir þú mitt vit, enginn heldur af þjer hlýt eg heilsuslit.

34. Komi' eg hrakinn heim að bæ, hressing enga betri fæ; sje eg lasinn syfjaður, sárkláinn og bilaður, þú ert, kaffi, þá minn vökvi þægastur.

35. Sinnis eg með þarfan þrótt þegar vaka hlýt um nótt, bókanáms við mæta mennt mikið ertu þar til hent, innföll, mælsku, orðgnótt fjekkstu opt mjer sent.

36. Sjónin skerpist minni með, mýkist rómur, lifnar; geð hyperbolisk mundir mál, margir kalla og ýkju tál, læsi menn, þú lýðnum gæfir líf og sál.

37. Hvað skal eg sem heimskinginn hryggur telja kostnaðinn, erviða er einskis mjer, unna plágan makleg er, gjöra má það granni minn, þó gangi ver.

38. Góðum líkjast gott er æ, greina rök eg

til þess fæ, hvort mun Júno hrein og skær helg Júppíters ektamær brúka offurs bænir til, sem beztar fær.

39. Þetta spakir þegja um, það mun hulið dauðlegum, kann ske guðnum kaffilög kokki og drekki margheilög, til hafi búið töjin fyrst og tólin hög.

40. Situr Tumás sagnafár, sje eg honum stökkva tár; kampar rísa kinnum frá, krúnu hrukkur dragast á, holdið skelfur, hræðsla og ekki hjartað slá.

41. Heyri' eg stunur hans um kverk, hryggðin veldur innra sterk, farfinn upp í fölvan snýst fram stiginn mjer nærri lízt, en um síðir út með þessi orðin brýzt.

Tumás.

42. Á mitt hjarta hraustir þeir hetju makar stríða tveir, eiður svarinn, annar daun, af sem leggur þinni baun, staddur er eg stakkels mann í stærstu raun.

43. Á það bættust orðin þín, ei minn hugur stenzt þá pín; yfirkominn er eg því, upp á þínar náðir flý, öllum strax til ykkar trúar eg mjer sný.

Fabarius.

44. Hjálpaðu með heilla dáð, hafðu, segi' eg, þá mín ráð, ekki nægir ylmanin utan fylgi smekkurinn; tak þjer kaffitár í lífið, Tumás minn!

45. Burðalítill bollann að báðum höndum eptir það, vörum hefur, hamar þó hari Noregs til sem bjó, óttasleginn yfir myndar æðri kló.

Tumás.

46. Æ, þar braut eg eið og trú, anzar hann, því veldur þú; byggð út lasta ber þann hljóm, bannsúnginn eg verð í Róm; það er vel, ef þú komst frí af þeirra dóm!

Fabarius.

47. Áflát páfans eiðnum frá erviða og kosta' upp á þörf er engin þjer, eg kann þrefalt betur slíkt enn hann; kirkum ei þó hneppi' hann oss í hæðsta bann.

48. Engan bindur eiður sá, ef að rjett er litið á, sem af hræðslu' og heimsku sker, hyggnir þetta kenndu mjer; birtu nú mjer, bróðir, hvort að batnar þjer.

Tumás.

49. Öll er vikin freisting frá, friður bezti kominn á, farsann hefi' eg fengið minn, fulla krapta

líkaminn, angurs til eg innra heldur ekkert finn.

50. Sjálfan eg við Satúrnum sver að lofa guðunum kaffi-trú að halda hreint, henni fylgja ljóst og leynt; heyri þjer sjálfur hvort það er af hræsni greint.

51. Svo skal eg til þægðar þeim, þegar eg er kominn heim öll mín börn og heima hjú hafa láta sömu trú, eins Maddaman má þar til, þó mögli sú.

52. Í þriðja máta á þennan dag það skal vera síffellt plag, kaffi drekki öll mín ætt, umvendunar minnið sætt, vel til enda veraldar þess verði gætt.

53. Fjóra mína fingur þjer farsælasti Júppíter, upp rjetti, þar eiðinn vinn, ef eg rýf hann nokkurt sinn, hvorki bið eg, haldist á mjer hár nje skinn.

54. Staddur var eg heldur hætt, hefðir þú ei fyrirbætt; aldrei gleyma ætti því elsku þinni veröld í, fáðu þakkir fyrir mig, Sra Fabari.

55. Kunni' eg eignast kaffiráð, kaupmannsins af stóru náð, svo eg fái glatt með grun gjört mjer nokkurn dagamun, þjer skal bjóða, það skal jafnan þín umbun.

Faðarius.

56. Á mjer gamall, aðgæt þú, orðskviðurinn sannast nú, lýðir þökk og lofstýr há' lítils vegna stundum fá; seinast öllu segja skal eg satt þjer frá.

57. Ekki tók eg upp hjá mjer umvendan að bjóða þjer, Íslands herra amtmaður að var þessu höfundur, eðalborinn arfi Stephâns Ólafur.

58. Siðaskipti bauð mjer brátt boða þjer á sagðan hátt; þó að reki þig í stans þetta voru ráðin hans, hann gát ei vitað glötun þína gamals manns.

59. Líka vildi herrann hýr heyra þetta æfintýr liðugum í ljóðum skráð lesendur svo fengi gáð, kaffi hverja kokkað hefði krapt' og dað.

Tumás.

60. Þess var ætíð þaðan von, þekkir hann Tumás Nóason gæðsku fyrir gjörninginn gráhærðan við landa sinn; fylgi honum, frú og börnum farsældin.

# Roðhatts bragur.

Blása norðan byljirnir,
ber jeg því hyggju móða;
því jeg var ræntur roðhattinum góða.

1. Undarlegast böl með baga ber opt við í heiminum; ætla' eg stundum eitt til draga opt með sorgar keyminum; hugurinn er á hálum snaga, hrapar þegar minnst varir, blása norðan byljirnir, bágt vill ganga lukku' að laga, laumast burtu' án hljóða, þeir hafa rænt mig roðhattinum góða.

2. Einn er jeg sem af þeim segi ógæfunnar fundunum, finnst mjer sem þeir bak mitt beygi, og brjáli yndis stundunum, kviðdreginn á knjánum þregi' í kofanum, til þar ekkert ber, bl. n. b., en fárga það mjer fyrnist eigi, og fágæfunnar móða, þ. h. r. m. r. h. g.

3. Frá honum er það fyrst að segja, að faðir minn sæli átti hann, sagði' eg skyldi svo burt deyja, að sízt jeg fengi' í burtu þann, í langfeðga ætt nam teygja eignarrjettinn kominn að sjer, bl. n. b., og þurfti hvorki matur nje

meyja, mjer við honum bjóða, þ. h. r. m. r.h. g.

4. Þá var jeg við ungdóms aldur, er mjer barst það gersemi, að vitund manna' hans tími' er taldur tíu hundruð missiri, í kvisi var hann Klakkharaldur, keypti hann við Hetlands sker, bl. n. b., þá var eigi kollurinn kaldur, kongsins Norðra þjóða, þ. h. r. m. r.h. g.

5. Askurinn var í art og snoði, undarlega til búinn: úr Skotlenzku sköturoði, skyggndur allur kollurinn; það var engin húsgangshroði, húðin skín sem kristals gler, bl. n. b.; engum þókti gull á goði, þá gekk jeg með hann til þjóðs, þ. h. r. m. r.h. g.

6. Öll voru máluð ofan börðin ýmislegum myndunum, í hann sáust engin skörðin, ádráttur með sniðunum, kostuleg var kollsumgjörðin, kemur aldrei þvílíkt hjer, bl. n. b., sást þar loptið, sjór og jörðin, með safni alls kyns þjóða, þ. h. r. m. r.h. g.

7. Hnapps í stað, á hægri vanga, hörgabrúður Tobba sat, af því varð þeim allt vel ganga, sem áttu þetta höfuðfat, atgjörfið með auðnu langa, eins það vildi reynast mjer, bl.

n. b., honum títt á hlustardranga, í hríðum gjörði bjóða, þ. h. r. m. r.h. g.

8. Ekki' er gaman út að skýra, atvik þau þá missti' eg hann, óhamingjan að mjer stýra, æðstu höfuðskepnu vann; mögnuð vinda makt, óríra, mitt um lamdi heyrnarsker, bl. n. b. sleit þá af mjer dnjásnið dýra, dreif að sorgarmóða, nú var eg rændur r h. g.

9. Upp eg höndum offra náði, ætlaði strax að ná til hans, það fór ei með rjettu ráði, reis mjer af því mæðudans, hann var þá kominn langt frá láði í lopt upp yfir höfuð mjer, bl. n. b., fjell jeg því í feikna gráði, flatur — og það var skjóða — þ. e. v. r. r.h. g.

10. Upp stóð eg með angri' og lúa, æpandi af sárri neyð, harmurinn rjeð til hjarta snúa, en hatturinn fauk sína leið, nýgenginn úr kórnum kúa, með knefunum njeri brúna gler, bl, n. b., klíndist þá af kámi hnúa, kletturinn sjónarglóða, þ. e. v. r. r.h. g.

11. Sá jeg loks hann sveif til jarðar, seinn var eg ei á fæti þá, misjafnt voru hríðir harðar, hafði' eg fulla trú þar á, að einhvers staðar ofan jarðar, á honum fengi' eg klófestir, bl.

n. h., og skeytti lítt þó skaflagarðar skíran hefðu slóða, þ. e, v. r. r.h. g.

12. Hljóp jeg þá sem skolli' í skinni, skapinu þókti ganga í vil, en það fór ei að ætlun minni, önnur rauk þá hríðin til; hatturinn fauk í sama sinni, svo sem fugl í lopt upp fer, bl. n. b., til bróklinda tals úr inni, tungan lafði' hin móða, þ. e. v. r. r.h. g.

13. Á honum sjón jeg alla missti, ógæfunnar teikn það var, farið kolls í fönn eg kyssti í fjörbrotunum æskunnar; hirti' eg ei um hvar eg gisti, hans jeg leita tók fyrir, bl. n. b., ferðabænir fram jeg hristi, og fór svo vegaslóða, þ. e. v. r. r.h. g.

14. Á nesinu fyrst jeg lagði Langa, lýsti' eg eptir honum þar, ei að heldur greitt nam ganga, að geta spurt upp hvar hann var, en seggir höfðu sjeð þar spranga, svartan flóka upp yfir, bl. n. bl., gekk eg út til yztu tanga, yndis firrtur gróða, þ. e. v. r. r.h. g.

15. Hljóp jeg út á hafís jaka, hvass stóð vindur landi frá, til Hollands gjörði honum aka, hitti' eg menn og spurði þá, en þeir gjörðu undir taka; ekki neitt til fróðleiks mjer, bl. n.

b., skenktu þeir mjer skútu laka, svo Skozkra komst til þjóða; eg sagðist r. r.h. g.

16. Þaðan fór jeg að Þýzkalandi, þar var ei til frjetta par, en sagt var mjer að svartur andi, sveimað hefði' um loptið þar, alla vega út lítandi, eins og kringlótt hettuder, bl. .n b., í Rússland þá eg rjeri af standi, og ræður átti' án hnjóða, að eg v. r. r.h. g.

17. Eg komst þar í tal við Kalvínista, kom einn fram og mælti það: að hvergi myndi' eg hattinn missta heimsins finna' í nokkrum stað, þóktist jeg með með þankann tvista, þekkja' hann drægi spott að mjer, bl. n. b.. byrjaði' eg þaðan för með fyrsta, frá þeim solli þjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

18. Ekki gafst eg upp við þetta, áfram hjelt og kom til Róm, Páfanum innti' eg allt af ljetta, með auðmýkt við hans herradóm, meðaumkunar brún rjeð bretta, bænir gjörði' hann yfir mjer, bl. n. b., aflátsbrjefi upp nam fletta, og það ljet mjer bjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

19. Hjelt jeg þá að Blálands byggðum, byrjaði ekki áfram greitt, fyrir varð eg fúlum styggðum, en frjetti um hattinn ekki neitt,

djúpt var þar á dáð og tryggðum drepa vildu berserskir, bl. n. b., fyllast náði hjartað hryggðum, huganum tók ofbjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

20. Komst eg á tal við kerling eina, kynnti' hún mjer hið sanna frá: að sjezt þar hefði — svo nam greina — með sólargangi lopti á, hatts í líki' — höldar meina — himinteikn það fásjeð er, bl. n. e., hafði síðan hlaup með beina, horfið úr augsýn þjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

21. Brátt jeg gjörði burtu stroka, og beið ei við í þessum stað, hann Útgarða hitti Loka, hýr varð ekki karl við það, bauð eg honum að borða úr poka, bringukoll og lýsissmjer, bl. n. b., úr honum rættist ógeðs roka, inn svo nam mjer bjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

22. Tókum við þá að tala saman, tjáði' eg honum allt í frá, karli þókti greylegt gaman, góða hattinn aptur fá, hann kvað sjer þanka kynna taman, að kominn væri í vítis hver, bl. n. b., og sagði' eg mundi fá í framan, ef færi til vítis glóða, þ. e. v. r. r.h. g.

23. En jeg sagðist ei uppgefa, ásetninginn fyrir sljett, á ferðum hafði engan efa, áfram þaðan stefndi rjett, aldrei ljet jeg sinnið sefa,

sveimaði' um hóla, dali' og sker, bl. n. b., þó fengi' eg stundum fúlt að þefa, fætur hvíldi' ei móða, þ. e. v. r. r.h. g.

24. Ofan til vítis leið jeg lagði, liðugt gekk mjer ferðin þá, áfram hjelt í einu bragði, unz jeg staðar portin sá, Þorkell — karlinn — þunni sagði, þær spánýjar frjettir hjer, bl. n. b., að hefði' í gær hinn gamli Agði, gjört þar hattkúf bjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

26. Inn fyrir portin ei eg sparði, ört að ganga, þar jeg fann, æ! minn hattinn, undir garði, allan saman beyglaðan, farið var skraut af fögru barði, en for og aska hreifði sjer, bl. n. b, rifinn var í hann rauf með skarði, og rykktur eins og skjóða, og raun var að líta roðhattinn minn góða·

26. Mjer sveif í geð af svoddan skikki, síðbrýnn varð jeg ásýndar, því Agði hafði öll sín stykki í hann lagt til háðungar, þessa mátti' eg þola hnykki, því ei hefna treysti mjer, bl. n. b., hvað var mjer við heljar gikki, hnefana fram að bjóða, þ. e. v. r. r.h. g.

27. Gat jeg ekki gjört að sinni, glögg því hafði mála rök, fjandann gamla fann þar inni,

og fyrir hann lagði alla sök, en hann sagði brátt eg brynni, ef byrja vildi' eg svoddan hjer, bl. n. b., hnoðaði' eg í hann háðunginni, heldur varð málóða, þ. e. v. r. r.h. g.

28. Gat jeg ei brúkað geðið spaka, gaf jeg skolla kjaptinn á með hnefanum, en háðung staka, af högginu hann þóktist fá, skröfuðu þeir: mig skyldi taka, skemmtun væri' að vinna' á mjer. bl. n. b.; a......... tók sig af saka, og sjer kvað það ofbjóða, ef reiddist eg af r.h. g.

29. Eldibröndum að mjer skutu, ei að síður piltar hans, neistarnir um háls mjer hrutu, af höfðinu brenndu lokkafans, aðrir nefið á mjer brutu, út svo skauzt með þjóin ber, bl. n. b., kaldar hjá mjer kveðjur hlutu, komst jeg svo til þjóða, með ræfilinn af r.h. g.

30. Hefi' eg hann enn á höfði mínu, þó hlálega sje hann út leikinn, rjett mun hann í ró og pínu, rífka upp allan búninginn; hvar sem róla' eg lífs á línu, læt jeg hann ei af höfði mjer, blása norðan biljirnir: svegir hrings og seymalínu, svo skal hjer frambjóða, raunasögu' af roðhattinum góða.

---

# Hatt-kvæði.

1. Til skemmtunar eg skýri frá, skötnum þeim sem hlýða, höfuðklæði eitt eg á, ei finnst svoddan víða.

2. Hattur er það með hagleiks art, herlega' umvandaður, bæði' er í honum skjól og skart, eg skrökva það ekki maður.

3. Hver hann setur höfuð á, ef hjer um rjett skal bera, í mannatölu meiri sá, mun þá haldinn vera.

4. Ýtum gjöri' eg á því skil, engan svo það villi, í Rómaborg var búinn til, með beztu hagleiks snilli.

5. Meistarar þrír jeg mæla vann, með manndóms orku freka, í þrjú ár voru að þæfa hann, því mun hann ekki leka.

6. Þeir hafa efiaust, þess er von, þegið ómakstollinn; borðinn kom frá Babýlon, er bundinn var um kollinn.

8. Svoddan þing ei þjenti par, þeim er voru' á snáfi; æfi sína alla bar, Andríanus páfi.

8. Fógetinn vill fá sjer hatt, mig fyrnar ei

á því skvaldri, þenk og víst að það er satt, þenna fær hann aldrei.

9. Amtmaðurinn, eg vil tjá, ærna maktin styður, hattinum mínum hann vill ná, hvað mjer líkar miður.

10. Herra Gísli Hólum frá, höldum bannar hrekki, hattinum mínum hann vill ná, hvað mjer líkar ekki.

11. Nú er líka Níels Ker, í næsta harðri göngu, samt mun hann ekki setja mjer, svoddan þing með röngu.

12. Sýslumennirnir, sagt er mjer, silfrið í hann bjóði, presta grúinn allur er, og í sama hljóði.

13. Lögrjettumenn ljóst jeg finn, látast þeir mig þjera, hreppstjórar fyrir hattinn minn, hafa nóg að bera.

14. Sel jeg hann ekki — segi' eg enn — sjálfs míns eigin losta, þó skulu heyra hyggnir menn, hvað hann á að kosta.

15. Hann skal kosta hafskip bezt, heilfragtað með dölum, Skriðuklaustur, skreiðarlest og skák af tönn úr hvölum.

16. Þó vil jeg fá þokkabót, þetta rjett með

sönnu: sexræðing og selanót, og sjö fjórðunga pönnu.

17. Samt er hánn ekki seldur dýrt, segi það hver sem biður; hjá honum þetta reynist rýrt, ef reiknað allt er niður.

---

18. Einhver kann ske meini mjer, þó mál sje nú að þagna, ljóðin þau sem lykta hjer, lukkan styðji bragna.

---

# Gortara-ljóð.

---

Lagið: Út á djúp hann Oddur dró.

1. Í húsi einu heyrði jeg, hjalið tveggja á förnum veg; yngismaður og mey var það, sem mál sitt hjeldu í þessum stað, hyggnir mega hugsa' um hvað þau höfðust að.

2. Spök voru þau að spyrjast á, spottlegt, mundi' að greina frá, hún í fyrstu hóf svo tal: „hefurðu nokkurt aura val, sem hentugt mundi hjúskaps til, þá hófa skal“.

3. „Af flestu hef jeg, frú mín, nóg, fjenu varla kem í lóg, átta kýr og uxa þrjá, ung-

neytin með prýði smá, geldfjár mergð og geitpeninginn greina' ei má".

4. „Fjórtán hesta' og fimmtán hross, folöldin eru nóg hjá oss; dýrhunds kyn og kisur tvær, kampa síðar báðar þær; tíkin Alba keyrir saman kýr og ær".

5. „Vinnufólkið frómt og gott, forðast bæði háð og spott, haturskíf og ótrú enn, allt eru þetta dánumenn: karlmenn fjórir, konur sex og kerlingin".

6. „Búrið geymir býsna margt, bæði ker og annað þarft, aska, diska og öskjurnar, ámur, trog og skjólurnar, kollur smá'r og kæsis hylki kúra þar".

7. „Matur hreinn er eins og urð, fyrir öllu þessu er lás og hurð, þjófar, mölur, mús og ryð, mega þar ekki koma við, allar skepnur eru hjá mjer með elsku' og frið".

8. „Sængurklæðin sex á eg, sjerlega væn og prýðileg, ekki fást hjer önnur slík, svo ógurlega silkirík, jeg hafði þau út hjá Hans beikir í Húsavík".

9. „Bæði á jeg hött og hatt, húfu væna, það er satt, púðruð, krulluð parukkin, presta-

skrúða albúin; eldhúsið mun eitthvað geyma: auðþöll svinn“.

10. „Eldsgögn falleg eru þar, alfær smiðja' og járnkarlar, hangið kjöt við rót upp rís, sem rakkar hvorki ná nje mýs, margur hefur af minna hlotið makt og prís“.

11. „Amboð mín eru ekki fá, upp og niður til og frá, smíðatólin óhóf eitt, til allra hluta er svoddan veitt; hljóðfæri og herlúðrar sem hefi' eg þeytt“.

12. „Biflían með bókamakt, á borðið er í stofunni lagt, öll hún glói'r með ægis ból, eins og skíni' í heiði sól; hvorki er þetta skrum nje skraf, eða skaðlegt hól“.

13. „Búningnum á borði þar, bera lítt af stjörnurnar, gulli settur allur er og eðalsteinum virðist mjer, húskunum mun ei hentugt þar að hroka sjer“.

14. „Fyrir landi flýtur skip, sem flestir kalla nýtan grip, því sjálfur jeg stýri' á saltan mar, með segli' og veiðarfærum þar, drekkhlaðið á hverju kveldi heim brunar“.

15. „Herlegt lánið hefi' eg með allt, svo hvergi er á fótum valt; vinnufólkið, húsin, hjú,

eða hvað sem þarf að starfa nú, hjer er sagður hagur minn, en hvað átt þú"?

16. „Hvorki er ,eg snögg nje snauð, svo sníkja þurfi' eg mjer út brauð, meðan heilar hefi' eg hendurnar, og hugvit mitt ei bilar par, forstandið og fyrirsjónin fylgjast að".

17. „Alls kyns saumur til tekin, og teygja niður vefnaðinn, er svo töm að enginn mann, auga þar á festa kann, hönd er lipur, lifleg, fljót sú listum ann".

18. „Allt það sem fyrir augun brá, eður heyrði sagt í frá kann eg, líkt og mata mig, í minnstu vil jeg gabba þig, handiðn mín í hverjum stað er heiðarlig".

19. „Annars meðal ótalmargt, sem öllum heimi' er næsta þarft, saumað hef' eg sessuver, sæmilegt til handa þjer, enginn maður eins til búið annað sjer".

20. „Alls kyns saumum sett er það, sem eg hefi komist að, ekki lýg eg það að þjer, þetta góða sessuver, heitir meira, heillin góð'! enn heimskan ber".

21. „Veraldarkringlan víð þó sje, víst er þar í miðjunni; heimsins áttir út í frá, alla

vega telja má, arkar dýrin öll saman þar eru hjá“.

22. „Sólin, tungl og himna her, hægra megin birtast þjer, prestasvelt og prófastar, og postulanna gjörningar, heilagir englar hrúgast saman hjer og þar“.

23. „Víti sjálft á vinstri hlið — vel máttu þar kannast við — þar er allur fjandafans, að fljugast á í einum krans, hver það sæi' reka mundi' í rogastans“.

24. „Orð og gjörðir eru hjer, allra manna' og þankarnir, óknyttir við eina eik: æran þar með skrítinn leik; en dyggðir kúra dauflátar í dimmum reyk“.

25. „Allt það sem er upp á jörð og í sjónum hefur ferð, það er allt í þessum stað, þar máttu nú gæta að, og hundrað sinnum, sussu! meir, já, satt er það“.

26. „Hálfsmánaðar verk mitt var, að vinna slíkt með kænskupar, í hjáverkum, því húsfreyjan, hörð var svo sem ólukkan; engin hefur á sjer frið við áninn þann“.

27. „Senn mun koma' úr horni hljóð, þó hartnær kosti líf og blóð, þrjóti ræðan því um

sinn, það er sjálfur húsbóndinn; komdu samt á kvöldin aptur, kæri minn"!

28. „Hún andvarpaði' og upp þá stóð, undir tára vakti fljóð, heitur koss og handabað, með hjarta' og munni fylgdust að, svo tungu minni tregfært er að tala' um það.

29. Þau skildust að svo skjótt um sinn, skauzt jeg fyrir hússtafninn, hvort þá sókti á sína leið — satt var það — en hvergi beið, hestinum þrisvar hringsneri og hleypti á skeið.

30. Af samfundinum svo til bar, sætan átti kjúkling þar, en sem tími til kom rjett, tjáð inngengu hjónastjett, hvernig þá fór, hef' eg mest á hlaupum frjett.

31. Ærnar fjórar átti hann, enga kú nje vinnumann, haltan kapal hryggbrotinn, hest tannlausan, rammfælinn, makkaslitinn, mjaðmskakkan og margdrepinn.

32. Búshlutina enga á, allt verður til láns að fá, hvorki klæðnað hey nje mat, fyrir hornum ekki lifað gat, argur, latur ýmist lá eða uppi sat.

33. Hún tók ekki honum fram, þau hrepptu bæði spott og skamm; konan var með hý og hopp,

hún hafði' ei vit að steypa' úr kopp, miklu síður sinn eða hans að seðja kropp.

34. Aldrei voru saman sátt, þau svínrifust á hverri nátt, hann var djöfull, hún var ár, haguriun beggja þannig stár, varla' er að þar verða mundi von til fjár.

35. Þau börðust saman árið eitt, ekki bar til frjetta neitt, hröktust síðan húsang á, hvort ferðaðist öðru frá, hún sökk niður hafið í, því helzt var smá.

---

36. Hjer af læri hver og einn, horskar frúr og dándissveinn, að gorta' ei meir en gott hóf er; gæti hver að sjálfum sjer, að hendi þá ei hæðnin sú sem hjer er skeð.

37. Eg sendi' af hendi fúið far, fleyja grey á víðan mar, hlæ eg æ ef hrósun sú hrekst og skekst um sýldar bú, hún hrökk og stökk í haf á kaf, og hana nú!

---

# Ljóðabrjef.

Ort af

sjera **Þórarni Jónssyni**

á Myrká.

---

1. Sendir randa Benjamín, bróðir kær, sæll

vertu! stilli vanda en stöðvi pín, stjörnulanda gylfi þín.

2. Seinni stefja seðillinn, síst vel hagvandaður, gleði vefjist þankinn þinn, þig upphefji farsældin.

3. Mig um ljóða beiddir blað, bæsings eggja hari; hafna lóðins horna vað, hefur ei Óðinn skenkt mjer það.

4. Til þess knýr mig tjáð óþver tryggð þín slíkt að reyna, málma týr jeg þakka þjer, þínar hýru velgjörðer.

5. Mjög við skirrist mærðar bland, má nú loksins bjóða; var ókyrrast veðrastand, vorið fyrra norðanlands.

6. Harðan muldu hestar þó, hökul jarðar bláan, fjöldi' af kulda fjárins dó, foldin huldist hvítum snjó.

7. Grund og fjöllin gróðursett, grimmdar harkan þjáði, Ránar sköllin risu þjett, rumdu tröllin skýja þjett.

8. Björgin flúði, foldin lá, falin svella lögum, vesöld knúði vergang á virða' og brúði norður frá.

9. Rammt að greipti raunaspil, rekkar siglu-

fákum, sefaði leiptur saltan hyl, sínum hleyptu bráða til.

10. Hlaðnar skeiður hjer og þar, hjeldu í landa bugi; firðum greiða fínan bar, fuglaveiðin Drangeyjar.

11. Álkur, lundinn, langvíjan lífi týndu sínu, öld um stundir afla þann, engin mundi þvílíkan.

12. Þegar bylti þessu við, þunga storma fárið, sólin gyllti sumarið sætt, en stilltist hretviðrið.

13. Kalt þó hríðar kyrrði þey, kom á hita veður, þeysti fríða þundar mey, því óx víða grasið ei.

14. Grasi ringu gróin lóð, græn þó víða sæist; hjer í kring varð hýrri þjóð, hey-nýtingin yfrið góð.

15. Keyrður fór með kaupmannsvörð, kom frá Danmörk síðla, burða stór, um birtingsjörð, borðajór á Skagafjörð.

16. Gyllti skjöldur skýjafax, skafla ljóns um græði, þusti öldin þangað strax, þegar að kvöldi bjarnar dags.

17. Færðist nösum tóbakspund tært og hveiti-

brauðið, býtti úr vösum bætti lund; brennt á glösum skálasund.

18. Tók út þjóð og burtu bar, bændur, mjölið, grjónin, klæðin góðu konurnar, klútana rjóðu stúlkurnar.

19. Snotran stoða snilli vann, snemma um vetrar tíma, hafs á boða hýddu þann, hestinn voða klifjaðan.

20. Brauzt svo fram um breiðan sjó, bráður dreki storma, súða gamminn sundur sló, sínum hrammi, þar hann fló.

21. Vindaförin voru góð, værð og fiskiganga, ýttist knörinn út á flóð, aflakjörin gladdi þjóð.

22. Hvæsti opt með hviðufar, hrein í fjallatindum, geystum hvopti gein á mar, gusu'um loptið eldingar.

23. Sterkir órar stormagrönd, storðum bylti viður, bændur stórum biðu grönd, með borðajóra' á Reykjaströnd.

24. Voru' úr æði veð'rin há vikuna fyrir jólin, titraði svæði til og frá títt sem þræði ljeki á.

25. Hyggnir glósa' að halli spekt, hefjist

undur víða, eldar-gjósa yfrið frekt, æði sjós er geigvænlegt.

26. Birtir þjóð að brynni enn, bær einn á Tjörnesi, húss í glóðum heitum enn, helveg tróðu fjórir menn.

27. Andláts nauðum sætti sá, sem þar búráð hafði, konan rauðum eldi á, óljett, dauð og brunnin lá.

28. Líftjón hála liðu því, líka tveir menn aðrir, logandi báli lentu í, líkama' sálin kvaddi því.

29. Eldsbrunanna efnin vönd, einnig spyrjast víða, kæti manna kefja gröhd, kot eitt brann á Látraströnd.

30. Sólar damma siklingar, sex af Tjörnesingum, drógu fram á djúpan mar, dælugamm til Flateyjar.

31. Rekkum velgir róðurinn, risu bylgjur stórar, hátt sig belgja hafviðrin, hjetu' að svelgja byrðinginn.

32. Rjeði' á stundu rostungsfrón, rísa fjöllum hærra, sprakk á sundi lægis ljón, lofðar fundu æfitjón.

33. Röðull fagur reis úr mar, rásaði' á

dvergabjálmi, vors um daga værðir bar, vermdi maga Fjörgínar.

34. Hlákugustinn hlýjan gaf, hlýrnir glæsilegur; vindar lustu ísum af, elfur brustu fram í haf.

35. Jöklar sprungu þá við það, þrútnuðu vatnastrumar, beljuðu þungir bökkum að, björg og klúngur færðu' úr stað,

36. Mærin óma mjög blíðkuð, mundi síðan vera, sólarljóma sílífguð, sínum ljóma dátiðruð.

37. Ríkuð mesta rósakrans, reir og grösum fögrum, greina flestir gylfar brands grasár mesta norðanlands.

38. Heyjum spakir hlóðu' á lóð í hlöður, garða' og stakka, liljum þakið lóðins fljóð, hjá nam raka hróðug þjoð.

39. Veikleiks safni veturinn vafði Eyfirðinga; kom á hrafni öldu inn, eiturs jafni franzósinn.

40. Kostum gæddu kaupmannsþing, konurnar eignast vildu; franzós æddi fjörð um kring, fólkið klæddi svívirðing.

41. Auðs með fylli öldudýr inn á höfn rjeð

spranga, markaðs stillir mundi nýr, meðtók illa naut og kýr.

42. Þegar hauður höfðu við hestinn festan voða, vöru bauð að sölu sið, samt var brauð-ið möljetið.

43. Fólki skiptist forlög há, fögrum yndis kjörum; nokkrir sviptast þungri þrá; þeir eru' að giptast norður frá.

44. Þeim sem mestar þægðir ól Þorgrími frá Hálsi, ljek við bezta lukkuhjól, lipra festi hringasól.

45. Mætum unni meiðir brands Margrjet Stefánsdóttir; sjera Gunnar fjes með fans, fjekk Þórunnar systir hans.

46. Marga lyst og menntir bar Magnús Árnasonur, hirðir- kysti -hjálma snar Hyldi systir Margrjetar.

47. Enn er að heyra hjer og þar, helzt úr Norðurlandi, lunda greira lystugar langtum fleiri giptingar.

48. Auðnu slingur einn þá hlær, annar grætur sáran, þriðji hringafold sjer fær, fjórða stinga dauðans klær.

49. Leikur hjólið lukkunnar, lýðum þannig

meður, hýrnar sólar hátt um far hæru bólin veraldar.

50. Gamall dó með fje á fold, Finn Jón Eggertssonum, sætt með ró hans sálað hold sefur þó í vígðri mold.

51. Heljar dróma hörðum fól hýrá Ingigerði, skreyttan blóma arfa ól ægis ljóma fögur sól.

52. Þjáði stríðið bjarta á brún, barnsæng við nam halda, linna skíða — lipur — rún, litlu síðar deyði hún.

53. Hún var yndi birðisins, helgan söng er þrátt, sá í vindi sorgar dins, sólu linda gullroðins.

54. Öldu-ljóma alblíkuð art og lystum há-um, dýrum sóma dáfiðruð, djásni blóma kórónuð.

55. Dyggðum auðug dregla slóð, dýrum kost-um búin, fagnar dauða frí við móð, fyrir rauða — lambsins — blóð.

56. Heis úr sætum hafin er, hjeðan burt af foldu — manndáð stórum minnka fer — Mád-dama Jórunn Steinsdóttir.

57. Get jeg enn nú göfugrar, gæfu-frítt af-sprengi, sútir kvenna sólunnar, silfur spenn-in fargyltar.

58. Vinna gröndl um víðan sjá vindar siglu-fákum, dreif að söndum drífnin blá; dugga er strönduð norður frá.

59. Hafið æsti hark og gní hjeldu af landi þjóðir, stukku hæsta strengir því stormur hvæsti siglum í.

60. Mjög að þrengdi síst um sinn, sorgar spentum dróma, bylgjum slengdi á björgin inn, borða sprengdu gulltoppinn.

61. Alla deyddi aldan blá innan borðs sem voru, skelli greiddi skerjum á, sköldum freyddi land upp á.

62. Ægis vandi ofstopinn, ýtum slengdi dauðum, hátt beljandi hefring stinn, hýddi að landi skipsflökin.

63. Mitt hið ljóta frosta far fáðu engum manni, mildíng kljóta mennta snar, mínar þrjóta frjettirnar.

64. Fjöllin, hæðar, skógar, sker, skúrir, vötn og sandar, loptið, svæði, himna her, hafið, glæður, vindarner.

65. Elfur, steinar og sjerhvað, er til styrks má valda, málmareynir þjóni það þinni hreinu farsæld að.

66. Þernar alda, þundur pels, þig fel að endingu, mætur baldur málma jels, milding talda fagrahvels.

---

# Ljóðabrjef,

ort af

sjera **Páli** skáldi **Jónssyni**,

til sýslumanns V. Þórarinssonar.

---

1. Kongs af hátign kjörinn sýslumaður, hátt aktaði, hálærði, heitt elskaði, nafnfrægi.

2. Auðmjúkast, jeg aldrei gleymdi' að þakka, út af hjartans innstu byggð, yðar stóru — við mig — dyggð.

3. Svo hafið viljað sanna lukku mína, sem girnist föðurs gæzku þel, að gangi barni sínu vel.

4. Yðar manndyggð á mjer sýnduð staka, er af nærtengdum ei fjekk lið og allir snjeru baki við.

5. Þó óverðugur alls sje góðs að njóta, veit þó sá sem veit hvað sker, hvað vel og illa framið er.

6. Þengill nauð sem þrengdum bauð af ljetta,

góður er vant að gleyma tamt, sem gjörir hjarta miskunsamt.

7. Hann jeg bið af hjartans innstu rótum, yður launum býta bezt, bezt þá þörfin krefur mest.

8. Fátt er nú í frjetta nafni' að skrifa; nýrri — fjelag úr sjer ók, einni til vor — Sálmabók.

9. Nóga sálma nýja inniheldur, brasaða saman af bráðvitrum, bruna feiknar skáldunum.

10. Flestir gömlu — flottan — sálmar tóku, hingað og þangað hinir vítt, hafa skúmast upp á nýtt.

11. Ófrjófsama yfir skilningsmóa, vísdóms rennu fljóta frá fagrar kvíslir enn, ójá!

12. Að afla' oss nautum upplýsingar töðu, lætur ekki leiðast sjer Leirárgarða Júppíter.

13. Meðal annars má jeg segja yður: það var ekki för til fjes, ferðin mín á Læknisnes.

14. Þegar skildum það bar næst til frjetta, að sendur litli Siggi vár, að sækja mig og koma þar.

15. Þegar fengið þessi boð jeg hafði, strauk jeg plástra fram í fjós, fljótur eins og þrumuljós.

16. Eptir margar úti staðnar þrautir, aðsta landsins eg varð þó, innplataður Physicó.

17. Varla þar jeg verið lengi hafði, þá hyrtist Nesi, borinn að, brjefaseðill frá Garðastað.

18. Stiptprófasturinn stílaði það til svona: „hvað þú getur gefið um, að gjöra' úr Páli Medícum".

19. „Undirtillu' í upplýsingarbúri", aðra nefni' eg ekki hjer, sem ei þó bættu fyrir mjer.

20. Fárra nöfn, sem fyrir mjer bæta gjörðu, hafi stað í himninum, heiðsl gæðist æ verðum.

21. Hinna gjarnan heiti kjósa mundi, í satans spari- sótlituð - sokkafitjum út prjónuð.

22. Á Nesi dvaldi' eg níu heilar vikur, frá tíma þeim sem eg var um, innrettur á Physicum.

23. Af ástríkinni ýstru safna náði, en staður sóma allstaðar, frá iljunum til kollhæðar.

24. Kusa viður kom eg opt að máli, um læknis mennta frægð og fans, í fræðibóka Samling hans.

25. Lifandi hann lagði mjer fyrir sjónir, helzt og bezt hvað hentast sje í hinu' og þessu tilfelle.

26. Margt hann sagði' í mörgu nýtt að vera,

en ýmsan krapt í ýmsu því, einir skynja Physici.

27. Skipaði' hann jeg skyldi farðans gæta, því skrínil sóttar skefur sinn, skjólu, taðstalls höfðinginn.

28. Bakverk, riðu' og bólgu andlits kefur, hann er lækning helzta þar, hunds ei duga steilurnar.

29. Sleppi' eg þessu slaðri hjerna niður, og öðrum mínum lúni frá afreksverkum Kusa hjá.

30. Vildi hann til Venofectiona brúka mig með tíma' og tíð, tíminn kom þá loks um síð.

31. Fjögra löng og fullra, nærri, tveggja álna digur auðs var slóð, sem átti jeg að taka blóð.

32. Grýta' af járni gripin var í einu, fyld af vatni' og hengd á hó, hýru vinds af barma þró.

33. Nála skorðin naktar á sjer fætur, verma ljet í vatni því, að vice-ráðum - physici.

34. Slagtmeistarinn slapa kenndur þangað, á beinum veikum brölta rjeð, böndin, kníf og trogið með.

35. Þrútinn harmi þrílagðist eg niður, á skildings græna skikkjubil sem skapaður var jeg langur til.

36. Það man jeg, að þá bað jeg af hjarta, að ljúka' upp sínum líknar skáp læknadrott-inn Æskuláp.

37. Óverðugan á mig náðugt líta, og há-vesælan ausa í andagiptu Physicí.

38. Bíldinn síðan báðum tók jeg höndum, mikla rispu mynda vann, en mundi' ei til að spenna hann.

39. Ef vegað hefði vörum upp að ljúka, segja mátti: seyma hrár sannaslögur klaufi ert þú.

40. Í öðru sinni upp jeg bíldinn spennti, hleypti' á æð og setti' í gegn, sú var heldur flónskan megn.

41. Hissa Kusi, hissa niptin prjóna, hissa þeir, sem horfðu á, hissa varð jeg líka þá.

42. Í sinni bræði sagði klæða hyldur: tómt ei næði hjálpa hjal, hjartans flæði stór Kanal.

43. Að hætti drussa hún var að fussa' og sveyja, en hann var að knussa: „hertu þig", og heljar skussa nefndi mig.

44. Lítt þó tákni lagði djákni Kusa, unda hákni' að andargná, eitthvert táknið skeður þá.

45. Hold frá stökkur, harður í ökla jörða

bíldurinn hrökkur afli af, og inn þar sökkur rjett á kaf.

46. Æða blóð, úr unnarglóða hyldi, brúsaði, flóði, bunaði, heljaði, stóð og dunaði.

47. Þó jeg kynni' að þessu sinni hjerna, vil jeg ei inna víðar frá, veru minni Kusa hjá.

48. Líkt sem hljómar lýða rómur hinna, lund þarf skjóma mann á mót og minni sóma í þokkabót.

49. Með njóti hringa nöðrubinga Finni, snauður hingað snauta rjeð, í Snæfellinga umdæmi með.

50. Í drottins nafni dró úr hafnar nimmi, herra jafni' að hitta gram, á hestinn drafnar þeysa nam.

51. Umbauð frú að annast bú í vetur; og um hjúa hyggjuflet, hennar Souveranitet.

52. Aldrei náir eikin bráins valla, andan smá, er opt sinnum ýtar fá í kaupstöðum.

53. Auðs því fitin af konum hitan kennir, en þá vitið vantar sprund, verður skitin hennar lund.

54. Annan jóla' að Ingjaldshóli' eg kenndi lýð í stóli þá eg þar af þarfa tóli mælskunnar.

55. Tjáðu þeir sem til þess eyra ljeðu: „aldrei heyra eg nam slíkt“, annað fleira þessu líkt.

56. Hvell var ræða hvítu klæða skarti, bestu gæða búist þið, sem berið hæðsta móðins snið.

57. Skipaði' eg djörfum skollabörfum hrekkja, síður þörfum gjöra gis, að galdralörfum ranglætis.

58. Af stríðri hrelling streymdi' úthelling tára, hvikaði' úr stelling hvarmagler á hverri kerling nærri mjer.

59. Einir giptast, aðrir sviptast maka, þriðja tiptar nauðin ný, nökkrir lyptast virðing í.

60. Lýðir fegir lífi segja vil e, aðrir fleygja huldu hams, hallir eygja sólargrams.

61. Ólafur Gísla arfi' úr sýslu Dals, sem þungar píslir þess á mis, þoldi' af hrísla mótlætis.

62. Laus frá ótta, líka sótt og mæðu, lifir rótt og líka vel hjá Loku, dóttir fröken Hel.

63. Ekkert friðast, ekkert grið má kaupa, allt slær niður óðum hramm, er sjer riðar helja fram.

64. Vondra melja vinnur skeljar hausa,

og sárt að kveljast sendir heim, satan heljar
eptir þeim.

65. Í Kristí nafni, Krist þeim jafnan stunda,
ending safna sútakífs, til sæluhafnar eilífs lífs.

66. Bágt til sjóar bjargar- þróast -leysi;
fáheyrð snjóa feikn ei þver, fold og móa
tilbyrger.

67. Fellur magnað fje úr gagni búa, og
hestar bragna í heljar garð; hundar fagna lík-
söngs arð.

68. Baulur víða bjargar líða missu, í her
fram skriða skínandi, skörp er tíð og pínandi.

69. Úr megni drjúgur merginn kúga sveita,
sumra múgur umferðar, út að sjúga bændurnar.

70. Frá sínu ganga, sumir hanga' í skafli,
hungrið stranga, handa sjer herðir þang og
matreiðer.

71. Í feikn óskapa fyrir menn taka völdu,
berir snapa' í bót á fisk, frá Búðum, Stapa'
og Ólafsvík.

72. Fæðslu brauð ei fæst með rauða gulli,
mesti dauðans dauði er, og djöfuls nauð á
ferðum hjer.

73. Herra Finnur húsvertinn ei kemur,

Úlfdýs finnur enga ró, af angurs linna geðs í kró.

74. Margir spjalla' að mótins valla njótum, vilji hallast veigabil, sem við hana fjalli neðan til.

75. Sá æ blífur, sálu hlífi' og bolnum, Finns hjá vífi verð eg þey, eg vinn það lífið fyrir ei.

76. Að þessu sinni þegi finn eg meira, áður en linni óðarspil, yður jeg kynni gamans-til.

77. Ef lofðung hæða' ei lætur æðar stansa, optar kvæða- yður -blað, að skal þræða vestan að.

78. Ektafljóði yðar, góðu, kveðju, litars bjóði þangað far, beztu móðir velgjörðar.

79. Auðnan dansi' í yðar kransi barna, hvers kyns stansi sorg og slis, sunna glansi meðlætis.

80. Vísir hæða vegsemd klæði' og safni, alls kyns gæðum, eptir bón, á ykkur bæði höfðings hjón.

81. Þannig sendir seðil á enda kljáða, ykkur kenndi Yggs á kvon, úr eigin hendi Páll Jónsson.

82. Einast kýs þá æru' og líkn eð mega, yðar manndyggð miklandi, minnsti nefnast þjenari.

---

# Skautaljóð[1].

1. Kátir margir kýma' að því, komin er hjer sú breytnin ný, dentinn láta drósir frí, dangl-ast þessum sveitum í.

---

[1]) Umboðsmaður Á. Sæmundsen kveðst hafa í ungdæmi sínu heyrt, að Guðmundur Bergþórsson hafi ekki upphaflega kveðið Skautaljóð eins og 17. vess í seinna svari Guðmundar til Þórðar á Strjúgi sýnir, heldur hafi staðið á tilveru þeirra þannig: að í veizlu nokkurri hafi 2 drengir farið að kveða bögur um nýbreytni, er þá nýlega eigi að hafa verið orðin á skautaföldum kvenna, og að þeir hafi beðið Guðmund — er einnig hafi verið í veizlunni — að laga ljóð þeirra. Af þessu hafi flotið, að Skautaljóð hafi orðið þjóðkunn. Hafi því vissir meiriháttarmenn, dætra sinna vegna, þókt ljóð þessi vera þeim og höfuðbúnaði þeirra til hneysu. Umboðsmaður Sæmundsen segir ennframar, að sjera Jón nokkur á Hjaltabakka hafi fyrstur kveðið á móti Skautaljóðum, og, eins og allir, látið þau bitna á Guðmundi, en þessi svarað. Þarnæst hafi einhver Brynjólfur kveðið, og Guðmundur svarað honum. Ennframar hafi Þórður nokkur á Strjúgi tekið upp þykkju fyrir skautafaldana, og kveðið brag til Guðmundar undir ferskeittu rímnalagi, en Guðmundur aptur svarað honum undir sama hætti, en Þórður kveðið á ný undir hættinum: „hjöluðu tveir í húsi forðum“ með málsháttum,

2. Til skemmtunar jeg skýri merkt, skrítið ráðkorn lærdóms vert, yngisstúlkum opinbert, ef þær vilja skauta stert.

3. Hjarta, stúlka! hlýð þú mjer, heilnæmt ráð jeg kenni þjer, um dent eður stert, sem dávænn er, og dæilega á höfði fer.

4. Kauptu trafið hvítt og hreint, hirtu ei um þó það sje steint, svo sterturinn geti staðið beint, sem stíkill fram þá til er reynt.

5. Innra brotið andargátt, aldrei skaltu vefja hátt, hertu vel á handarmátt, hinu þegar þú gegna átt.

6. Hugsaðu' um að hvirfillinn, að hálfu leyti ber sje þinn, byrgður í innra brotið inn, svo begist áfram sterturinn.

---

og Guðmundur svarað því í sama tóni. Loksins hafi Steinn byskup Jónsson sent út af þessu efni, brag til Guðmundar, undir lagi, er Sæmundsen nefnir Úrkast, og Guðmundur svarað honum undir sama hætti. Enda hafði hann ætíð svarað mótstöðumönnum sínum undir þeim hinum sama bragarhætti, er þeir ávörpuðu hann í. Sæmundsen þykist hafa heyrt þess getið, að enn fleiri en hjer eru taldir, hafi kveðið út af Skautaljóðum, en kveðst hvorki hafa heyrt nöfn mannanna nje kveðlinga þeirra."

7. Aptur á hnakkann eins og stall, á að vera reykjar fjall, það er næsta kýminn kall, sem klúkir framan á einn samall.

8. Hengir þú þar höttinn á, heiðarlega hann skartar þá, eins og hangi' á uglu sá, ofan á nefið beygjast má.

9. Hrútshorn vantar innan í, artuglega snýst á því, með hnippi mjófu, um heilabý, hvítur eins og þokuský.

10. Betra væri' þjer bauganorn, að brúka í faldinn skinnfats korn, og reka þar ofan' í rúmgott horn, því rækalls lin eru' tröfin forn.

11. Áður fyrri fald bar frú, fálleg þókti breytni sú, enn þær vilja — er mín trú — einhyrningi líkjast nú.

12. Víst hefur köttur vitrast snót, sem vanist hefur á svoddan hót; þeirri hefur með þokkabót, þókt hennar rófan ekki ljót.

13. Í Fróðárundrum finna má, fyrirmyndan þar upp á, þegar sig rjetti rófan grá, rastar búa hlaðanum frá.

14. Opt hefi' eg sjeð hann Ásaþór, uppmálaðan þá tuskast fór, hefur hans úr heilakór, hreift sjer stirtan mjó og stór.

15. Skulu hjer enda Skautaljóð, skáldin bið jeg mennta fróð, Vesturlands um víða slóð, við þau bæta' og gleðja þjóð.

Sjera Jón á Hjaltabakka kvað:

1. Skutust hingað Skautaljóð, skýrt jeg lesa náði, virðist mjer það Viðrisflјóð, vafið þungu háði.

2. Sömuleiðis sá jeg bert, sá var rómur manna, földum kvenna gabbið gert, gulls það segir nanna.

3. Firðum þykir mest til meins, að meyjurnar dyggða fjáðar, skuli þannig allar eins, á þeim görmum smáðar.

4. Því undan tekna' eg enga sje, í því skautaslefi, heldur lygar, háð og spje í hverju og einu stefi.

5. Til þó breyti tvinnahrund tjeðum skautaföldum eptir sinni eigin lund, enga smán það höldum.

6. Höfuðskáldin hjá oss fyr, hjer um eigi kváðu, og aldrei meður Ýmubyr, eikur falda smáðu.

7. Sína gáfu svo hefur smáð, sem honum

Kristur ljenti, og með henni aukið háð, a.........
svo þjenti.

8. Sá er konurnar biður brauðs og betlar í hverjum ranni; ljúfa hæðir lilju anda, líst það fjarri sanni.

9. Þar með lygar leiðir inn, í hjóðin kend við falda, munninn með því saurgar sinn, saklaus má því gjalda.

10. Eptirdæmi' í annan stað, öðrum daufslegt gefur, og sjer gryfju ofan á það, ærið djúpa grefur.

11. Dugnaður er ef dettur hann ei í dyngju þessa niður, því að þetta grálegt grey, geðjast flestum miður.

12. Lygunum jeg lýsa má, löka máls í færi: hún Fróðár-rófa fjandinn sá, fyrirmyndan væri.

13. Langtum fyrri liljan bar, lagleg ofiters tjalda, fald á höfði' enn Fróðá var af firðum nefnd hin kalda.

14. Hvað var Fróðár-rófan römm, rekka enginn þekkti, annað en djöfull vanur vömm, sem virða' í þá tíð blekkti.

15. Halarinn! seg mjer, bratt í stað, af hverj-

um talar þú anda, þekkirðu' skautin — eg spyr að — alllík vítis fjanda?

16. Geysi illa gambrið fer, greyið ljótt vjer þekkjum, þrælslegt fleypur þetta er, þar með vafið hrekkjum.

17. Heyrðu fáir hatur slíkt haft við dánd-ispíku; fyr er ljótt en fjanda líkt; fussa má við slíku.

18. Eptirtekta er það vert, í þeim skauta-hljóðum, að þú gjörir að staga á stert, með stirðum skáldaljóðum.

19. Segjast má þitt sinnið þvert, segirðu' af spökum anda, á höfði beri háfann stert hrundir Fofners landa.

20. Er sem fyrir þræl eður þrjót, en þig formenntan eigi, að fleypra þessi fyrnin ljót, fjarstæð lukku vegi.

21. Brúkaðu digrann stert fyrir staf, þá standa þarftu' á fætur; hvergi var hann hafður traf af hrundum dag nje nætur.

22. Haltu ekki hæðnisvert, þó hrokann mættir lægja, og verður kenndur viður stert, en vífin taki að hlæja.

23. Var það satt þú sagðir frá, sástu hann

þórir sterka, uppmálaðan ýtum hjá, sem ellin þurfti lerka?

24. Hver hefur myndað málverk það, menn eður tröllir álfar, fjandarnir úr sítúms stað; eða fingur þínar sjálfar?

25. Var ekki' á honum mynd eins manns? margur kynni frjetta, sástu' strítu' úr höfði hans? Hermdu oss af ljetta.

26. Þó verið hafi að vexti stór, víst sem jötun bæri, hver vill trúa' að þessi Þór, þann veg skaptur væri?

27. Ærið nóg um Ásaþór, er, sem leiztu hvergi, þetta er kauða stirjöld stór, og stríð með kvæða ergi.

28. Meina' eg þú sjert orðin ær, og með skertu sinni, sem þig ófti sjötigi flær á svörtu gæruskinni.

29. Illa færðu auðgrund kennt í orðstiltæki hörðu, þú segir hana digranþ dent draga eptir jörðu.

30. Manstu nokkuð, tjörgutýr til hennar móður þinnar, var hennar dentur vafinn nýr, að vollum heyrnarinnar?

31. Meinarðu minnur nöðrupalls, í nokkru

afskapaðar? vaskaðu portin viskufjalls, og vittu hvað þau skaðar.

32. Sá er haldinn digur um dent, sem dreissugur er í svari, og sjer vill að brátt sje þjent, þó sem illa fari.

33. Denturinn þaðan dregst jeg skil, dúka fræði' eg eyju, en höfuðfalda hvergi til hýrrar nær það meyju.

34. Heldur var það hrun til þess, sem hrósar sjer fyrir ekki, og dentugur heimtar digrann sess, drótt þó víða blekki.

35. Sumir skilja dent fyrir daus, og daglég mál það halda, þessum líst það lygaraus, að líkja honum við falda.

36. Mörgum væri þar með þjent, ef þetta sannað gæti, að hefði' á sínu höfði dent, heiðurs svannin mæti.

37. Get jeg til með greina kólf gamanlaust í ranni, þó farir þú í fornu gólf, fjölmælin ei sannir.

38. Þótti þinn og mælskumennt, mengi stýrir valla, yður samt mun auðgrund dent, upp frá þessu kalla.

39. Móti sýnist mennta sið, meyjanna föld-

um líkja, hæðnislega hundstrín við, hata' eg ræðu slíka.

40. Hrútshorn líka' á höfði fljóðs, hæfir ekki' að segja, aflar þetta mörgum móðs, mun ei tjá að þegja.

41. Andsvars þetta er ei vert, enginn maður því sinni, áparýið opinbert, einhver trú' eg finni.

42. Líst mjer þú sjert lítils nýtur, lofstýr þinn mun dvína, vertu enginn skáldaskítur, skemmdu ei gáfu þína.

43. Lukkuhjólið lízt mjer valt, lýði kann það villa, talaðu þar fyrir ekki allt, og þig lærðu' að stilla.

44. Með þjer hefur þú vondan vott, sem venur þig á pretti, og lýðum illa launar gott, laga' á móti rjetti.

45. Muntu þiggja mestann hnjóð, mærðar-róms í porti, fyrir þau skitin Sáutaljóð, sem skrattinn með þjer orti.

46. Herjans fyrir það stilltu storm, stöðugur máls til hlera, skenktu brúðum skautaform, skraddari muntu vera.

47. Örðug mærðin endi' um storð, særið gjöri

þrátta, skást er að festi skindil orð, skal ei mál að hátta?

48. Hljóttu lundin báru báls, bezta frægðar gengi, njóttu hrundin elda áls æru nægðar lengi.

Guðmundur Bergþórsson svaraði sjera Jóni á Hjaltabakka:

1. Fjölnis hingað ferjan ljót, flutt var ein til þjóða, heita vill með háð og blót, hnekkir Skautaljóða.

2. Sá jeg slíka sóns um haf sigla nokkra fleiri, þó ber þessi öllum af, orðhæð hverri meiri.

3. Eigna sumir einum klerk, austra bátinn svarta, þó leit margur þrælaverk, þrámælt betur skarta.

4. Nær þessar dragast þjóðsafn í, þykkju kátir stilla, furðar engan frekt á því, þó fönt-um mælist illa.

5. Gaman er opt að gikkjum hent, sem gjarn-an fleypur spjalla, en þegar gjörast gæddir mennt. glópur! stansar alla.

6. Svara kanntu svo jeg spyr, Suðra smið-

ur nökkva, hefurðu verið vígður fyr, og villst í skólann dökkva?

7. Ólíkindi eru stór, af orðalagi þungu, að satan hafi klerk í kór klipið svo djarft í tungu.

8. Blót hefur þjer kölski kennt sem Kalkas gamla forðum, en rökin til að ræða um dent, rjeðstu af húsgangs orðum.

9. Hafir þú opt til hróðrarmáls hreyft þeim Kvásisdreyra, þeir mega sakna sancti Páls, er Sermon þenna heyra.

10. Býður hann víst að þagga þjer, þá sem móti mæla, guðslærdómi hreinum hjer, en hafa' ei fleypur þræla.

11. Ef vjelaði fólkið villu svín, vondum sent af anda, ekki skyldi æran þín, aptarlega standa.

12. Þekkja skal af máli mann, því munnurinn dæmir flesta, trauðlega' eg því trúa kann, tign þú berir presta.

13. Sjerlega komstu seint í vist satans yrkju að þjóna, heiðnir illa hafa þar misst hofmann, blót að tóna.

14. Lygar eigna læztu mjer, í ljótri ræðu

þinni; en nú berast ei hjá þjer, ósannindi minni.

15. Keskilegar klausur nú, þó krókfalds letrið bæri, eikum gulls að eigna þú, sem afskapaðar væri.

16. Grant hefur næsta geðs um slóðgætnin staðið heima, þá skautist fyrir þig Skautaljóð, skynsemd náðir gleyma.

17. Láttu hvergi last nje blót, liljum drupnis sveita, þó skrafað væri um skautin ljót, þá skorður auðs til breyta.

18. Þá mátt vita' að þóknast mjer, þá berst aptur lýgin, í allan máta opinber, að efni þessu hnígin.

19. Drottinn mjer svo deildi verð af dýrri gæzku sinni, að hefi' eg aldrei húsgangsferð hrakist á æfi minni.

20. Betlara engin síð mig sá, — sóma — brúka — gerðar, leggðu niður lýgi þá, sem lítil sæmd að verður.

21. Heldur rangt að hermir þú, af hjali mínu gjörðu, að digran sprundin dragi nú dentinn eptir jörðu.

22. Sjálfs þíns mætti samviskan, svíða geðs

um æðar, að þú skyldir ókenndan upp á ljúga og hæða.

23. Veit jeg það þinn viljinn er, varla sómir minna, að tegund nokkra tjái' eg þjer, til spurninga þinna.

24. Hvaðan kemur sú nýung nær, nú sem brúkar lýður? er áður höfðu' ei menn nje mær, og mál guðs ekki býður.

25. Hispurs volsið sagt er synd, sem að eigi hlífðir, hyrði eg ekki í hyrjar vind, hót þó dentinn prýðir.

26. Kýmilega kvenna lýð, kenning þín má nægja, að þar skuli gefa nafn með níð nokkru með að hlæja.

27. Með sterti muntu ei styðja þig, staflaus kör mín veldur, en þegar beygir ellin þig, á hann þá við heldur.

28. Um höfuðbúning á hausi Þórs, heilt vil jeg þjer leggja, með spottglósunum spekur kórs, spurðu' hann Irjar-skeggja.

29. Þótt þrámálgur um þetta sjert, þyki mjer engin furða, mikils lízt þjer víst um vert, að vita' hans eðli og burða.

30. Viljirðu skoða vöxtinn hans, og vipurs

húfu ljóta, í valhallar -kanntu krans, kosta þeirra njóta.

31. Af blótgoðunum þar byggður er, bekkur meir en hálfur, ekki vísa' eg þangað þjer, þú nema viljir sjálfur.

32. Gátur þínar grunar mig, glaðir sumir spjalla, fara þarf eg fyrir þig, í fornu gólfin valla.

33. Áður en þjer var orðsprok kent, ellegar máttir blóta, kátir menn hafa kallað dent, krókfalds tetrið ljóta.

34. Spurning leyst er þar með þín, þetta ljóst jeg segi, faldinn brúkaði móður mín, en mjóa krókinn eigi.

35. Mörgum þykir mikilsvert, meistára dóms til teikna, hvað furðanlega fix þú ert flærnar saman að reikna.

36. Kalsið þitt þó kosti svör, kveðlings átti' eg vegna, nokkrum opt um nökkva knör, nábúunum gegna.

37. Hvert vjer stýrðum rjett eður rangt, Rögners súða fleytum, seilist þú til lokunnar langt, líka úr öðrum sveitum.

38. Þó þú haldir minnkun mjer mikla' að

Skautaljóðum, forsvar þitt ei færir þjer fremri prís hjá þjóðum.

39. Ef vissi jeg þú vandalaus, værir sjálfum Kristi, svar skyldi hafa sókt þitt raus sem þig spyrja lysti.

40. Máttu því með málin sling, menguð syrpuvessi, aðra gjöra mjer áminning, ekki dugar þessi.

41. Hógværlega hefðir þú með hreina kenning fríða, við vondum glæp mig varað nú, vildi' eg gjarnan hlíða.

42. Guði' upp hjeðan góðu að, í geði' og ljóðum sönnum, heiðri meðan hrjáðu það, háð og níð hjá mönnum.

43. Spengur hringa spari þjer, spottið líst að eggja; hollara öllu heyrist mjer, háðið niður leggja.

44. Upp þó styri' eg Óðs í naust, austra skipi flötu, forsvar Brynjólfs trúi' eg traust, taki þjer skammt á götu.

45. Virðing mun það víst eg skil, vísna sendir fróðum, gæti hann klerka gabbað til, að gegna Skautaljóðum.

46. Láti hver sem þóknast þeim þundar

kvarnar minni; mín svo snekkja Hleiðólfs heim, hverfur þessu sinni.

Brynjólfur kvað móti Skautaljóðum:

1. Skrifuð fyrir mig skráin fauk, Skautaljóð að nafni, lýsti jeg að mjer kóðins hauk, löguðu mærðarsafni.

2. Þá lesið hafði' eg ljóðin út, mjer leizt það glettin kveðja, beðin var eg í bragarlíns hnút, brúðir fremur að gleðja.

3. Einnig var þess óskað mjög, í óma veiði' að gera, við þau að bæta þundarlög, það mun hljóta' að vera.

4. Nú er að gæta í bifurs björg, um bríkur dýru linna, hjer á hlut að heldur mörg heiðurs verðug kvinna.

5. Því undan tekin engin stóð í því skrifi' eg merkti, um vestfirðinga fjórðung fljóð, fann jeg kvæðið snerti.

6. Hvergi má jeg, hygg þú að, hjer til leggja fremur, óvirðingar orð í stað, sem ekki við mig kemur.

7. Til vareygðar jeg veik ötrogt, vel þó sann-

leik kenna, hvað mjer þókti heldur frekt hnit við skautin kvenna.

8. Aldrei svanur örn fær hremmt, inn í þúfna pælum, heldur meira' og hjer með skemmt, happa snauðum þrælum.

9. Orð í móti engin sling, þar engan segi' eg á vafa, að þær muni umbreyting, efst á földum hafa.

10. Þó ein eður önnur ódyggð kring, alist af sumra völdum, er henni engin óvirðing, að þeim skautaföldum.

11. Skautafaldur skartsamlegur, skín á brík-um þráða, hvert hann mælist mjór eður dig-ur, mega þær sjálfar ráða.

12. Sancti Páll oss segir það, um sóma kvennmannanna, þar virðuglega hann víkur að, veldi á höfði svanna.

13. Enn mjer þykir illa ræmt, og það vitr-ir segði, ef eg nokkuð óheilnæmt, upp á fyr-ir þær legði.

14. Þenkir nú á þann orðskvið, þundur vak-ur við erja: þar er ei blóm að berjast við, sem brúðir landið verja.

15. Vafin værf' eg villitum sið, hjá vareygð-

inni að renna, ef hjeldi' og líkan hundstrín við heiðurs faldinn kvenna.

16. Rakki bæði barinn og skelkdur, býr af meinsemd hraða, honum er gófið að góla heldur en gellta sjer til skaða.

17. Ef jeg gjörði í Skautaakrá, skapnað kattar bera, úr mannviti' öllu mundi eg þá, af mönnum haldinn vera.

18. Upp á skautin eg legg þá, aldrei koma færi, Fróðár-rófan, fjandinn sá, fyrirmyndan væri.

19. Þá með öllu af eg sór, eydd skal þessi gletta, að a.......... hann Ásaþór, eigi skilt við þetta.

20. Mikil væri manni rírð, sú mundi' ályktan seggja, eitt ef næði orð það dýrð, inn í hæðni leggja.

21. Hver það lastar lofs er vert, lýtum um sig vefur, að dæma faldinn dent eður stert, d..... kennt þjer hefur.

22. Af því grundir unnar fýrs, eiga leiki stansi, þeir sem bergja á tunnu Týrs, taki nú við dansi.

23. Hrafn og svanur, sitt hvor sungu, sval-

an lagði' í minni, hjer með set jeg tönn fyr-tungu, og tala' ei fleira' að sinni.

Svar Guðmundar hjer upp á:

1. Fyrir mig barst ein skrítin skrá, skáldum eignuð fróðum, meistari hefur myndað þá, móti Skautaljóðum.

2. Þar nú fyrst í týlnu tveir, sem talandi látast heita; undarlega ætla þeir, eptir hrósun leita.

3. Vildi forðum virtur sess, vorkun þykja skyldi, þó öldungarnir hærri hers, við háborð sitja vildi.

4. Boðorð hafa þeim breytileg, borist úr undirheimi, er færa allt á verra veg, þó vitið í hausnum geymi.

5. Heita má það heimskuspil, þá höfuðskálda jafni, drekkur nokkrum dristugt til í d...... örgu nafni.

6. Skal hann hafa skilning veitt, skáldum elli móðum, að eg hafi háði breitt, heiðurs kvinnum góðum.

7. Ef skilur hann gjörvöll Skautaljóð, skást

mun senn að játa, hafa þar engin heiðursfljóð hlut í illan máta.

8. Nafnkenda þá nistisbil, nema frá eg skilji, þar er engin tekin til tals, nema þiggja vilji.

9. En mjer sýnist ekki par í þá meining fara, að leita sjer svo lofdýrðar, og látast þær forsvara.

10. Eins eru dæmin allra verst, yfirsjón margan svíkur, að eigna kvinnum orðin flest, yngis- mælt við -píkur.

11. Sjálfstalaðan um siðugar frúr sóma og prís má heyra, hvefsin tolur hinar úr, hvað varðar um meira.

12. Undrar mig hvað afgamall, öfunds sliðru vindur, efnis leysir Úlfur kall, er svo skilningsblindur.

13. Hafi hann öllum hyggju grun, hleypt í Fjölnis könnu, getur hann lítinn greinarmun gjört á lognu og sönnu.

14. Læst hann hafa lýst hjer að, með löðins hauk í skugga, en mjer virðist umsvif það, öfunds mirkur brugga.

15. Frómar þurfa, ei forsvar hans, fræn-

ingsoikur — vallar, hristi hann því í hróðrar fans hofrófurnar allar.

16. Greinast má það gömlum brjál, þó gyllings ýti blandi, að eigna d..... móður mál, manna hjer á landi.

17. Metnaður eykur mörgum dramb, svo maður yrði að lýtum, að örnin gæti aldrei lamb, átt með fugli hvítum.

18. Það mun honum þegi þarft, fyrir þóknun ræðu sinnar, þó menn hafi diktað djarft, um dýrð veraldinnar.

19. Forsvarandi fæ jeg á grun, falda mæta kvenndi, hafa sjálfur hlaupið mun, hann þó enginn sendi.

20. Fyrst að skilnings förlast kraptur, fjörgamall við stynur, lízt þjer ekki' að lesa upp aptur, ljóðin Skauta, vinur!

21. Skal hann voga' að halda háð heims þá dýrð á svanna, sem Mathæus hefur rjett með ráð ritað um prjálið manna.

22. Skáldin mega þakka þjer, það um vestur sveitir, svo kostuglega þú kvenn kennir, kvæðum hjer sem breytir.

23. Segðu mjer fleira um svan og hrafn, en

svölunni máttu' að kýma, gamni því til glettu jafn, eg gegndi í annan tíma.

24. Nenni eg ekki nú um sinn, að nöldra við þig lengur, veslings forni vinurinn! vittu hvernig gengur.

Þórður á Strjúgi kvað:

1. Varla er sveinum vizkan kring, viðris drykk að spara, ef Skautaljóð um Þórnesþing þurfa á húsgang fara.

2. Varla, þó að virðist þrek, væri langt um betur, að þau fengju apturrek, arnar stjels í setur.

3. Sjást mun aldrei soddan frak, samið í ljóða greinum, nje buldrað nokkurt bannsett hrak, burt af skáldum meinum.

4. Guðhrædd skyldu gjarnan fljóð, glensi frá og skjali, en kvinnum sendir öllum óð, eptir skauta vali.

5. Skauta-engan skilnað-ljóð, skorðum gulls hjer veita, hverra reynist hegðan góð, og hinna' er illa breyta.

6. Skáldið tjer þær skauti stert, skýrt í

mærðar fossi, áður hafa' hann ýtar merkt, aptarlega á hrossi.

7. Mörg ber fögur höfuð hár, hrein í dyggðum ríkir, klámlegur sá kallast dár, við kapalstert þeim líkir.

8. Þó jeg hefði' af þiljum gulls, þegið gis og hrekki, neyð og plágur nær til fulls, nú er það þó ekki.

9. Allar skyldugt ætti þar, um þær satt jeg ræddi, að hennar nyti' er herrann bar, og hinnar sem mig fæddi.

10. Óvirðing fyrir allra sið, er þeim greina nenna, hreinum líkja hundstrýn við heiðurs földum kvenna.

11. Skautaljóða faðir fann fúsleg eptirdæmi, tók hann þau við taðgats rann, þó tróðum auðs ei sæmi.

12. Rekkurinn nefnir rófu og stert, rjett jeg þetta sýni; hundar undir henni bert, hafa stundum trýni.

13. Af æðri' og lægri ektamenn augunum hjer til renna, Skautaljóða skensyrðin skoði sinna kvenna.

14. Þó mig dragi þar til naumt, þessi samt

að hyggi, fleira reynist optar aumt en á sjálfum liggi.

15. Vintrjes blóm er kvinnum kær, karlmanns dyggð þó rotni, hennar sóma hver sem fær, hlýtur hann af drottni.

16. Hver sem veitir heiðurs rán hýrum seyma tróðum, gjörið mun honum greyleg smán, ef gabbar þær í ljóðum.

17. Hreinar meyjar hrósa sjer, höfði þegar þjóna; kurteys fald þá kæran ber, koppur og laufaprjóna.

18. Skyldi einn með Skautaljóð, skemmta' í brúðkaups ranni, vera myndi af vífi' og þjóð vitlaus haldinn glanni.

19. Hver sem lýir línu rák, lyndi gulls að kæta, mega kongi skenkja skák, skylt er við að bæta.

20. Hárs til drukkið hornaflóð, hringagrundu saman, og skrifuð fyrir Skautaljóð; skrattinn eigi það gaman.

### Guðmundur Bergþórsson svaraði Þórði aptur.

1. Hjer hafa farið um húsgang vers, sem

þáu málin bjóða, gildmannlega gjörð til þess, gjensvar Skautaljóða.

2. Gortari einn með lóins lát læzt þau þagga vilja, úr són hefur aldrei sopið út, svo menn kunni skilja.

3. Áður en hann með orðasneið, aptur rekið getur; þó sig kenni: þuss ós reið, hann þyrfti að læra betur.

4. Skáldu hafa sá mun sjeð, svo er máli breytir; kenning nýja kemur hann með, kveðlings frak sá heitir.

5. Fyrir þær leggja forsugur læzt, freyjur móins leira, er í þeim ljóðum eiga fæst, en ymprar spottið meira.

6. Eg skyldi þær ekki hafa hætt, sem heiðurs falda bera, hefði' hann oss á frakinu frætt; fallegt mun það vera.

7. Um dentinn þann sem digtað er, dæma lítt að finna, enginn veit jeg eignar sjer ærleg heiðurskvinna.

8. þó hefur dárinn digtað slíkt, dapur í skilnings færi, að heiðurs kvenna hárið ríkt, við hrossstertana væri.

9. Hefði' eg gjört að hæða' og smá, hárið

sæmdar fljóða, fantur væri' eg fremur þá, frakskáldinu góða.

10. Merkislítið misskilning, myndað hefur hans næmi, þegar hann gat við garna hring, gjört þau eptirdæmi.

11. Veit jeg nokkuð vel sem hann, vilji ei hamingjan banna, greinarmun að gjöra þann, góðra' og illra manna.

12. Þó boginn skautin hafi' eg hætt, húsgangs þingið greyja, var þar um ekkert vífið rætt, vafið í last má segja.

13. Hefði' eg sigit á Suðraborg, og sjeð þar breytni nýja, fjölnis mundi fjaðra korg, frakið í mig sýja.

14. Þetta' er lítil þeim sem kvað þökk, að geði mínu, verður hann að virða það, viti eptir sínu.

15. Eggja má hann ektamenn, en við mig að stugga, þetta má ske þakkast senn, þegar jeg geng úr skugga.

### Þórður á Strjúgi kvað aptur móti Guðmundi Berþórssyni.

Lag: Hjöluðu tveir í húsi forðum.

1. Skautaljóð í hraknings bruni, heyrast tek-

ur margan gruni, hvimleið verða húsgang á; ljótt upphaf sem loga funi, líkast þykir fölskva muni, og illan hljóta enda fá.

2. Enn hefur digtað mærðar málið, merki dentar sterta tálið, hingað barst af hatri því; sá hefir víst út sopið kálið, sýnir það hans orðabrjálið, sem Óðinn blandaði Ásum frí.

3. Refsbelg heyri' eg ráða slóðin, reka aptur Skautaljóðin, ekki muni heiglum hent, svegir hann að mjer svoddan hnjóðinn, sanna jeg og einfölld þjóðin: „því er fífl að fátt er kennt“.

4. Stanzar mig að húsgangs horinn, hefur til þess penna sporin, frak að jaga fræðin mín þar, hann er svo fyrirhyggju þorinn, hávizku og skilning borinn, að lá mjer heimsku lýtin sín.

5. Mitt þó að jeg móður hræri málið það sem heyrt' og læri, full íslenzkað fyrir mig; orðsnápur þó einhver væri, ann jeg honum í góðu færi, að dára með því sjálfan sig.

6. Heyri' eg þyki heiður fljóðum, höfundi að Skautaljóðum, dett og stert þar dró að rök; svoddan forsvar sýnist þjóðum, sannast hjer með orðshátt fróðum: „blindur er hver í sjálfs síns sök“.

7. Merkisskáld þó mig áreiti, man jeg ei annað stertur heiti en hann, sem vel fær hrossum þjent; skilst mjer fald þó skorðgulls breyti, og skýli hári' að nokkru leyti, „því er fífl að fátt er kennt“.

8. Fimm sinnum á frakinu nærast faldastertur ljet sjer kærast, þrámálugur þyki mjer, „hjartanu hvað helzt er kærast“, honum má í orðtak færast, — „tungunni það tamast er“.

9. Þó sjer hrósi' af hyggju brunni hann, að greining gjöra kunni, fljóða vítt um falda reit; Skautaljóð hver skilja muni, skíra það af hvergi kunni, gjört hafi hann það ver en veit.

10. Þó um sætur síðan vitni, svoddan háð á lýgnum bitni, ei fjekk þessa áður gáð; einhver kann sko, á því hitni, „eptir á seinna kvað hinn skitni“, kom ósvinnum slægðar ráð.

11. Víntrjes blóm jeg veit ei saki, þó veglег kvinna þess sje maki, áður hvar jeg braut í blað, eitt sinn töngli á því fraki, áður heldur en mig ómaki, að frukta denti fyrir það.

12. Með brigzlum þó mjer ætli' að orna, álög þessi gömlu norna, þrælnum fylgja þar hann er; lendastropa' úr Fjölni forna, fær ei síður kvöld og morgna, sýjað heldur en sjálfur hjer.

13. Þó viðrisfjaðra suga segi, sætum varla' eg þjóna megi, merkilega' í höfum há; Skautaljóða faðir fengi, frúr kærleika — tvîlar engi, — ef kveður þar yfir krúsar lá.

14. Skautaljóða leiður ganti, leiðrjetti' þó nokkuð vanti, og færi' í lagið fyrir mjer; virðing mína vizku panti, veiklast fyrir orðafanti, „heimskur aldrei hygginn er".

Guðmundur Bergþórsson svaraði Þórði aptur undir sama lagi.

1. Digtað hefir enn drápu eina, drambsamlega þegi hreina, frakmeistarinn forni hjer, svars og leita' af mjer, eg meina, mun hann vilja' ef á skal reyna, „vinnur hver það vanur er".

2. Heyri' eg líka hann um biður, þó háðuglega felli niður, orðin sín með öfugan sann, leirburð sinn að laga viður, lætzt þó góður mærðarsmiður, „slíkt á skylt fyrir skæðin hann".

3. Vísna má hann vel til hlakka, vanda eg orð mín skár að þakka, heldur en flón, sem hæðir mig, þó bakslettur honum í hnakka hafi svo sem öðrum rakka, „hver hefur nóg með sjálfan sig".

4. Eddufans mjer eignar heiti, efunarlaust að fullu leyti, sjálfur hann að segja má; bevísning þar vil að veiti, viðkenningu' um að líkt hann breyti, „snöggt má mótti manni sjá“.

5. Konuna „skorðu“ kallar eina, kann ei betur rjóður fleina, trúi' eg það svo teiknað sjest; vísna skjali' ef vildi leyna, vissi' eg þegja betri sveina, „heimskur vera hygginn ljezt“.

6. Annaðhvort, það er mín gáta, ellegar vel má standast láta, sá hefur heldur mælsku' en mennt; sannlega í sama máta, svoddan vil jeg með honum játa, „því er fífl að fátt er kennt“.

7. Orðum gjörir svo illa hegða, um andstyggð húsgangs vill mjer bregða, guðs verk lasta gott með heipt; kæmi honum krankle'ks tregða, kann ske hann yrði hraknings megða, því dámlegri hefur dauðinn gleipt.

8. Skáldin til þess skyldi minna, skikkan sem að viktug kvinna, blóm þar nefna víntrjes vann; töngla skuli á fraki finna, forsvar les svo orða sinna, „enginn betur kvað en kann“.

9. Ekki hefur frakið forna, feðrað enn þá reynir þorna, úr Íslands bókum móðurmáls; þó kalli vitnin kvöld og morgna, kann þar

ekki við að sporna, „opt er lepra' í leyfum kálfs".

10. Frekt mun jeg hafa fræða sýju, forms birlaða orma spýju, þykk var nóg hans þenking ill; ódrekkandi enn að nýju, af því kann ske fær hann klýju, „svo fer þá ei veiðast vill".

11. Það er ei forsvar skikkjuskorðum, að skemma sig með heimsku orðum, þó skáldfíflið þenki sjer; merki' hann bezt þann málshátt forðum, er myndaðist á skrifara borðum; „heimskur aldrei hygginn er".

12. Í Eddu hefur sókt það sína, sjerlegt stryk mun hennar tína, stert þar nefnir stálið hann; háðyrðin á hróknum skína, hneixla vill svo vesöld mína, „þekkja má af máli mann".

13. Hann ei skyldi hirða' að raupa, heimsku mína' ei af sjer kaupa; vit hans ei-mitt skemmir skyn; hárs þó vilji straumum staupa, strax með orðum láta hlaupa, „strjúgjinn velli' hann sjálfur sinn".

14. Þó sje hann nú ei húsgangs herra, hans mun frægðin kunna að þverra, allra helzt ef hún er lök; sjeð hef jeg hnakka kött upp kerra,

kjaptshögg fá og annað verra, „feitur göltur fær vel sök“.

15. Væri' hann skáld og maðurinn meiri, merki vildi' eg það fróðir heyri, ei nafngipta mundi menn; fölur er hann af forvits leiri, fúlnar með honum Kvásis dreyri, „lund hver þjónar sinni senn“.

16. Þó hann hafi með lund óljúfa, látist vilja að mjer grúfa, níðorður með narra skrá; ber jeg ei þing nje buxna skúfa, brigzlaranum heilla þúfa, verður það ef auðnast á.

17. Þrútni' hann nú, en þó má senda, þriðja frakið mjer að benda, saklausum við upphaf ört; í þetta sinn jeg læt svo lenda, leirgleipparans svarið kennda, „margt er sjer til gamans gjört“.

## Steinn byskup Jónsson kvað á móti Skautaljóðum.

1. Kvásis tíðum opnast æðar, Íss á grundu, gjörðu lýðir golners flæða gjafir mundu.

2. Ekki spörðu óma strauminn út um sveitir, grábaks heiða gjörði njótar gáfu teitir.

3. Spanga slöngu hvergi hrelldu herjans veið-ar, kvæða söngar kættu heldur kyrtla heiðar.

4. Ekki finnum að þó gætum óms í blandi, að hýrum sætum hárs af minnum hatur standi.

5. Síst nú öldin undrum snúin aðra vega, og heyrnartjöldum hróður búin háðuglega.

6. Vill sá hjúpum Heimdalls-sverða háðung finna; vanur að súpa Sútlungs gerð, ef satt skal inna.

7. Eykur hnjóð því auðarheiðum orða kringum, með ógóðum viðris veiðum vestfirðingum.

8. Þækti betur Suðra sveima siglukarfi, óðar letur ætti heima' í öðru starfi.

9. En berlings staupa bjóður fús á boðnar víði, af fjölnis kaupa fullri krús ef fljóðin níðir.

10. Eður smán að auka hrundum ennisfeldum, hann sem lánið hefur að stunda hárs af keldum.

11. Helgur Pálus unni elda, einum býður, á heila skála háa felda hringa hlíður.

12. Um það getur ekki þó í öðrum sönnum, hvort skarti betur skautin mjó á skikkju nönnum.

13. Eða hylji heyrnarfjallið hjúpi víðum, það er að skilja' að hvorugt halli hróðri fríðum.

14. Ýmsa vega hafa hrundir hjarnar varna, og margvíslega mynd á undið moturs kjarna.

15. Ósvífsdóttir ei óvirt hjá auðarskorðum, krókfald þóktist kvenndið girt hafa kambs að storðum.

16. Þókti Kjartans glaðvært geðið gulls hjá Hildi, hreinu skarti mætur með í mesta gildi.

17. Eptir sínu sinni þannig seyma þilja, sjerhver línið lokkaranninn lætur hylja.

18. Hafa minna hjer um láðið hirðar þinga, ei þó spinna af því háðið eyjum hringa.

19. Ef einn þú smiður dvalins drafna dúfu níðir, um kvennaríð það sónarsafnið sízt þig prýðir.

20. Samlíkingar þínar þegi þarf jeg greina; þær munu þungar öðrum eigi, að jeg meina.

21. Falda mjófa sunnu síkja sól þó beri, blökku þjóa blöku' að líkja bannsett veri.

22. Eða væsils veggja bjarnar vöðva skýlu, slíkri hæla Hleiðólfs tjarnar, hver kann, fýlu.

23. Skaut uppdregin lokkalínum lagleg sóma, ólík greyja örgu svínum ei má róma.

24. Fleiri þarf jeg orð þín ekki upp að telja; það skal skarfsum bifars bekki borða velja.

25. Með gjálfri munns þó gautar sunnu grá-
baks lauta, er mjer gruns þú ekki kunnir af
þeim skauta.

26. Og með spekt þú leggja lín að lokka-
stöllum, veita tregt að vilja þín mun vífum
öllum.

27. Skautaræðan skreytileg ber skjótan hnekk-
ir, slíkt er að hæða sjálfan sig, en sætur ekki.

28. Óvart kann ske austra knörinn út rjeð taka,
ólíkan þeim fróns á fjöru fyrst ljezt aka.

29. Umbæt hróður, áls sem ljóma uglu hreit-
ir, blíðka slóðir dofra dóma darra beitir.

30. Fyrst þú ræður frostaránar fögrum lind-
um, lát ei æða móðu-mána að meyju kindum.

31. Yfirbót sú er þjer sett að yrkja betur,
mundarstjetta góins grjótið gleðjir betur.

32. Hverfur þannig hróars leir að hyggju
miði, lífi hrannar eysu eyr hver æ í friði!

Svar G. Bergþórssonar móti byskupi.

1. það er hjer vestra venjulegt, að vitrir segja:
skemmtun lestra skeytt er tregt, ef skáldin þegja.

2. Gauts ei fleyta gjálfurs trönum gríðar-
vindi, Kvásis æða benja bönum burt með yndi.

3. Gruns þó stafir góma blikið grafnir jörðu, opt þó hafi' að erstum tekið Íss á jörð

4. Föst ei heldur fyrir elda flæða heiðar; mín seldu eptir siðum óma veiðar.

5. Ljetu hljóma lauka brfkur, lofi gæddi óð um sóma og þó líka ekki hræddir.

6. Dandiskvinnu dáð þeir lofa' og dyggð siði, en hrósun hinna dróu' í dofa í drillu liði.

7. Skaparans merki svanna svinnum, sæm til lögðu, en hispurs verkum hældu minna' og hjer um þögðu.

8. Nú hefur öldin aðra ljósa art má finna, Fjölnis gjöldin fljóðum hrósa, en fölldum minna.

9. Ef smánar nafn með blóti og banni biðist sprundum, forsvars söfnuð færri svanna finna mundu.

10. Ef lök persóna löstuð væri' í lygðum rekstra, messu þjóna minna á bæri, margt sem dekstra.

11. Kuls má heita kviknan sú þótt klukkan hringi; fleiri verða' en fantar nú á falda þingi.

12. Bata' alvaldur víst án tafar vitrum sendi, króks sem falda kærri hafa, Krists handbendi.

13. Jeg formerki hlirni hafnar handar jaka, tals í verki títt ójafnir til mín kvaka.

14. Heimskir hreifa fjölnis fjaðra fornu gruggi, en hinir dreifa yfir aðra Ódreirs fruggi.

15. Einhver hrósa mínum mætti mærðargreinum, ef tylftarglósu trakka þætti á titli einum.

16. Hárs um lín þó heimskir þræti' í hjóli líku, hyggnir sýna lítillæti, að láta' að slíku.

17. Furðar mig að bókabjóður, bróks á linna, smækkar sig, að færa fróður fylgi hinna.

18. Þó glósa færi gagnstæðlegra gegna mætti, hugða'g vera heldur betra hans embætti.

19. Þótt hann hafi' ei leynd á lagt, mjer ljóð að senda, gefst því skrafi minni makt svo má sig henda.

20. Falda málið svinnra svanna svo má dæma, hinn helgi Pálus hefur ei bannað höfði' að sæma.

21. Þó rekkum kæmi rjett við fátt um ríkra siði, fáheyrð dæmi finnast þrátt um fáheyrð smíði.

22. Ósvífs dóttir dörs fyrir þorni draum sinn tjáði, vansemd þótti' að krókfaldskorni' og kasta náði.

23. Nú þókt skautin bríkur- beygi -burðar grana, æskubrautin þekkti þegi þann lands vana.

24. það má ráða' um titils trafa tíðkun snjalla, að gefnir þráða göfgar hafa girnst hana valla.

25. Auðs fyrst snotur eikin kvartað um það getur, Hrefnumotur hefur skartað heldur betur.

26. Dvalins rasta dýr þá rann um dælu bekki, fald rjeð lasta forljótan en frómar ekki.

27. Hver má hyggja' að sínum sóma svo sem skyldi, enga styggja lægis ljóma lofn jeg vildi.

28. Máls þar fleinum margir bitrum mjer að fara, hverjum einum hlýt jeg vitrum hreint að svara.

29. Kvásis blóðga vildi' eg víst þó við hjer lendi; hirðir- móðga -hökla síst, sem heill mjer sendi.

30. Veit hann sjálfur þó af því í-þanka snjöllum, um byggða álfur breytni ný er bönnuð öllum.

31. þannig greini' eg þundar fund á þrætu miði; lifi menn og lundhýr sprund með lyst og friði.

Sjera Bjarni Jónsson kvað.

1. Stirðar bögur stofna ferð, stórðar gulls jeg sendi' á borð, hirða glöggt sem hafa verð, horfðu' á skálka fáein orð.

2. Merkt hefi' eg hjá mönnum gort, margt þeir þykjast kveða rart, vert er straffs það illa' er ort, art er meira' að kveða þarft.

3. Sumir ikka súra gjamm, sómalaust um kvenndin fróm, numið hefur skrum og skamm, skjóma máls úr þeirra róm.

4. Aðrir fara lista leið, ljóðin heyrum þeirra fróð; maður þekkist máls af sneið, móður hver í brjósti stóð.

5, Strandar linda-glósu' um -grund, Gvend-ar skyldu ljóðin brennd, hunda til, svo hýrni sprund hending gag'ra villu' er send.

6. Skauta brag hans skrá'kan veit, skrítilegan þann álít; grautnum þeim af Gemsi dreit, grýti menn í Óðins hýt.

7. List er sú í ljóðum vest, að lasta perlu strandir hast; Kristí dæmi bannar bezt, bast að leggja á þær fast.

8. Enginn skal þó auðarspöng, unglát dramba

úr sínum pung; kengbogin þau kunna göng, klungri vafin verða þung.

9. Þekkar snótir smíði stakk, snikkaðan fyrir utan h'ykk, ekki' er vert að skekkja á skakk skikkið falda' og smíða úr gikk.

10. Skrúfu vaf og skaut um of, skrafa' eg fólkið leggi af; dúfa falds með dyggða lof, draí engu saurgi traf.

11. Hrokafaldar hafa ei rök, hrakið þetta burtu tak; okið guðs fyrir eina sök, aka kann þeim snöggt á bak.

12. Skottið hnakka skuli flatt, skvettast til um heyrnar klett, vottur þessi segir satt, sett er skautið ekki rjett.

13. Stilling gætni stúlku fjell, stall ef smíðar eins og fjall, hyllu með við hnakkafell og hallist út á valafjall.

14. Strýtu blakka' og lága' eg leit, ljóta mjög við krúnu mót; hvítan fald í hófi veit, hljóta skyldir gehug snót.

15. Flýðu víðan fald jeg ræð, flúðu móðinn, skortir dáð; síðan þíður svari hæð, sjáðu rjóða krakaláð.

16. Sjerflagi vellavör, varastu að ofanfat, eru þessi praktarpör, par ei nema findingar.

17. Hofpíkum með hjal og skraf, hefi' eg að segja þetta, ef of lengi sitt telja traf, tefur að heyra messustef.

18. Mitt er fyrst að minna' á rjett, máttu vita að þenkja átt: þitt er ljóst að laga hann sett, láttu málið þar með sátt.

19. Veld jeg því að veigafold, valda þökk mjer sendi í kvöld, held jeg þá að hringamold, haldi við sinn væna fald.

20. Gróttu - dáða - grundin sátt, gættu þess að deyja' er hætt; nótt mun ráða blundi brátt, bættu versið þegi mætt.

21. Hertur strengur hafinn burt, hirtu ei villa bragað myrkt; vertu lengi vafin kurt, virtu' ei illa gagur stirt.

---

# Hársljóð.

Kveðin af Árna Gíslasyni á Höfn.

---

Þó að eg vildi, þá er það margt,
þuluna fljetta, sem mig þar frá skekur;

kann eg ei neitt
því kent var mjer aldrei,
nema huldu manns hátt
úr hólum komin.

En eg er við hafsbrún
útskerjum hærri,
þar belja stórhveli,
og buldran sjáfar;
sterkir stormar
og straumar harðir,
vöðu niður
og varga ólæti.

Ekki er ráð,
nema í tíma sje tekið,
eg veit ekki nema
eg verði barnfóstra;
því vil eg börnum
bjóða kvæði,
það eg heyrði' og sá,
það hefir eg numið.

Það var morguns
mjög tíðlega,
þá röðull rauður
rann úr ægi;
þá vóru eikur
alblómgaðar,
lá gras grænt,
en grædir lognhvítur.

Óðinn föður,
í arnar líki,
sá eg á Hliðskjálf
hátt uppsettan;
hann var að raula
við raust og tjeði
ný heilræði
niðjum gefin.

Hans voru fiðurhár,
fögur að líta,
sem borið gull móti
birtu sólar;
glóuðu fjaðrir,
glansaði' af vængjum
höfðu hremsur lit
hvíta silfurs.

Hans ljetu hljóð
sem harpa vel slegin,
eða sönghafgyðju
seimur í bárum;

sú gullloga hábrók
galaði skærra
enn feigur svanur,
og svaraði þannig:
„Vel skyldi, vel skyldi,
vorum niðjum
og súpendum
Súttungsmjaðar;
myrk eru forlög,
margt er að varast,
því er ráð ráðhollra
ráð að þyggja“.
„Opt eru gamlir
góðir að ráðum;
en röksemd bernskra,
í ráðleysu
óráðið verður
einatt að happi,
en misræði það
sem þjóðráð heitir“.
„Fláræði hyggi
horskur að varast,
það er fáræði
flestu verra;
bráðræði býr um
bana mörgum,
en áræði eykur,
otrum þroska“.
„Hófs skyldu jafnan
höldar gæta,
og vel með varygð,
vera forsjálir;
það mun úrræði
ætíð spökum
betur en vondum
vjelan dugar“.
„Hóft skyldi ríða,
bröðu dýri
gjarða yfir
grund ósljetta;
brátt hefur bagi
af byltu hlotizt
því hófur er háll
enn hellur sleipar“.
„Hóft skyldi skeiða
á hölltu svelli
á óbryddu
yfir klungri;

optast er brattgengni
blönduð með fífisku,
en afli á ís hálum
enginn treysti“.

„Hóft skyldi sigla —
hvinfilvindi —
skeið skammkjala
á sköflum Ránar;
en þess er að gæta,
það má ei varast,
að flest að fári
feigum verður“.

„Hóft skyldu láta
horskir þegnar,
því völt er veröld
þegar vel gengur;
sá eg að morgni
settu beimar,
fley á mar
í fögru veðri“.

„Þróaðist vindur,
þroskaðist bára,
risu af Ránardætrum,
rokur sævar;
en ácur enn sunna
var sígin að víði
snjeru keipar þar
sem kjölurinn átti“.

„Hóft skyldu láta
horskir þegnar,
þó vaxi vegur
og velgengni;
opt fær stoltur
stuttan heiður,
og vaxandi móður
minnkandi lukku“.

„Vert er að þekkja
það vel trúa skyldi,
en vant af dóm
um dyggðir að ætla;
opt er fúinn mergur
í fögrum viði
annað er litur
en lukka tíðum“.

„Valt er að ætla
á voðir gamlar,
ós á sandi,
ís í fjörðum;

vorveðráttu,
viku þjenara,
loforð lausgerðra
eður ljúgvitni".
„Ei skaltu trúa
urðar mána,
logn launboða,
læðu gesti;
hauk hraunföstum,
hjelu árdegis,
bani bris knyttu
eða bráðri lukku".
„Sofandi manni,
sjóðandi hveri,
kveðandi konu,
komandi hviðu;
hangandi hrauni,
hlaupandi skafli,
fallandi húsi
eða frosnu stáli".
„Snemmum grasgróða,
grænku hafskýja,
hagli' úr alheiði,
hverfum lognbárum;
himni hrímrauðum,
hlýju skammdegi,
vestan vind hála,
vetrar þoku.
„Ei skyldu þessu
ýtar trúa;
en þó vin þeim verst
er vjelum beitir;
þar til ragna-
rökkur á dynúr,
og landlög
líða með Ásum".
Nú eru Hársljóð
horfin eyrum,
en Assa í bráð,
í burtu flýgur;
það munu ýtar
ei öfgar kalla
þó myndi' eg ei meira
at máli slíku.

---

# Draumljóð.

Kveðin af Sigarði Jónssyni.

---

Einn var eg staddur
orms á bana,
fjærri vöku
í föstum blundi;
gamlan ár eg leit
gullnum fjöðrum
til mín fljúgandi,
og tala þannig:
„Heyrðu vinur!
hvað er til fallið?
þitt yfirbragð lýsir
óánægju;
hjartað mun spennt
hörðum móði,
eða banasótt
býr þjer helju".
„Þó mun þjer heldur
horfin kæti,
en hættuleg sótt önnur
halnum grandi;
þó ei sje mjer snoturt,
orðfæri gefið,
heyr samt og nem
hvað eg segi".
„Hrittu trega
úr hugfullu brjósti,
og haslaðu völl
þínum hugrenningum;
því meðan eg fram hjá
fluginu beini
vilda'g kæta þig
með kvaki mínu".
„Heilræðis orð
vildi' eg halnum kenna,
og sannmæli nokkur
segja í eyra;
einnin úr „Hávamálum",
hreifa sögnum,
því margt var það gott
sem gamlir kváðu".
„Óhöpp þín skaltu
ei öðrum kenna,

nje sjálfan þig ásaka
í sögðu efni;
þreyðu' ei lengi
það saknaða,
og leggðu ei langt upp
lýða meingjörðir".
„Og þó í tryggð
tældur yrðir,
eða sárlega
svikin værir;
því afleiðing hver hlutur
á sjer vissa
í alvíss stjórnreglum
afskammtaða".
„Enginn maður
á öld neinni
forlögum sínum
fyrir rjeði;
því alfaðir skóp
alda sonum
áður öld fram kom
öll tilfelli".
„Svo vilja tilraunir
verða að engu,

og atburðir manna
er ónýtir reynast;
ef ei hittist
á augnamið rjetta
því ráðstöfun guðs
raskar engin".
„Heilla ráð
sem höldar möttu
opt höfðu illar
afleiðingar;
en misráðið
sem mörgum sýndist
einatt varð heill
og hagsæld lýða".
„Ekki' er allt
sem ýtum sýnist;
opt er fögur björk
fúin til mergjar;
forspá er horfin
fýra sonum,
fá'r kann ókominn
forlög segja".
„Engu' er að treysta
undir sólu,

utan aðstoð þess
allra hæsta;
því vinsældir, auðna,
vald, lán og hreysti
á augnabragði
einatt missist“.

„Hár forðum kenndi
Heimdalls mögum
að mann-orðum skyli
manngi trúa;
ísi einnættum,
ormi hringlögðum,
brúðar beðmálum,
nje brotnu sverði“.

„Brestandi boga,
brennandi funa,
gínandi úlfi,
galandi kráku;
rýtandi svíni,
rótlausum viði,
vaxandi vogi,
vellandi katli“.

„Húsi hálfbrunnu,
hesti allskjótum,
vilmæli völu
eða val nýfeldum;
en auð kvað hann valt-
astan
vina allra
víst und' sólu
virðum reynast“.

„Þetta sagði Hár
hundheiðinn
í „Hávamáli“
Heimdalls niðum;
en eigi skyldu upplýstir,
alda synir
auði treysta
æðstum framar“.

„Treystu ekki
tælandi vinum,
og vjelaðu engan
vin trúfastan;
leggðu ei tryggð-
við táldrægni lýða,
allra sízt ást
við óeinlægni“.

„Hið hinnsta vil eg þjer

halur um ráða,
hugsaðu á fram
hvað á dynur;
ekkert sje langt
sem endað getur
sem óðfluga streymir
æfi manna“.

„Því seint mun þjer
hverfa
sorg úr brjósti
fyrr en soltinn
seggur verður;
og í fjörgýnar
fylsnum byrgist,
og farsældar bústað
fengið hefur“.

„Nú hef eg dvalið
nógu lengi,
fer því á ferð
og finnst ei síðan;
ef nokkur frjettir þig
að nafni mínu
nefndu mig Finna
og njóttu draumsins“.

Vaknaði eg
af værum blundi
og hugsaði' um heilráð
hverfandi þessu;
ef nokkrir hirða
að nefna kvæðið,
kalli þeir Draumsljóð
drápu stúf þenna.

---

# Kjól - kvæði.

Ort af
sjera **Hallgrími** sál. **Pjeturssyni.**

1. Einu sinni átti' eg kjól í smíðum, aldurs seint á nokkrum mínum tíðum; í tólf mánuði tættur var, tvær og átta konurnar, einatt þó með andvökunum stríðum.

2. Átján fóru ofan af ull að tæja, ekki sögðu þetta mundi nægja, vífin þessi voru að, í vikur sex ei skruma jeg það, af handa lúanum hátt þær gjörðu að æja.

3. Kembdu togið kyrtla hrundir átta, kveiktu ljósið strax sem tók að nátta, fóru þær aldrei fötum af, í fjórtán dægur engin svaf, mun þeim verða mál um síðir að hátta.

4. Þrjátíu saman þráðinn fljóðin spunnu, þetta þó af öllu kappi unnu, taldar voru tíu og tvær, tafðar aldrei frá voru þær, lækjar-svitarnir einatt af þeim runnu.

5. Þæfður var hann í þrettán heilar vikur, það fóru í hann þrennar átta stikur; út kom aldrei á honum ló, engir litu þvílíkt þóf; þó var hann af þóflykkjunni kvikur.

6. Þæfðu fjórtán þenna kjólinn mæta, það kom í þá sundurlyndi' og þræta; um allar byggðir Ísalands, að var dreginn múgur manns, átti hver fyrir öðrum um að bæta.

7. Á Langanesið lyngið sótti mengi, láu þeir þó við Jökulsána lengi, á tvennum hestum tíu bar, tólf fjórðungá klyfjarnar, sætur engar söguna mína rengi.

8. Litunarketillinn ljeður var frá Hólum, látinn upp að ofanverðum jólum, sem Grettir sókti með frægð í foss; fregnin þessi bar fyrir oss, brutu undir honum bjartar hringa tróður.

9. Farvað hafa hann fljóðin átta og níu, fullar var hann í litnum vikurnar tíu, austur í Heklu

sortan sókt, á sextán hestum valin drótt, ei mun hann líkur óþokkanna rýjum.

10. Taldar voru þá tvær vikur eptir af vetri, trú' eg það sje víða skráð í letri, var hann þá dreginn loks úr lög, og látinn upp á Hóla stög; finnst hjer enginn farvaður honum betri.

11. Elina stjarna ein fór hann að sníða, önnur líka Marsibil hin fríða; upp til vaktar voru senn, vífin öll og töfra menn, mun slíkt ekki skrifað í bókum víða.

12. Firðar sendu fóðrið upp að leita, flesta þeir kanna landsins byggða reita; síðan fannst það suður í Róm, sett og prýtt með töfra dóm, hvorki var það hafra skinn nje geita.

13. Sniddara skærin snotur voru að líta, snarpeggjuð á flest allt kunna' að bíta, sex hafa dvergar samið þau, sókt í dökkan Úrners haug, allt eins lit og unnarbálið hvíta.

14. Önnur kinnin var úr Jóhanns sverði, sem meistarar þrír með hagleik mestum gerði, önnur send úr Dýrumdal, dvergum frá með lista val, nú er ei kyn þó nokkuð bíta verði.

15. Þolinmóðurinn þau mun verða að stoða, þrettán dvergar gjörðu hann saman að hnoða, af Brynþvara oddi brotið var, bila kunni ekki par, flestir munu fúsir til að skoða.

16. Sókt var nálin suður í Asía-veldi, fyrir sextán dali kramarinn hana seldi, auga stór en ekki sljó, æði löng og lista mjó, kynjar mig ei þó kjóllinn þessi hjeldi.

17. Að honum voru í átján tveppa daga ekki þurftu þær um verkið að klaga, löfin voru með listum sett, líka og þau fóru sljett, farizt hefur þeim fyrri lepp að staga.

18 Nenni eg ekki nú um þettað ljóða, Norðrarferju skal því engum bjóða; brestur hjer við boðunar sker, bilast og við þagnar kver, hringa eikur haldi mjer til góða.

---

Öllum þeim, sem elska kvæði, ungum jafnt og gömlum bæði, þetta litla Ljóðakver; flytur kveðju' og þakkir þíðar, þriðja heptið kemur síðar, þjer ef kaupið þetta' að mjer.

---

## Helztu leiðrjettingar:

Bls. 18., 3. l. a. o. þessa, l. passa, Sömu bls., 5. l. a. n. lífnsöng, l. línspöng. Bls. 24., 1. l. a. n. eikur, l. eikar. Bls. 39., 2. l. a. n bland, l. blund. Bls. 41., 3. l. a. o. hafði, l. sagði. Sömu bls., 11. l. a. o. herramaðurinn, l. herramaður. Bls. 46., 2. l. a o. ágirndin, l. áhyggjan. Bls 56., 12. l. a. o. biðillinn, l. biðillinn. Sömu bls., 6. l. a. n. sitja, l. setja. Bls. 62., 4. l. a. o. bauga, l. banga. Bls. 74., 6. l. a. n. dað, l. dáð. Bls. 79., 12. l. a. o. með með, l. með. Bls. 93., 12. l. a. n. þeysti l. þyrsti. Bls. 97., 6 l. a. n. greira, l. geira. Bls. 101., 11. l. a. o. flottan, l. flóttann. Bls. 105., 4. l. a. o. heljaði, l. beljaði. Bls. 106., 5. l. a. n. Loku, l. Loka. Bls. 117., 6. l. a. n. Sautaljóð, l. Skautaljóð.

---

